# Tímarit

**Þjóðræknisfélags**
**Íslendinga**



**XXX ÁR**



WINNIPEG, MANITOBA

1948



# TÍMARIT

**Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**

XXX. ÁRGANGUR

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megni að Íslendingar megi verða sem bestir borgarar í hérlendu þjóðlífi.
2. Að styðja og styrkja íslenska tungu og bókvísi í Vesturheimi.
3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli og hvetja vill þá til framsóknar og virðingar til jafns við þá þjóðflokka aðra, er þetta land byggja.

Ársgjaldið er aðeins 1 dollar, og fá allir skuldlausir félagsmenn, er það borga, þetta tímarit ókeypis.

**Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi**
Winnipeg, Canada

# IN MEMORIAM

## HEIÐURSFÉLAGAR OG FORSETAR

His Excellency Lord Tweedsmuir, Hon. Patron
Kjartan Helgason, fyrrum prófastur
Stephan G. Stephansson, skáld
Frú Stephania Guðmundsdóttir, leikkona
Prófessor Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld
Þorbjörn Bjarnarson, skáld (Þorskabítur)
Einar H. Kvaran, rithöfundur
Ragnar E. Kvaran, fyrrum prestur og forseti
Kristján Níels Júlíus (K. N.), skáld
Séra Jónas A. Sigurðsson, skáld og forseti
Dr. Rögnvaldur Pétursson, forseti og ritstjóri
Prófessor F. S. Cawley, Ph.D.
Friðrik Swanson, málari
Kapt. Sigtryggur Jónasson
Dr. B. J. Brandson, læknir
J. Magnús Bjarnason, rithöfundur
Dr. Hjörtur Thordarson, raffræðingur
Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir, skáldkona

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1948

---

**A. Heiðursverndarar**

His Excellency the Right Honourable The Earl of Athlone, K.G.
Herra Sveinn Björnsson, forseti Íslands

**B. Heiðursfélagar**

Dr. Vilhjálmur Stefánsson, landkönnuður, New York
Prófessor Halldór Hermannsson, Cornell University, N. Y.
Prófessor Sigurður Nordal, Háskóla Íslands, Reykjavík, Ísl.
Prófessor Árni Pálsson, Háskóla Íslands, Reykjavík, Ísl.
Dr. Watson Kirkconnell, President Acadia Univ., Wolfville, N. S.
Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y.
Rt. Rev. C. V. Pilcher, D.D., Sydney, Australia
Jóhannes Jósefsson, íþróttamaður, Reykjavík, Ísland
Þorst. Þ. Þorsteinsson, rithöfundur, Winnipeg, Man.
Guttormur J. Guttormsson, skáld, Riverton, Man.
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skáld, Winnipeg, Man.
Mrs. Jakobína Johnson, skáldkona, Seattle, Wash.
Mrs. Laura Goodman Salverson, skáldkona, Winnipeg
Fröken Halldóra Bjarnadóttir, Ritst. Hlín, Akureyri, Ísland
Jónas Jónsson, alþingismaður, Reykjavík, Ísland
Thor Thors, sendiherra Íslands, Washington, D. C.
Ásgeir Ásgeirsson, alþingismaður, Reykjavík, Ísland
Séra Runólfur Marteinsson, Winnipeg, Man.
J. T. Thorson, yfirdómari, Ottawa, Ont.
J. J. Bíldfell, Winnipeg
Árni G. Eylands, Reykjavík, Ísland
Sigurgeir Sigurðsson biskup Íslands
Gunnar B. Björnson, Minneapolis, Minn.
Ásmundur P. Jóhannsson, Winnipeg, Man.
Einar Jónsson, myndhöggvari, Reykjavík, Ísland
Vilhjálmur Þór, Reykjavík, Ísland
Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins, Winnipeg, Man.
Dr. John C. West, forseti Ríkisháskólans í North Dakota, Grand Forks, N. D.
Próf. Ásmundur Guðmundsson, formaður í guðfræðideild Háskólans í Rvík.
Séra Albert E. Kristjánsson, prestur, Blaine, Wash.
Dr. Helgi Briem, Aðalræðismaður, Stokkhólmi í Svíþjóð
Sigurður Þórðarson, söngstjóri, Reykjavík, Ísland
Dr. Thorbergur Thorvaldson, prófessor í efnafræði, Saskatoon, Sask.
Dr. Árni Helgason, raffræðingur, Chicago, Ill.

C. **Ævifélagar**

Árni Sigurðsson,
Seven Sisters, Man.
Dr. Helgi P. Briem,
Consul Gen. of Iceland,
Stockholm, Svíþjóð
Grettir Leo Jóhannson,
Icelandic, Danish Consul, Winnipeg, Man.

D. **Ársfélagar**

1. ÍSLAND

Hinrik Björnsson,
Reykjavík
Þórhallur Ásgeirsson,
Reykjavík
Dr. Eggert Steinþórsson,
Reykjavík
Frú Gerður Steinþórsson,
Reykjavík
Fröken Jóhanna Friðriksdóttir, Reykjavík
Frú Guðrún J. Erlings,
Reykjavík
Mrs. Rannveig Schmidt,
Reykjavík
Eggert Levy, hreppstjóri,
Ósum, Húnavatnssýslu.
Gunnar Norland,
Reykjavík
Árni Friðjónsson,
Siglufirði

2. ENGLAND

Miss Ingibjörg Ólafsson,
Stella Maris,
Rottingdean, Sussex

3. CANADA

**Árnes, Man.**

Mrs. Anna H. Helgason
Ísleifur Helgason
Mrs. Guðrún Johnson
Jónas Ólafsson
O. G. Ólafsson
Þorsteinn Sveinsson
Sigurður J. Thorkelsson

**Ashern, Man.**

Hermann Helgason
Dr. S. E. Björnsson
Guðm. Sigurðsson

**Benalto, Alta.**

Jóhann M. Hillman

**Brandon, Man.**

Dr. E. J. Skafel

**Calgary, Alta.**

Jóhann Bjarnason
Sigurður Sigurðsson

**Camp Morton, Man.**

Þorsteinn Sveinsson

**Clairmont, Alta.**

Magnús G. Guðlaugsson

**Elfros, Sask**

Jón Jóhannesson
Sigurður Arngrímsson

**Frobisher, Sask.**

Hjörtur Bergsteinsson

**Hayland, Man.**

Mrs. Stefanía Guðmundsson
Sigurður B. Helgason
Ólafur Magnússon
Geirfinnur Pétursson
Mr. og Mrs. Freeman
Halldórsson

**Hnausa, Man.**
Daniel Halldórsson
Hildibrandur J. Hildibrandsson
V. G. Stadfeld
Sigvaldi Vídal
Miss Sigurrós Vídal

**Hodgson, Man.**
Rögnvaldur S. Vídal

**Jarvil, Alta.**
Mrs. Helga Björnson

**Kenora, Ont.**
Mrs. Sigríður Pálsson

**Keewatin, Ont.**
Bjarni Sveinsson

**Langruth, Man.**
Sigfús Benediktson

**Loomis, Sask.**
B. Bjarnason

**Markerville, Alta.**
Mrs. Rósa S. Benediktson

**Marquette, Man.**
Mrs. Sigríður Sveinson
S. G. Sveinson

**Matheson Island, Man.**
Árni G. Johnson

**Narrows, Man.**
Miss M. Gunnlaugsson
Kristján Guðmundsson
Joe Kernested
Mrs. Arnþóra Kernested
Miss Katrín Kernested
Guðmundur Thorkelsson

**Osland, B. C.**
Kristján Einarsson
Friðrik Kristmansson

**Oak Point, Man.**
Jón Finnsson
Eric Stefánson
Th. Gíslason

**Oak View, Man.**
Mrs. Jóhannes Johnson
Sigurður Sigfússon
Thorsteinn Johnson

**Ottawa, Ont.**
Dr. John B. Watkins.
Christian Sivertz

**Otto, Man.**
Mrs. Guðr. G. Eyjólfsson

**Piney, Man.**
Mrs. B. E. Björnsson
Kristinn Norman
Lárus S. Freeman

**Red Deer, Alta.**
Ófeigur Sigurðsson

**Riverton, Man.**
Mrs. Arnheiður Eyjólfsson

**Saskatoon, Sask.**
Próf. T. Thorvaldson,

**Selkirk, Man.**
Ásgeir Bjarnason

**Sexsmith, Alta.**
Jón Einarsson

**Siglunes, Man.**
Davíð Eggertsson
Miss Guðbj. Eggertsson
Ásmundur Freeman
Grettir Fossman

**Swan River, Man.**
Mrs. Thórdís Samson
C. Guðmundson

**Tantallon, Sask.**
Helgi Vigfússon

**Thicket Portage, Man.**
J. H. Johnson

**Toronto, Ont.**
Einar I. Svanbergson
J. Ragnar Johnson
Mrs. H. L. Robson

**Vancouver, B. C.**
Mrs. Kristjana Anderson
Magnús Elíasson
Mrs. Matth. Friðriksson
Mrs. H. S. LeMessurier
Mrs. Anna Matthíason
S. Guðmundsson
Thor Guðmundson

**Victoria, B. C.**
Dr. J. P. Pálsson

**Virden, Man.**
Böðvar Johnson

**Vogar, Man.**
Björn Eggertsson
Framar Eyford
Tómas Guðmundsson
Mrs. Unnur Hallson
Mrs. Ingibj. Eggertsson
Mrs. Óli Johnson
Miss Margrét Lambertson
Óli Johnson
J. Eyford

Jónas Johnson
Lestrarfél. "Herðubreið"
Magnús Jóhannesson
Björn Johnson
John S. Johnson
Óli Johnson
Óskar Johnson
Guðmundur Jónsson
Páll Jónsson

**Wapah, Man.**

Mrs. Fritz Erlendson

**Watrous, Sask.**

Pétur N. Johnson

**Westbourne, Man.**

Mrs. Lára Sveinsson

**White Rock, B. C.**

S. D. B. Stephanson

**Wilkie, Sask.**

Miss Dóra Davidson

**Winnipeg, Man.**

Mrs. Sigríður Árnason
Mrs. Jónína Christie
Mrs. Gyða Hurst
Próf. Skúli Johnson
Guðm. F. Jónasson
Capt. Vilhelm Kristjánsson
Magnús Markússon
S. W. Melsted
Dr. B. H. Olson
Jón Sigurðsson
G. S. Thorvaldson, K.C.

**Wynyard, Sask.**

Jakob J. Norman

4. BANDARÍKIN

**Alexandria, Va.**

Leifur Magnússon

**Arlington, Va.**

Mrs. J. Sigmundsson

**Baltimore, Md.**

Dr. Stefán Einarsson

**Berkeley, Calif.**

Próf. Sturla Einarsson
Rev. S. O. Thorlákson

**Blaine, Wash.**

Mrs. Kristín F. Líndal

**Boston, Mass.**

Kapt. Jóhannes G. Ásgeirsson
Kórmakur Ásgeirsson
Einar Barnes
Ari Bjarnason
Kapt. Jóhannes Björnsson
Kapt. G. K. Eggertsson
Kapt. Björgvin Einarsson
Valgeir Einarsson
Chr. A. Guðjohnson
Ágúst Guðmundsson
Andrés Guðmundson
Kapt. Thor Guðmundson
Kapt. Grímur Hákonarson
Jónas Hallgrímsson
Björn D. K. Haralz
Kapt. Gunnlaugur Illugason
Kapt. Axel Jóhannsson
Kapt. Guðmundur Jóhannsson
Norman B. Johnson
Gunnlaugur Jónsson
Kapt. Theódór Jónsson
K. Markússon
Sigtryggur Ólafsson
Guðmundur Pálsson
Adolf Petersen

Pálmi M. Sigurðsson
Valdimar Peterson
Jakob J. Thorvaldson
Capt. Oskar Gíslason

**Bottineau, N. Dak.**
Ásmundur Benson
Óskar B. Benson
Albert Árnason
Mrs. George Freeman

**Brooklyn, N. Y.**
Rev. David Gulbrandson

**Buena Park, Calif.**
Mrs. J. Gillis

**Cambridge, Mass.**
Próf. Francis P. Magoun, Harvard College Library

**Camp Crowder, Mo.**
Chaplain G. B. Guðmundsson

**Chicago, Ill**
S. Árnason
Emil Beck
Bragi Freymóðsson

Dr. Árni Helgason
Sigurthor M. Hinrickson

**Cismont, Va.**
Próf. Frederic T. Wood

**Davis, Calif.**
Dr. V. S. Ásmundsson

**Detroit, Mich.**
Hon. Frederick H. Fljózdal
Jónas W. Johnson

**Duluth, Minn.**
Rev. Sveinbjörn Ólafsson

**Fargo, N. Dak.**
Dr. B. K. Björnsson
W. A. Myrdal
Próf. F. W. Thordarson

**Gloucester, Mass.**
Einar Anderson
Jónas B. Johnson

**Grand Forks, N. Dak.**
University Library

**Hallson, N. Dak.**
Árni J. Jóhannsson

**Huntington Park, Calif.**
Dr. Paul V. Jameson
Miss Ellen Jameson

**Ivanhoe, Minn.**
Peter H. Foss

**Jackson, Mich.**
Andrew H. Palmi

**La Kota, N. Dak.**
Einar Johnson

**Lincoln, Nebr.**
Próf. Joseph Alexis

**Los Angeles, Calif.**
Gunnar Bergman

**Minneapolis, Minn.**
Ásm. Bjarnason
Björn G. Björnsson
Hjálmar Björnsson
K. Valdimar Björnsson
Sr. David Gulbrandson

# TÍMARIT

## Þjóðræknisfélags Íslendinga



ÞRÍTUGASTI ÁRGANGUR, 1948

Ritstjóri: Gísli Jónsson




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi

1949

# Myndirnar



PRENTAÐ HJÁ VIKING PRINTERS, 853 SARGENT AVENUE, WINNIPEG, MANITOBA

# EFNISYFIRLIT

# Tónlistarmaðurinn Jónas Pálsson

Eftir séra H. E. Johnson

---

Meistarinn sagði einhverju sinni, að maðurinn fæðist oftar en einu sinni, eða endurfæðist, og þótti lærisveinunum það þung kenning og lítt skiljanleg. Þeir fengu ekki skilið, að hann átti hér við endurfæðingu á andlega vísu. Á þann hátt fæðist gáfuð og hrifnæm sál inn í ýmsa heima.

Smalinn situr á smalaþúfunni og sér fegurð foldar — sér tignarmynd gnæfandi jökulfjalla í sumardýrðinni. Hann sér glampandi læki í grænum hlíðum og regnbogans unaðsfegurð í úðaskini hvítra fossa; hann sér síbreytilegar myndir í silfurtærum heiðavötnum. Fegurðin heillar huga hans, og andinn nemur óðal sitt í hulduheimum náttúrunnar. Þar á hann svo heima eftir það ævilangt.

Í smalamenskunni hlustar hjarðsveinninn á hljómkviður náttúrunnar: á lóukliðinn, á svanasönginn við heiðavötnin bláu, á trillukveðanda Maríuerlunnar út um móa, á vatnaniðinn og fossaföllin. Hann fæðist inn í draumljúft samræmi tónanna, og löngunin vaknar, að verða þátttakandi í samsöngnum.

Jónas Pálsson var einn þessara hjarðsveina, sem hlustaði á þessar raddir, hlustaði á samskonar raddir innra með sjálfum sér og reyndi að túlka þær í æsku. Þannig er sagt frá því, að hann hafi leikið á harmoníku í yfirsetunni og, eins og Gunnar í Ormagarðinum, svæft ærnar.

En þótt andinn svífi óravegu um unaðsveraldir, binda samt aðstæðurnar einstaklinginn við virkileika hins verðandi mannlífs, þann ömurlega virkileika, sem úrræðaleysi vanhyggjunnar og rangsnúið aldarfar skapa. Jónas komst snemma til vitundar um þau herfilegu sannindi, að þeir, sem lengstan daginn erja, hreppa oftast smæsta skerfinn af uppskerunni. Sá unglingur, sem gáfu hefir til að nema sannleikann, þótt ljótur sé, og horfir óglöptum augum á staðreyndirnar er líklegur til að dvelja í ríki og félagsskap hinna byltingasinnuðu um langan aldur. — Hann hlustar þar á reiðilestur hinna réttlátu. Jónas hlustaði á mótmæli Þorsteins Erlingssonar og síðar á prédikanir Stefans G. og gleymdist aldrei það sem meistararnir innrættu honum.

★

Jónas Pálsson fæddist á bænum Norður-Reykjum í Hálsasveit í Borgarfjarðarsýslu 29. ágúst árið 1875. Foreldrar hans voru þau hjónin Páll Jónasson og Sigurbjörg Helgadóttir. Páll var valinnkunnur sæmdarmaður talinn af sveitungum sínum. Hann létst, þegar Jónas var enn á æsku skeiði. Sigurbjörg móðir hans var hin glæsilegasta kona, gáfuð, skemtileg í samræðum, góðhjörtuð og einkar lagið að annast sjúklinga.

Eftir lát fyrri mannsins giftist Sigurbjörg í annað sinn Skarphéðni Ísleifssyni. Bjuggu þau víst við lítil efni, sem

var flestra hlutskifti í fátæktinni heima á þeim árum. Urðu því eldri börnin að fara í vist. Ungur varð Jónas smali á efnaheimili, en vistin reyndist svo hörð, að móðir hans varð, áður langt leið, að bjarga syninum úr vaneldinu. Hafði þessi reynsla mikil og varanleg áhrif á sveininn, sem kyntist þarna hlutskifti hinna snauðu á átakanlegan hátt, sem sjá má af þessum vísupörtum úr brag, er hann orti skömmu síðar — þá enn unglingur:

Er heilsar okkur unaðsfagurt vor
og alt er glatt og fuglar syngja oss yfir,
þá er það bágt, að fólkið hrynji úr hor,
og hungrað, tálgað, skinið, það sem lifir.

og síðar:

Ef sumir tala illa valin orð,
er óðar hlaupið, málið birt og klagað.
En þó að aðrir fremji á manni morð,
er mokað yfir slíkt og altaf þagað.

og enn síðar:

Það þyrfti að kaupa hundrað hesta af
skóg
og hýða þetta pakk á hverjum degi.

En hann var gæddur óbilandi áræði og dugnaði, og áhuga fyrir að brjóta sér sjálfur braut til frama. Tók hann brátt að stunda sjómensku, en hljómlistarlöngunin hvarf honum víst aldrei úr huga. Og með það í huga fór hann austur á Eyrarbakka til að nema orgelspil hjá Jóni Pálssyni, og hugðist jafnframt að vinna þar fyrir sér við sjóróðra. Þakkaði hann Jóni mest þá uppörvun og þann skilning er hann fékk hjá honum í sönglistinni.

Skömmu síðar innritaðist hann við Latínuskólann í Reykjavík, sem þá var aðalmentastöð Íslendinga, jafnframt mun hann hafa stundað nám í organslætti hjá Brynjólfs Þorlákssyni, sem þá var talinn í röð bestu hljómfræðinga á Íslandi.

Svo fór, að Jónas varð að hætta námi við latínuskólann. Má geta nærri, að honum bláfátækum þraut fljótt fé til framhalds náms. Eiginlega var ekki öðrum ætlað, að ganga mentaveginn þá á Íslandi en embættis og efnamanna sonum. Hvarf hann nú aftur í sveit sína og gerðist barnakennari. Lét honum það starf einkar vel, og mintust skólabörn hans jafnan kennara síns með hlýhug og þakklæti. Jafnframt lék hann við messur í nágranna kirkjunum á orgel kríli, sem hann hafði eignast og reiddi fyrir aftan sig í milli kirkna.

Andlega skoðað dvaldi hann nú að mestu í sveit skáldanna. En meðal sveitunga sinna þótti hann gleðimaður hinn mesti, og tamninga maður hesta með afbrigðum. Ef enginn gat fengist við galdar ótemjur var þeim komið til Jónasar. En það var eitt af einkennum hans, að þykja vænt um skepnurnar, enda hændust þær fljótt að honum. Hefir spekingur nokkur í Austurlöndum látið svo ummælt, að ástin til dýranna væri eitt af einkennum göfugmenskunnar.

Aldamótaárið flutti Jónas vestur um haf, og settist að í Winnipeg. Hann gaf sig þá strax að hverri þeirri erfiðisvinnu, sem til félst. Vann hann við þreskingu í Norður Dakota, við frystihúsin í Selkirk og kolamokstur í Winnipeg. Hverja frístund notaði hann til að æfa sig í hljóðfæraslætti og til að afla sér meiri þekkingar í hljómlist. Stundaði hann nám hjá vel þektum

kennara í Winnipeg, J. W. Mathews. Jafnframt byrjaði hann að kenna unglingum hljóðfæraslátt og spila við messur í íslensku kirkjunum.

Brátt söfnuðust að honum nemendur; en með því hann gerði sig ekki ánægðan með að kenna aðeins byrjendum, tók hann sig upp snemma um vorið 1904 og gekk á hinn frægasta hljómlistaskóla í Canada, The Royal Conservatory of Music í Toronto. Stundaði hann námið látlaust fram til jóla 1905, og hafði þá tekið kennarapróf í píanóspili með besta vitnisburði. Var aðal kennari hans þar Frank Wellsman.

Þá um jólin kom hann aftur til Winnipeg og gekk að eiga unnustu sína, Emilíu, dóttur Baldvins Baldvinssonar ritstjóra og fylkisþingmanns. — Reyndist hún honum hinn besti og trúfastasti förunautur í blíðu og stríðu, og hvatti hann óspart til framsóknar. Þau eignuðust 5 dætur, sem allar komust til fullorðins ára.

Eftir það kendi Jónas píanóspil í 6—7 ár við vaxandi orðstír. En ekki lét hann samt þar staðar numið, því aftur tók hann sig upp og fór til Evrópu og stundaði þar framhaldsnám í tvö ár; í Lundúnum um skeið, en lengst af í Berlín á Þýzkalandi, undir frægum rússneskum kennara. Komu þau hjónin við á Íslandi í þeirri ferð.

Að afloknu þessu námi byrjaði Jónas aftur kenslu í Winnipeg. Varð aðsóknin brátt svo mikil, að hann varð að fá sér aðstoðarfólk við kensluna. Skömmu eftir 1930 fluttu þau til Calgary og síðar alfari vestur að Kyrrahafi, og bjuggu lengst af í New Westminster, sem nú er samvaxin við Vancouver-borg að heita má. Hann lést þar á heimili sínu 4. sept. 1947.

★

Enginn má um það segja, hvað úr hæfileikum Jónasar hefði unnist, ef aðstæðurnar hefðu verið vitund hagstæðari á uppvaxtarárunum, meðan hugur og hönd voru betur fallin til þjálfunar. Hitt vekur meiri undrun, að erfiðismaður, kominn á fullorðins aldur, getur náð þeirri tækni í hljóðfæraslætti, sem hann gerði. Það má ýkjulaust fullyrða, að Jónas notaði hvert tækifæri til þroska flestum fremur. Verður aldrei meira lof á nokkurn mann borið, en felst í þessari viðurkenningu.

Það hafa aldrei verið deildar meiningar um kennara hæfileika Jónasar. Margir af nemendum hans hlutu verðlaun við próf. Meðal þeirra er gullmedalíur hlutu voru Norah Sherwood, Helga Pálsson og Elva Pálsson. Silfurmedalíur hlutu Maurine Potruff, Helga Pálsson og Margaret Thexton.

Þótt kenslan væri vitanlega aðal ævistarfið, tók hann virkan þátt í hljómlistarstarfi Winnipeg-borgar. — Hann var lengi organisti og söngstjóri í íslensku kirkjunum í Winnipeg. Sömuleiðis stjórnaði hann söngflokkum með miklum orðstír. Hreptu hans flokkar stundum sigurinn í söngsamkepni ýmissa þjóðflokka. Yfirleitt varð hann söng og music lífi Winnipegborgar hin mesta stoð, og átti drjúgan þátt í því, að auka álit Íslendinga í listinni.

Af sjálfstæðum tónsmíðum liggur ekki mikið eftir hann, svo á prent hafi komist. Í þá tíð, er hann fékst mest við æfingu söngflokka, gaf hann út dálítið kver af sönglögum fyrir blandaðar raddir, og voru þrjú lögin frumsamin: Heim til fjalla, Órar, og Já vér elskum Ísafoldu. Hefir hið fyrsta einkum

öðlast hylli, þótt hin tvö séu vafalaust vel á borð við það.

Jónas hafði allmikil afskifti af málum Vestur-Íslendinga. Þjóðmál voru honum jafnan tilfinningamál, fyrst og síðast. Gegn því, sem honum fanst öfugt snúa, gat hann aðeins hreift mótmælum; eg held hann hafi aldrei skipað sér í neinn ákveðinn stjórnmálaflokk. Hann ritaði margar greinar í íslensku vikublöðin. Mun þeirra ritgerða sumra lengi minst, því hann ritaði oftast af hita og miklum móði. Var hann stundum stórorður og óvæginn, og brá þá fyrir meinlegri fyndni stundum, svo undan sveið.

Jónas flutti oft ræður á samkomum Íslendinga á Ströndinni. Var hann áheyrilegur ræðumaður, snjall og gamansamur.

Ungur tók hann að yrkja ljóð, en fátt af þeim hefi eg komist yfir. Hitt veit eg, að Þorsteinn Erlingsson lét vel af hagmælsku hans og ljóðleikni og spáði honum góðrar framtíðar í skáldskapnum. Jónas var þá unglingur og orti kvæði fyrir Unglingablaðið "Æskan". Hann aflagði aldrei algjörlega ljóðagjörðina, en vitaskuld voru það aðeins hjáverk. Samt bregður fyrir skáldlegum tilþrifum í síðari ára kvæðum hans. Set eg hér fáein erindi úr kvæðinu Arnarvatnsheiði til sýnis.

Ó, undrasýn! Hér birtist feðrafold
með fulla kjöltu af sól í morgunblænum.
Eg horfi á blómin blakta á fjórri mold
og brosa milt hjá litla snotra bænum.
Eg heyri fugla þruma þúsund munnum:
"Já, þetta er landið, sem við heitast unnum".

Eg veit að tíðum andar um þig svalt,
þá "öræfingar" senda fannabeðjur;
þeir skoða þetta ekki ilt né kalt,
en aðeins sínar bestu vinakveðjur.
Þú horfir kímin augum blíðu bláum
á beðjur þeirra, og klæðist feldi gráum.

En þegar vorar ferðu í önnur föt
úr fagurgrænu efni, heimaspunnu.
Þá fara að detta á gráa kjólinn göt,
þó gott sé margt, er jökla fingur unnu.
En vorið færir þig í þenna skrúða,
er það býr til úr sínum daggar úða.

Af öllu þessu má ljóslega greina, að Jónas átti afar fjölbreytta hæfileika, og styrka, margþætta manngerð. Í hann hafði ættjörðin spunnið ótal þætti, en hún bjó honum í æsku ekki að sama skapi hallkvæm skilyrði til að njóta þeirra allra.

Ævisaga hans er sem ævintýrið — ævintýri smaladrengsins, sem ryður sér braut með fádæma dugnaði í framandi landi, sem lengstrar ævi dvaldi með erlendri þjóð, en var þó alla tíð Íslendingur fyrst og fremst; því svo var Ísland í eðli hans greipt, að ekkert fékk hann nokkru sinni aðskilið frá brúðurinni blárra fjalla.

Jónas misti heilsuna einum tveimur árum fyrir andlát sitt. Hann bar þrautir sínar með karlmensku, en iðjuleysið mun hafa reynst þessum sístarfandi manni þungbært. Skömmu fyrir andlátið kvað hann:

Engin þó mig þjái kvöl,
þá er störfum lokið.
Iðjuleysið er mitt böl,
öll er í skjólin fokið.

Nú er hann horfinn, en minning hans mun lengi lifa.

# Brodd Helgi

Eftir Guttorm J. Guttormsson

---

Hann, sem var æskuástar minnar
Álagahamur, nálabarði,
Á sér enn hæli í huga mínum,
Heldur þar lengst um kyrru fyrir.

Næðinu er hann og friðnum feginn,
Fótasár eftir gönuhlaupin.
Vansvefta oft hann var um nætur,
Værukær fremur orðinn síðan.

Meðan hann liggur og makrátt sefur
Meinleysið sjálft er hans ytri skrúði,
Broddarnir eru við bakið feldir
Byrgðir af gljáandi mjúku hári.

Ýti eg vitundar ögn við honum
Ósjálfrátt — jafnvel af tómri rælni,
Ýfist hann við og beitir broddum,
Buski hann verður af stæltum nálum.

Sé eg þá ekki með viti á verði
Veitast mér sár af nýjum stungum,
Reki hann gaddana' í gömlu sárin
Gerast þau ill og taka að blæða.

Verður mér aldrei unt að lýsa
Áverka þessara hvössu nála.
Þetta eru oddar sem eftir skilja
Eitur í holdi, merg og beinum.

— — —

Vara þig! Það er vanséð, hvernig
Við þér hann horfir í niðamyrkri.
Ef þú strýkur hann upp í móti
Á honum geturðu stungist dauðum.

# Ríkarður Jónsson

## SEXTUGUR

Eftir prófessor Richard Beck



Ríkarður Jónsson myndhöggvari og myndskeri er merkilegur brautryðjandi í sögu íslenskrar nútíðarlistar og listiðnaðar, ekki síst fyrir það, að hann hefir hafið hinn forna íslenska myndskurð til nýs vegs og virðingar á rammþjóðlegum grundvelli. Þessi fjölhæfi og afkastamikli listamaður átti sextugsafmæli þ. 20. september í haust, og var hann, að verðleikum, hyltur með ýmsum hætti á þeim merkisdegi. Kom þá fagurlega í ljós, það, sem raunar var áður á almennings vitorði, hve vinamargur hann er og hve mikil ítök hann á í hugum landa sinna. Á afmælisdaginn lögðu fjöldamargir leið sína á heimili hans í Reykjavík, þar sem gestrisni og hjartahlýja ráða ríkjum, en heillaóskaskeytum rigndi yfir hann frá vinum og aðdáendum víðsvegar um land, meðal annars tugum af símkveðjum í ljóði, **rímskeytum,** eins og Ríkarði datt þá í hug að nefna slík kveðjuskeyti, er virðist einkar heppilegt heiti, "rímar svo ljúflega við símskeyti", segir hann í bréfi til greinarhöfundar.

Rímskeyti þessi eru mörg hver mjög vel ort og snjöll, og öll lýsa þau ágætlega, sem og aðrar faguryrtar kveðjur, er afmælisbarninu bárust þann dag, djúpstæðum góðhug í hans garð, virðingu, og næmum skilningi á fjölhæfni hans og mikilvægt menningarstarf. Glöggt dæmi þess er eftirfarandi kveðja frá Gretar Fells skáldi og rithöfundi:

Verkglaður völundur,
vitmaður geðríkur,
víðsýnn og veglyndur,
vinmargur því,
þrekmaður þjóðhollur,
þannig er Ríkarður,
verði hann langlífur
landinu í.

Ríkarður Jónsson er Austfirðingur í ættir fram, fæddur að Tungu í Fáskrúðsfirði 20. september 1888. Faðir hans var Jón Þórarinsson bóndi á Núpi á Berufjarðarströnd, Ríkarðsson-

ar Longs hins enska, kaupmanns og bónda á Djúpavogi og Eskifirði, og er sú ætt orðin fjölmenn mjög á Austurfjörðum og víðar um land, einnig vestan hafs. Móðir Ríkarðs, sem enn er á lífi í Reykjavík, háöldruð, er Ólöf Finnsdóttir Guðmundssonar bónda í Tungu og Önnu konu hans, af traustum og kunnum ættum austur þar.

Ríkarði er eigi í ætt skotið um listhæfni og fjölþættar gáfur, því að hann á í báðar ættir "að telja til listfengra manna, bókhneigðra, hagmæltra og söngvinna", eins og Aðalsteinn kennari Sigmundsson orðaði það réttilega í inngangsritgerð sinni að **Myndum** hans (1930); þeim ummælum til staðfestingar nefnir Aðalsteinn fjölda af ættingjum Ríkarðs, sem getið hafa sér orð fyrir hagleik, listgáfu, ritmennsku og skáldskap. Verður það eigi nánar rakið hér, enda gæti það skoðast miður sæmandi þar sem einn í ættinni heldur á pennanum, en þó skal á það minst, að bróðir Ríkarðs, Finnur listmálari Jónsson, er einn af sérstæðustu og ágætustu listmönnum íslenskum í þeirri grein, eins og löngu er vitað og viðurkent. Þá má eigi síður minna á það, að Jón Þórarinnsson faðir þeirra var hinn mesti snillingur á allskonar smíði.

Barnungur fluttist Ríkarður með foreldrum sínum að Eyjum í Breiðdal, en þaðan ári seinna að Strýtu í Hamarsfirði eystra, og ólst þar upp til fermingaraldurs. Landslag er þar sérkennilegt og hrikafagurt, og er ekki að efa, að svipmikil náttúrufegurðin á þeim slóðum hafi mótað og haft varanleg áhrif á sálarlíf hins tilfinningaríka og hrifnæma unglings, enda bera verk hans, eins og bent hefir verið á, ýms merki heimahaganna. Það var hvorki af fordild né út í bláinn, að hann prýddi kápuna af **Myndum** sínum með eirstungu eftir sjálfan sig af æskuheimili sínu við Hamarsfjörð, með Búlandstind, þetta sérkennilega fjall, í baksýn. Hversu ríkur honum er sá fjallajöfur og æskuvinur í huga, sést ennfremur augljósast af ummælum hans, úr nýkomu bréfi til mín, er hann minnist á forsíðumynd, sem hann hafi gert að nýrri bók um Austurland, en þannig farast honum orð: "Þar fyrir ofan er austfirskt fjall, vitanlega Búlandstindur". Ríkarður er tengdur æskustöðvum sínum og átthögum órjúfanlegum böndum og heita ást sína á þeim hefir hann túlkað í fögrum lofsöngvum til þeirra.

Mjög snemma létu fágætur hagleikur hans og listhæfni á sér bera, en um það fer Aðalsteinn kennari þessum orðum í fyrrnefndri grein sinni:

"Byrjaði hann kornungur að tálga ýmsa muni úr tré og steini. Fundu þeir bræður tálgusteinsnámur hér og þar í grend við Strýtu: brúnan stein í Tobbugjótarkambi, skammt upp frá bænum, rauðan í Hultrahömrum, allhátt uppi í fjalli, og grænan hjá Ívarshjallasléttum, langt inni á Búlandsdal. Mest notaði Ríkarður rauða steininn. Hjálpuðust þeir bræður að sprengja hann úr hömrunum Var það örðugt verk og eigi hættulaust. Fleiri litir fengust þar og af tálgusteini, í lækjarfarvegi skammt frá bænum. Muldu þeir bræður steinana, hrærðu dustið í fernisolíu og notuðu til málningar.

Faðir Ríkarðs var, svo sem að framan getur, völundur hinn mesti á allskonar smíði. Lagði hann einkum stund á járnsmíði og að steypa og smíða úr kopar. Hneigðist hugur Ríkarðs að slíku í

bernsku og fékk hann við það töluverða tamningu. Aftur kenndi hann aldrei löngunar til venjulegra trésmíða. Annars ólst hann upp, svo sem títt er um sveitabörn, við heyskap, fjárgeymslu og aðra vinnu. Þá var fært frá. Sat Ríkarður hjá kvíám á sumrum, og hafði þá jafnan tálgustein í malpoka sínum."

Fór það að vonum, að svo óvenjulegur unglingur dragi að sér athygli manna, enda varð hann snemma kunnur víða í sveitum eystra fyrir hagleik sinn. Georg læknir Georgsson á Fáskrúðsfirði, sem heyrt hafði hans getið, sendi honum nokkur útskurðarjárn, er komu honum að sjálfsögðu í góðar þarfir, jafnframt því sem það vinarbragð var honum mikil hvatning, enda kunni hann það vel að meta, og þá eigi síður hitt, að Páll H. Gíslason kaupmaður í Reykjavík kom honum síðar á framfæri til náms. Sannast hér hið fornkveðna, að menn þekkjast af vinum sínum.

Fjórtán ára að aldri fór Ríkarður úr föðurhúsum til Níelsar Finnssonar móðurbróður síns og Guðbjargar konu hans að Hafranesi í Reyðarfirði, merkra hjóna og ágætra. Er þeim, sem þetta ritar, er ólst upp hinummegin fjarðarins, það í fersku minni, hversu fjölmennt myndar- og rausnarheimili var á Hafranesi á þeim árum og síðar, og hve kappsamlega búskapur var rekinn þar bæði til lands og sjávar. Þarf því eigi að draga í efa, að Ríkarði varð dvölin þar hin nytsamasta, enda vandist hann þar marghátttuðum störfum.

En hin ríka listgáfa hans varð að finna sér framrás, og kapp hans og áhugaeldur kyntu undir. Sautján ára gamall fór hann því til Reykjavíkur til tréskurðarnáms hjá snillingnum Stefáni Eirikssyni, er fljótt sá hvað bjó í þessum unga sveitunga hans, því báðir voru þeir Austfirðingar. Dálæti hans á þessum framúrskarandi efnilega nemanda hans og þær framtíðarvonir sem hann tengdi við hann, lét sér eigi heldur til skammar verða, eins og brátt kom á daginn; að sama skapi voru mætur þær, sem Ríkarður hafði á hinum listræna meistara sínum og velunnara. Eftir þriggja ára nám hjá Stefáni lauk hann prófi, fyrsta prófi í myndskurði, sem tekið var á Íslandi. Prófsmíð hans var, eins og kunnugt er, "Spegillinn hans Ríkarðs", sem nú er eign Þjóðminjasafnsins, og fer sveinsbréfið þeim orðum um þá smíði, að hún sé "aðdáanlega af hendi leyst". Vakti hún einnig þegar athygli þeirra og aðdáun, er þess áttu kost að sjá hana. Var nú fyrsta mikilvæga áfanganum náð á listabraut Ríkarðs og fyrsti markverði sigurinn unninn. Langt var þó enn á leiðarenda námsbrautarinnar, því að framsækinn hugur hans stefndi hærra.

Tvítugur að aldri, með 300 krónur upp á vasann, sem hann hafði unnið sér inn í hjáverkum frá tréskurðarnáminu, lagði Ríkarður leið sína til Kaupmannahafnar til frekara náms. Er eftirtektarverðum námsferli hans þar ágætlega lýst í þessum kafla úr grein Aðalsteins kennara:

"Kyntist hann þar Einari Jónssyni myndahöggvara, er kendi honum ókeypis undirstöðuatriði í myndhöggvaralist og hvatti hann til náms í listháskóla. Fékk hann þar og inntöku, eftir nokkurn undirbúning hjá Einari og í Teknisk Selskabs Skole. Stundaði hann þar listnám í hálft sjötta ár, mest undir handleiðslu prófessors Karls Aarslev myndhöggvara. Hlaut hann verðlaun

fyrir nám sitt. Vann hann fyrir sér jöfnum höndum, sem verkstjóri í tréskurðarstofu, við að teikna skraut á búninga fyrir Konunglega leikhúsið o. fl. Merkasta útskurðarverk, sem hann stýrði, var útskurðurinn í Kvindenes Bygning við Gothersgötu. Kyntist hann á þessum árum ýmsu merkisfólki, og jók það þroska hans og listasmekk. Nefnir hann þar einkum til Viggo Johansen listmálara og forstöðumann listháskólans, en á heimili hans komst Ríkarður í kynni við ýmsa merkustu listamenn Dana. Síðari Hafnarárin sýndi hann nokkrar myndir á Charlottenborg. Seinna hefir hann og sýnt þar."

Kapp Ríkarðs og þrautseigja lýsir sér eftirminnilega í því, með hve miklum dugnaði hann braust áfram í gegnum hið langa og dýra listanám sitt, en öðru fé heldur en því, sem hann vann sér inn með fyrrgreindum hætti, hafði hann ekki úr að spila, að undanteknum 300 krónum, er Alþingi veitti honum eitt sinn að námsstyrk. Fjölhæfni sú, sem jafnan síðan hefir auðkent listamannsstarf hans, kom einnig fram á námsárum hans í Kaupmannahöfn, því að hann vann þar jöfnum höndum að myndhöggi, trésmíði og teiknun.

Vorið 1914 kvæntist Ríkarður Maríu Ólafsdóttur frá Dallandi í Húsavík í Norður-Múlasýslu, hinni ágætustu konu. Fluttust þau samsumars til Reykjavíkur og hafa verið búsett þar síðan, nema árin 1920-23 Þau hafa eignast fjögur börn, vel gefin og hin mannvænlegustu. Var þeim mikill harmur kveðinn, er elsta barn þeirra og einkasonur, Ríkarður Már arkitekt, lést eftir langt veikindastríð 17. nóvember 1946. Féll með honum að velli um aldur fram, því að hann var aðeins 31 árs gamall, óvenjulega glæsilegur maður og efnilegur, söngvinn og listhneigður. Varð hann harmauði eigi aðeins foreldrum og systrum og öðru frændliði, heldur einnig skólafélögum sínum og þeim öllum, sem veruleg kynni höfðu haft af honum, eins og fram kom í minningargreinum og



**Skírnarfontur**

kvæðum um hann í íslensku vikublöðunum.

Útþráin er rík í eðli Íslendingsins, og ólgar ekki síst í blóði tilfinningaríkra listamanna eins og Ríkarðs Jónssonar. Lék honum mjög hugur á því að fara utan að nýju til þess að auðga anda sinn og gefa listhæfileikum sínum betri byr undir vængi. Fór hann þá ferð árið 1920; leysti upp heimili sitt í Reykjavík, flutti konu og börn austur í átthaga sína, en hélt sjálfur til Rómaborg-

ar, með nokkrum styrk af ríkisfé. Í þessari Ítalíuför voru í ferð með honum þeir Ingólfur Gíslason læknir og Davíð skáld Stefánsson frá Fagraskógi. Er það alkunnugt af kvæðum skáldsins, hversu ávaxtarík honum varð þessi sögulega suðurför þeirra félaga. Ríkarði, er var árlangt í förinni, varð hún eigi síður til hinnar mestu gagnsemdar og vakningar í listinni. Varð hann fyrir sterkum áhrifum og djúptækum af listaverkum hinna suðrænu meistara, er hann kyntist nú af eigin sjón, einkum, að því er hann sjálfur telur, af verkum hins fræga ítalska málara Donatello (1386-1466).

Eftir heimkomuna úr utanförinni dvaldi Ríkarður næstu tvö árin á Djúpavogi. Er það vafalaust rétt álitið, að þessi dvöl hans á æskustöðvunum hafi orðið til þess, "að bræða áhrif suðrænnar listar betur en ella saman við Íslendingseðli hans og beygja þau undir töfra íslenskrar náttúru og þjóðlegrar menningar" (Aðalsteinn Sigmundsson). Verk hans bera því einnig órækt vitni, að tréskurðarlist hans hefir með árunum fengið á sig æ sterkari þjóðlegan blæ, enda hefir hann gert sér sérstakt far um að kynna sér gamlan tréskurð íslenskan og drukkið í sig anda hans og svip.

Síðan Ríkarður settist að í Reykjavík fyrir nærri hálfum fjórða áratug, hefir hann unnið að myndskurði, andlitsmyndagerð, teiknun og teiknikenslu, og árum saman haldið uppi föstum skóla í teiknun og tréskurði. Er það orðinn stór nemendahópur, sem notið hefir kenslu hans í þeim greinum. En afköst hans í hinum ýmsu listgreinum, sem hann hefir lagt á gjörva hönd, hafa verið svo mikil, að furðu sætir, og skal það nú nokkuru nánar rakið

II.

Eins og fyrr er vikið að og vitnað til, komu út í Reykjavík Alþingishátíðarárið 1930 **Myndir** Ríkarðar Jónssonar, safn mynda af ýmsum helstu verkum hans og viðfangsefnum, skrautleg bók og vönduð, er Aðalsteinn Sigmundsson kennari hafði búið til prentunar. Gefur hún góða yfirsýn yfir verk Ríkarðs fram að þeim tíma og ber fagurt vitni fjölhæfni hans, hugmyndaauðlegð og starfsemi. Eru í bókinni myndir nær tvö hundruð smíðisgripa og teikninga, en þó hvergi nærri allt, sem eftir listamanninn lá, þegar bókin kom út.

Ríkarður hefir lagt mikla og vaxandi stund á höggmyndalist, manna myndagerð, og eru í bókinni margar myndir af slíkum listaverkum hans. Hann hefir gert myndir af mörgum kunnum Íslendingum vorrar tíðar, körlum og konum, auk annara, og eru þær, að kunnugra dómi, mjög líkar þeim að svip og látbragði, lifandi eftirmyndir, því að listamanninum hefir tekist að móta í leirinn sérkenni fyrirmynda sinna. Er þeim hæfileika hans vel lýst í eftirfarandi ummælum: "Ríkarður Jónssan veitir andlitsmyndum sínum líf og anda eins og sá einn getur gert, er samlagast fyrirmyndinni með öllu. Dauð stæling getur aldrei hent listamann með hans skapgerð". (Björn Björnsson, **Perlur,** I, 3-4., júní 1930).

Afbragð eru myndir hans af sérkennilegum alþýðumönnum, svo sem Bergsveini í Urðarteigi, "Viðsjál" og "Djáknanum á Djúpavogi". Þá má sérstaklega geta tveggja rismynda (relief). Önnur er af Stefáni G. Stefánssyni skáldi og var birt í **Almanaki Ó. S. Thorgeirssonar** 1918, ásamt öðrum

myndum og lesmáli um heimför skáldsins til Íslands 1917. Vangamynd er af honum í miðju, að ofan skáld með hörpu í hönd sér, á baki skeiðandi skáldfáksins, en að neðan knýr brautryðjandinn plóg sinn um nýrutt landsvæði, en gnæfandi skógurinn rís til beggja hliða. Íslensk fjöll eru í baksýn. Hin rismyndin nefnist "Verndarhlynur dýranna" og er á minnisvarða Tryggva Gunnarssonar. Hér blasir við augum voldugur og limaríkur meiður, en undir greinum hans finna hin ýmsu dýr skjól: sauðfé, hestar, kýr, hundar og kettir. Í fjarlægð sjást hlíðar og tindar. Eru rismyndir þessar ljós vottur smekkvísi og hugvitssemi listamannsins, og lýsa, með auðkennum, Stefáni, langförlu skáldinu og margreyndum landnemanum, og Tryggva óþreytandi málsvara dýranna

En listfengi Ríkarðs og hugkvæmi lýsa sér eigi síður í myndskurði hans. Hann hefir hlotið í vöggugjöf sjaldgæfa hagleiksgáfu og þroskað hana, eins og þegar er greint, með löngu námi undir handleiðslu ágætra kennara, íslenskra og erlendra. Í bók hans eru að sjálfsögðu fjölda margar myndir af útskornum munum hans, og getur þar að líta næga fegurð og fjölbreytni. Fyrst er hin margdáða prófsmíði hans, sem þegar er getið. Þá eru hér bikarar, bókahillur, vegghillur, blekbyttur, skrautskrín, vindlahylki, tóbakspontur, stafhúnar og enn fleira. Mun með sanni mega segja, að þar sé eitthvað, sem dragi að sér athygli hvers eins.

Af útskornu gripunum er "Þangsteinninn" hvað sérkennilegastur; kemur hér fram, sem víða annarsstaðar í list Ríkarðs, hve rammíslenskur hann er. Hann finnur efnivið nógan í umhverfi sínu, á láði og legi, í íslensku dýraríki og í hversdagslífi þjóðar sinnar. Hann sækir oft fyrirmyndir sínar í íslenskt sjómannalíf. Þá er askurinn með rostunginn á bakinu, selina á handföngunum og frostrósirnar á loki og hliðum, há-íslenskur og enginn hversdagsgripur.

Blekbytturnar eru hver annari fegri og frumlegri. Hin fyrsta er víkingaskip undir seglum; önnur sýnir Mími við Mímisbrunn; hin þriðja er íslenskur sveitabær; sú fjórða hlóðapottur, hreinasta afbragð. Þá er bréfapressan eigi síður sérstæð, því að hún er í hrútslíki, en stuðlabergssúlur að baki. Það er svo sem ekkert efamál, að Ríkarður er "manna þjóðlegastur í list sinni". Kemur það meðal annars fram í því, að hann notar mjög íslenskt höfðaletur í myndskurði sínum.

Af teiknimyndum Ríkarðs eru um sextíu í bókinni, margar þeirra prýðilega gerðar. Sem dæmi andlitsteikninga hans má nefna myndina af séra Friðrik Friðrikssyni, "Bæn". Þar hafa listamanninum sannarlega ekki fatast innsýnin eða handtökin. Snildarhandbragð er einnig á myndinni "Stúlka við Rokk".

Hvergi lýsir hugarflug Ríkarðs sér, ef til vill, betur, heldur en í sumum teikningum hans. "Vísa um konuna" er óður um fórnfúsa ást móðurinnar, sem vefur börn sín að barmi sér og hlýjar þeim með örmum sínum og mjúkum lokkum. Í svipuðum anda er teikningin "Tröllamóðir", er sýnir, svo enginn fær um vilst, að móðurástin fer ekki í manngreinarálit. Andstæðunum eilíf-nýju, elli og æsku, er skipað hlið við hlið á myndinni "Frá, frá, frá!"; gamall maður ríður fót fyrir fót niður hjarnþakta hlíðina, en á eftir honum



Skáphurð — Kaupstaðarferð á Djúpavog — Klettar í baksýn

kemur unglingur á fleygiferð á sleða. og hrópar: "Frá, frá, frá!"

"Neftóbaksmaður í Horngrýti" er einkar sniðug mynd. Tóbaksmaðurinn stendur í vatni upp að höku, uppi yfir honum hangir tóbaksponta, en of hátt, þó hann reigi sig aftur á bak. Þarf mynd þessi eigi neinnar skýringar. "Pasteurs minning" er hin áhrifamesta mynd, og hittir markið afbragðsvel. Dauðinn, í beinagrindarlíki, eins og við á, situr og horfir dapurlega í eggina á ljá sínum, sem stórt skarð hefir verið brotið í. En hver hefir sljófgað sigð dauðans meir, með nýmælum sínum í læknisfræðinni, en einmitt Pasteur? Augljóst er því, að margar teikningar Ríkarðs eru táknrænar; þær vekja mann til umhugsunar, því að þar leynist dýpri sannleikur, en bert verður við fyrstu sýn.

Með yfirliti þessu hefir þó hvergi nærri verið þurrausinn sá nægtabrunnur, sem bók Ríkarðs er, aðeins nefndar þær myndir, sem augað hefir helst staldrað við, en flestum munum þykja um auðugan garð að gresja í þessu myndasafni hans; að blaða í því er eins og að ganga úr einum sal í annan á fjölskrúðugu listasafni.

Bókin vakti einnig að vonum athygli listunnandi manna og hlaut ágæta dóma. Meðal annars fór dr. Guðmundur Finnbogason um hana svofeldum orðum í ritdómi í **Fálkanum** (dags. 10. júlí 1930):

"Í verkum Ríkarðs myndi erfitt að draga landamæri listar og iðnaðar, og

er það fremur sagt til lofs en lasts. Hann hefir lengst af unnið fyrir sér og sínum með skurðlist sinni og hefir hagleikur hans frá öndverðu verið frábær. Marga gripi hefir hann smíðað, sem eru listaverk í sinni röð og flestir myndu kjósa að eiga, ef þeir ættu þess kost, og sýnir bókin marga þeirra og þó hvergi nærri allt hið besta. — Hin hlýðna og haga hönd Ríkarðs hefir ekki komið honum síður að haldi við myndir þær hinar mörgu, er hann hefir gert af samtíðarmönnum sínum, og þar hefir hann, að eg hygg, náð hæst í list sinni. Í þeim myndum er yfirlætislaus trúmennska. Þá af þessum mönnum, er eg hefi kynnst, finnst mér eg finna þarna eins og eg hefi þekkt þá. Þeir eru "lifandi", myndirnar gefa blæinn, sem þeim fylgdi, sálina í svipnum — í jafnvægi, sem ekki þreytir, hve lengi sem maður hefir myndirnar fyrir sér. Eg tek til dæmis myndina af Steingrími Thorsteinson, sem eg hefi haft í stofunni minni síðan hún varð til. Mér finnst hún alltaf jafn sönn og mér þykir jafnvænt um hana nú eins og fyrst. En eg gæti eins vel nefnt myndirnar af Stefáni Eiríkssyni, Andrési Félsted á Hvítárvöllum, Jóni Krabbe, Bjarna frá Vogi og konu hans, Jóni prófasti á Stafafelli og fl., sem eg kynni ekki að kjósa öðruvísi en þær eru. Eg hefi ekki þekkt "Djáknann á Djúpavogi" né "Viðsjál" í holdinu, en mér finnst þeir vera gamlir kunningjar, og ef eg hitti þá í öðru lífi, þá býst eg við, að sálin í þeim verði eitthvað áþekk því, sem Ríkarður hefir sýnt mér í svip."

Ummæli annara þeirra, er um bókina rituðu, fóru mjög í sömu átt. Þeir voru á einu máli um frábæran hagleik listamannsins, hugkvæmni hans, fjölhæfni og þjóðlega list.

III.

En á þeim 18 árum, sem liðin eru síðan **Myndir** Ríkarðs komu út, hefir hann vitanlega bætt við sig miklum fjölda nýrra verka og merkra, sem eigi er unt að geta hér nema að litlu leyti, en bæði þau og hin eldri verk hans eru dreifð víðsvegar um land allt, enda mun það eigi ofmælt, að þau sé þar víðar að finna, en verk nokkurs annars íslensks listamanns. Myndir af nokkrum hinum meiriháttar verkum hans frá síðari árum, ásamt gagnorðri frásögn um þau, er að finna í grein um Ríkarð eftir Aðalstein Sigmundsson kennara í **Skinfaxa** í apríl 1938. Þá gaf útgáfufélagið Lithóprent í Reykjavík út nokkrar af teikingum hans 1946. Full þörf er þessvegna á því, að út komi ný bók með myndum af öllum helstu verkum hans, og ánægjulegt að vita til þess, að slík bók muni væntanleg áður langt líður. Að þessu sinni verður aðeins gerð stutt grein fyrir þeim verkum hans, sem eru á opinberum stöðum, mörg þeirra frá síðari árum, og dvalið nokkuru frekar við örfá þeirra.

Mannamyndagerð hefir, eins og að framan er getið um, verið mikill þáttur í listamannsstarfi hans og skifta brjóstlíkneski hans og rismyndir af samtíðarmönnum orðið nokkrum hundruðum, útskorin verk nokkrum þúsundum og jafnmikill fjöldi teikninga þeim viðvíkjandi, því að hann hefir gert frumteikningu af hverju einasta verki, smáu sem stóru, og svo er feikna fjöldi annara teikninga. Gefur það nokkra hugmynd um hverju óhemjustarfi hann hefir afkastað og

lætur mann jafnframt renna grun í það, hvílík andans orka og skapandi listgáfa liggja að baki og eru uppspretta þeirrar afkastasemi, að ógleymdri eljunni, sem slíkt ævistarf útheimtir.

Alþingi á tvær myndir Ríkarðs, brjóstlíkneski af Magnúsi Stephensen landshöfðingja og rismynd af Bjarna frá Vogi, hvorttveggja eirmyndir, og eignast einnig bráðlega eirmynd af Gísla Sveinssyni, sendiherra og fyrrv. Alþingisforseta, sem yfirlýsanda íslenska lýðveldisins. Þá á listasafnið í Reykjavík brjóstlíkön af Stepháni G. Stephánssyni, Einari H. Kvaran og Steingrími Thorsteinsson, rismynd af Sigfúsi Sigfússyni þjóðsagnameistara, en Þjóðminjasafnið brjóstlíkan af Finni Jónssyni prófessor.

Háskóli Íslands á stórt brjóstlíkan eftir Ríkarð af Jóni Sigurðssyni forseta, sem er þar í forsalnum, og eirmynd af Benedikt S. Þórarinssyni á bókasafni hans, einnig rismyndir úr eir af Guðmundunum þremur Magnússyni, Björnssyni og Hannessyni, læknum. Menntaskóli Reykjavíkur á brjóstlíkan af Þorvaldi Thoroddsen prófessor, en Menntaskóli Akureyrar, eirlíkneski af Sigurði Guðmundssyni skólameistara og koparrismyndir af Jónasi Jónssyni alþingismanni og fyrrv. ráðherra og Stefáni Stefánssyni skólameistara. Þá á Laugarvatnsskólinn ýmsar rismyndir eftir Ríkarð og Gagnfræðaskóli Akureyrar brjóstlíkan af Þorsteini M. Jónssyni skólastjóra. Ennfremur eiga aðrir skólar, sveitarfélög og stofnanir í öllum landshlutum brjóstlíkneski eða rismyndir eftir hann af forystumönnum sínum og konum á ýmsum sviðum. Bókasafn Húsavíkur á t. d. rismyndir úr eir af þeim Benedikt á Auðnum og Pétri á Gautlöndum, ásamt með brjóstlíkani af Benedikt. Búnaðarfélag Íslands á brjóstlíkan af Tryggva Þórhallssyni ráðherra og Gunnlaugi Kristmundssyni sandgræðslustjóra, Skógræktarfélagið brjóstlíkneski af Sigurði Sigurðssyni búnaðarmálastjóra, Landakotsspítali brjóstlíkan af Matthíasi Einarssyni lækni, og mætti svo lengi telja.

Af útimyndum eftir Ríkarð má þessar telja: Tryggva Gunnarsson í Alþingishússgarðinum og Jón biskup Víðalín við Dómkirkjuna í Reykjavík. Á Akureyri: Matthías Jochumsson í Skrúðgarðinum og Sigurð Sigurðsson búnaðarmálastjóra og Pál Briem í Gróðrarstöðinni. Á Hvanneyri: Brjóstlíkan af Halldóri Vilhjálmssyni og annað samstætt af Hirti Snorrasyni, nú í steypingu í Kaupmannahöfn, er á að standa við hlið Halldórs.

Þá eru minningartöflur eða minningarskildir eftir Ríkarð í ýmsum kirkjum landsins. Sérstöðu meðal slíkra verka hans skipar Ólafsfjarðarsteinninn, minnismerki yfir drukknaða sjómenn, frumlegt og tilkomumikið listaverk.

Í Landakotskapellunni er eftir Ríkarð krossmark allstórt með Kristslíkneski, sem fengið hefir mikið lof, einnig gerði hann biskupsstólinn í Landakotskirkjuna. Prédikunarstól hefir hann gert í Melstaðarkirkju í Miðfirði, og skírnarfonta í allmargar kirkjur út um land, en mestur og dýrastur er sá, sem Haraldur Böðvarsson gaf Akraneskirkju fyrir tveim árum. Þá eru eftir Ríkarð útskornar ljósastikur allmiklar og krossmark í Skarðskirkju á Landi.

Auk hinna fjölmörgu verka hans á opinberum stöðum, og hvergi nærri öll



Óðinn í Hliðskjálf — Burstin á Eiðaklukkunni

hafa hér talin verið, eru önnur verk hans, tréskurðarverk og allmikið af andlitsmyndum, víðsvegar á íslenskum heimilum, eigi aðeins innan lands, heldur einnig utan Íslandsstranda.

Öll skreyting í Kvindenes Bygning í Kaupmannahöfn var, eins og fyrr getur, gerð undir verkstjórn hans, og var hann þá á tuttugusta og öðru ári. Hann hefir einnig gert myndir af dönsku ráðherrunum Brobjerg og Stauning og eru frummyndir þeirra í eign Jafnaðarmannaflokksins danska. Á safni í Færeyjum eru þessar myndir eftir hann: Brjóstlíkneski af Jóhannesi Patursson kongsbónda og Dahl prófasti og rismyndir af skáldinu Mikkjal á Ryggi, Richard Long, skáldi og kennara, og Rasmus Rasmussen málfræðingi. Í Noregi er drykkjarhorn, sem norska sjóliðið (Den Norske Marine) gaf Hákoni Noregskonungi, þegar hann varð sjötugur, allmikill gripur.

Ótalinn er þá mikill fjöldi af íþróttaverðlaunum, skildir, horn og bikarar, o. s. frv., sem Ríkarður hefir gert og íslensk félög eiga.

Eitt af aðalskurðverkum hans er ræðustólinn á Hvanneyri, skorinn úr eik af mikilli snild, en á framhliðinni er sáðmaður að sá, með íslenskt landslag í baksýn og íslenskan bóndabæ neðst á myndinni. Eiðaklukkan er einnig prýðilegt og listfengt verk. Burst hennar er Óðinn að Hliðskjálfi.

Þá er útidyrahurðin á Arnarhvoli, skrifstofuhúsi ríkisins í Reykjavík, hin haglegasta og merkilegasta smíð, og var henni á sínum tíma (1930) lýst þannig í **Alþýðublaðinu:**

"Útidyrahurð Arnarhvols er hið mesta listaverk. Hefir Ríkarður Jónsson listamaður skorið hana mjög fagurlega. Eru tveir stórir myndareitir á framhlið hennar. Á öðrum er Ingólfur Arnarson að varpa öndvegissúlum sínum fyrir borð. Í baksýn er gjósandi eldfjall. Á hinum eru sýndir þrælar

Ingólfs, þegar þeir fundu öndvegissúlur hans, en Esjan í baksýn. Einnig skar Ríkarður út og teiknaði fyrirmyndir að járnsmíði því, sem á hurðinni er, en Páll Magnússon járnsmiður smíðaði eftir, og er það mjög haglega gert. Er þar fyrst að telja hurðarhring stóran, sem gerður er í drekalíki og er drekinn tvíhöfðaður. Hringurinn er jafnframt dyrahamar. Þegar hann er látinn falla á járnhæl, sem hann nemur við, heyrist dynur um allt húsið, ef kyrrð er á. Handfang er bæði að utan og innan við hurðarjaðarinn, hvort tveggja í fisklíki. Hjarajárnin eru úthöggvin með drekahöfðum. Dyrastafir og dyratré eru einnig útskorin. Sjálf er hurðin úr eik, og er hún tveggja þumlunga þykk. Vegur hún ásamt dyraumbúningnum 500 kíló (þúsund pund)."

Lesendum þessa tímarits er í fersku minni mynd sú af hinni miklu og fögru ljósastiku eftir Ríkarð, er birtist í síðasta árgangi, en ljósastikuna sendi Ungmennafélag Íslands Þjóðræknisfélaginu að gjöf í tilefni af Íslandsferð forseta hins síðarnefnda lýðveldishátíðarsumarið 1944; nefnir listamaðurinn smíð þessa: "Ísland-Ameríka".

Þá má eigi gleyma hinu kunnasta og víðförlasta verki Ríkarðs, en það er Skjaldmerki Íslands (landvættamerkið). Merki Íþróttasambands Íslands gerði hann einnig á sínum tíma og hefir steypt það í tugatali til verðlauna og viðurkenningargjafa bæði utan lands og innan.

Loks er hið nýjasta og jafnvel stærsta myndskurðarverk Ríkarðs, en það er Kristslíkneskið í Bessastaðakirkju. Það er höggvið úr eik í fullri líkamsstærð og er þar yfir altarinu. Geta menn rennt nokkurn grun í, hversu mikið verk það var, þegar á það er minnt, að í fyrstu vóg eikarkleppurinn um 500 pund, áður en byrjað var að telgja hann til. Vann listamaðurinn að þessu verki mikið til í fyrra vetur, auk myndanna á prédikunarstólnum; þykja líkneskið og prédikunarstóllinn gerð af mikilli prýði.

Hin listfengu og sérstæðu verk Ríkarðs í skurðlist og myndlist hafa, eins og vænta má, dregið að sér athygli útlendinga eigi síður en landa hans, og hafa greinar með myndum af verkum hans birtst í erlendum blöðum og tímaritum á Norðurlöndum og víðar, t. d. fyrir stríðið í þýsku tímariti um myndhöggvaralist, **Die Bildhauerei,** og all löngu áður greinar eftir frænku hans, Mrs. Þórstínu Jackson Walters, í tímaritinu **The American-Scandinavian Review** og stórblaðinu **The Christian Science Monitor** í Boston, að nokkrar slíkar greinar um hann séu nefndar.

## IV.

En Ríkarði Jónssyni er fleira til lista lagt en fjölhæfnin á sviði myndlistar, skurðlistar og teikninga. Hann er gæddur sönggáfu í ríkum mæli, svo ríkulega, að nærri lá, að hann gengi þá braut listarinnar, enda hvöttu ýmsir fremstu söngmenn Dana hann til þess. Og víst er um það, að vel myndi hann hafa reynst hlutgengur á þeim vettvangi, hefði hann snúið inn á þá braut, en vafalaust valdi hann eigi að síður rétt, er hann kaus myndlistina sér að ævistarfi, og gæfa og gróði var það Íslandi og íslenskri menningu. Nokkra rækt hefir hann þó lagt við sönggáfu sína, bæði sungið íslensk lög og kveðið rímur á hljómplötur, því að hann er snjall kvæðamaður, og ósjaldan

skemmt með söng og rímnakveðskap bæði á samkomum og í heimahúsum.

Hann er einnig skáld gott og hefir ort prýðileg kvæði og þjóðleg, og er það eigi að undra, jafn föstum fótum og djúpum rótum og hann stendur í jarðvegi íslenskrar menningar .

Sonarlega og fagurlega yrkir hann um æskustöðvar sínar í kvæðinu "Austurland" (1912), en þetta er upphafserindið:

Austurland er Eden jarðar,
æsku minnar paradís.
Þar eg glaður gætti hjarðar,
grét og söng við blóm og ís.
Þegar speglar fjörður fagur
fjöll og sveit og hamratind,
æðri sýn leit enginn dagur,
eilífs sér þar fyrirmynd.

Að þeir ástareldar til ættstöðvanna hafa eigi fallið í fölskva með árunum, er auðsætt af því, að fyrir eitthvað tveim árum síðan orti hann þessar átthagavísur:

Fyrnist slóð um fjöll og sand,
fýkur í gömlu sporin.
Alltaf þrái eg Austurland,
einkum þó á vorin.

Það er autt um þessa strönd,
Þó að aðrar fenni.
Er sem máttug ástarhönd
um mig greipar spenni.

"Kattargælu" hefur hann kveðið í rammþjóðlegum stíl, þar sem kisu er lýst með lífi og lit, fjöri og fyndni. Snilldarbragur er á Álfadans-kvæði hans, sem sungið var á Djúpavogi á Þrettándakvöldi 1923, og nær höfundur þar vel þjóðkvæðablænum.

Ríkarði er létt um að kasta fram stöku og því ferskeytlan tiltæk, eins og fleiri löndum hans; sem dæmi þess fylgja hér tvær af lausavísum hans, í ólíkum tóntegundum, segir hin fyrri til nafns, en hin síðari nefnist "Mannlýsing":

Andvakan er ekkert spaug,
örg og hvimleið vofa.
Eg má glíma einn við draug,
er aðrir fá að sofa.

Refs er auga, refs er tönn,
refs er nef og glottið.
Þessi líking þykir sönn,
þó hann vanti skottið.

Miklu er Ríkarði þó nær skapi og hugstæðara að minnast þess, sem vel er gert og drengilega, eins og kvæðið "Sandfok" ber kröftugt vitni, en tilefni þess og undirstraumur er aðdáunin á þjóðnýtu ævistarfi Gunnlaugs Kristmundssonar sandgræðslustjóra. Lýsir kvæðið, sem er tilþrifamikið, hólmgöngu hans við óvættina — sandfokið — og er lýsingin á ásókn hennar meðal annars á þessa leið:

Hún gnagar og sagar og sverfur
og flær
svörðinn með eik og runni.
Hún brýnir og sýnir beittar klær,
bjarkirnar klýfur og molar og slær,
uns lendan öll er sem úfinn sær,
örfoka niður að grunni.

Ríkarður er maður vinfastur og hið mesta trygðatröll, því hefir honum og eðlilega verið nærri höggvið, þá er hjartfólgnir vinir hans og mikilsmetnir hafa að velli fallið, enda hefir hann minnst ýmsra þeirra hjartanlega og fallega í ljóði, svo sem Aðalsteins Sigmundssonar kennara og Sigvalda



Bronce-lágmynd í Ólafsfjarðar steininum

Svipmesta minningarkvæði hans og að öllu samanlögðu hið tilþrifamesta af ljóðum hans, sem borið hefir fyrir sjónir greinarhöfundar, er þó kvæðið um "Jón í Skjálg", óvenjulega orðhög og h r e i m m i k i l mannlýsing, en það er prentað annarsstaðar hér í ritinu. Vakti það athygli og aðdáun margra, er það kom út í einu dagblaðanna í Reykjavík fyrir nokkru síðan.

Ríkarður er einnig ritfær vel í óbundnu máli, stíll hans lipur og léttur, eins og sjá má t. d. af góðri lýsingu hans af Benedikt frá Auðnum (**Skinfaxi, 1938**) og hinni skemtilegu ferðaminningu hans úr Ítalíuförinni, "Jól í Flórens" (**Jólablað Vísis 1938**). Enn þá skemtilegra er það samt að hlýða á hann sjálfan segja frá, því að frásögn hans er óvenjulega lifandi, ekki síst þegar hann er að lýsa sérkennilegum mönnum hinnar eldri kynslóðar, og beitir hann þá óspart og markvisst ríkari hermigáfu sinni. Verð eg langminnugur þeirrar skemtunar er eg naut af frásögnum hans, þegar eg sat fyrir hjá honum lýðveldishátíðarsumarið.

Kaldalóns tónskálds, en hinn síðarnefnda kveður hann þannig:

Þú áttir dýrmæta dísarhöll,
þar duldist þín gimsteinanáma;
þar áttir þú fundi við álfa og tröll,
þar ómaði draumgígjan frjáls og snjöll.
Þín list var í ætt við fossa og fjöll
og fegursta himinbláma.

Þú varpaðir ljóma um land og sæ,
og langt út um heimsins álfur
þú sendir geisla um bygð og bæ;
þeim blysum var ekki kastað á glæ.
Það töfraði þjóð, þitt tónafræ,
og töfrandi varstu sjálfur.

Þú skapaðir fegurð, er fölnar ei,
fegurð í æðsta veldi;
vér minnumst þess nú, þó hold sé hey,
að himinsins ljós það slökknar ei.
Hve hásiglt og bjart var þitt fagnaðsfley,
er fórst þú um sálirnar eldi!

## V.

Það leikur því ekki á tveim tungum, þó hér hafi um margt verið farið æði fljótt yfir sögu, að Ríkarður Jónsson er óvenjulega fjölhæfur listamaður og hefir verið afkastamaður að sama skapi. Hann skipar þegar orðið mikið

rúm og framarlega í listar- og þjóðmenningarsögu Íslands á fyrra helmingi þessarar aldar, og mun jafnan, að verðugu, til brautryðjenda talinn á því sviði. Hann hefir í verki hlýtt boði Einar Benediktssonar í "Aldamótaljóðum" hans:

Það fagra, sem var, skal ei lastað og lýtt,
en lyft upp í framför, hafið og prýtt.

Því að hann hefir, eins og þegar er nægilega gefið í skyn, hafið hina fornu íslensku alþýðulist, myndskurðinn, upp í nýtt og æðra veldi með frjórri skapandi gáfu sinni. Það er hverju orði sannara, sem séra Jakob Jónsson frændi hans sagði um hann sextugan í afmælisgrein: "Ættjarðarástin og tilfinningin fyrir því sérkennilega í fornum arfi þjóðarinnar vakti löngun hans til að leita fyrirmyndar og myndarefnis á þjóðlegum grundvelli. Hlóðirnar í eldhúsinu, frostrósirnar á gluggunum, þangið í fjörunni, amboð og áhöld við dagleg störf fólksins hafa orðið honum uppistaða í skrautrósir og skornar myndir" (**Tíminn**, 19. sept., 1948). En því hefir Ríkarður náð svo afburða vel sérkennum íslenskrar skurðlistar, fágað hana og fegrað, að hann hafði áður rannsakað hana gaumgæfilega. Ágætt dæmi þess er það, að hann lagði í það geysimikið verk að samræma og draga ein átta höfðaletursstafróf, sem áður voru alls ekki til þannig að aðgengileg væru, og ritaði jafnframt allrækilega grein um höfðaletrið; er hvort tveggja birt í fyrsta bindi **Iðnsögunnar.** Hefir mér verið tjáð, að dr. Guðmundur Finnbogason hafi látið svo ummælt, að það mikla rit væri vel þess virði að kaupa það fyrir það eitt, að letrin og þá grein væri þar að finna.

En stórvirki Ríkarðs í mannamyndagerð eru eigi síður merkileg heldur en afrek hans og afköst í myndskurði og á sú hliðin á listamannsstarfi hans eigi minna menningarlegt gildi, nema síður sé. Hann hefir mótað á varanlegan hátt, og lengstum af mikilli snild, mikinn fjölda þeirra samtíðarmanna sinna og kvenna, sem mest hafa komið við sögu á ýmsum sviðum, og er ekki erfitt að gera sér í hugarlund, hvers virði það er fyrir framtíðina að eiga andlitsfall þeirra og svipmót varðveitt með þeim hætti. Er gott til þess að vita, að hann hefir allmörg hin síðari ár notið listamannslauna af hálfu ríkisstjórnarinnar, svo að hann hefir átt betri aðstöðu til þess en áður að sinna mannamyndagerðinni.

Vissulega er Ríkarður Jónsson einn Íslendingur, "sem með mestum trúleik og listfengi túlkar sérkenni lands og þjóðar", eins og sagt hefir verið um hann af öðrum. Hann er kvistur sprottinn úr jarðvegi íslenskrar alþýðu, skilur hana og metur öðrum fremur, og hallast skoðanir hans í þjóðmálum eindregið á þá sveif.

Hann er jafn vinsæll persónulega og sem listamaður, og ber margt til þess. Hann er mikið prúðmenni og hrókur alls fagnaðar í vinahópi og á mannamótum, en jafnframt undir niðri mikill alvörumaður, enda hefir hann fengið að kenna á alvöru lífsins og andstreymi, strítt við langvarandi veikindi sín og sinna, en eigi glatað lífsgleði sinni né heilbrigðu lífshorfi. Þá hefir hitt eigi síður aflað honum vinsælda, að hann er heillundaður drengskaparmaður.

Að ítök hans í hugum samferða-

sveitarinnar ná eigi síður til yngri kynslóðarinnar en hinnar eldri, kom vel fram í eftirfarandi vísum, sem honum bárust á sextugsafmælinu frá Guðlaugu Sveinbjarnardóttur að Uppsölum í Flóa, tvítugri stúlku, sem jafnframt eru gott dæmi þess, að yngri kynslóðin íslenska á þá í sínum hópi, sem kunna góð skil á ljóðagerð.

Láttu aldrei á því hlé,
ævi þinnar vöku,
að yrkja líf í leir og tré,
líka marga stöku.

Heillavættir hylli
höld á degi og kvöldi.
Snjalla andans snilli
snjáist ei né máist.
Yngi Íslands drengi
andi þinn í landi.
Syngi á sigurstrengi
söngvadísin löngum.

---

# Jón í Skjálg

Hann var engum öðrum líkur
í orði, hug né sjón,
gleðimaður gæðaríkur,
gerði flestra bón,
auðgur er sá, er aldrei svíkur,
yfirvald né þjón.

Hann var enginn meðalmaður,
mæddur fáa stund,
sigurviss og sigurglaður,
sóknardjörf var lund,
stæltur, hvass og stálgáfaður,
styrk var sál og mund.

Sagt er mér á yngri árum,
oft var glatt í sveit,
þegar kom í kynnisfarir,
kempan ör og heit,
hvergi smeik og hvergi feimin,
hvergi undirleit.

Friður var í fullu banni,
fjörið hans var mest,
fanst þá og með fullum sanni,

fyndnin hans var best,
hátíð var í hverjum ranni,
er hýsti slíkan gest.

Gaman var á kyrru kveldi,
'að koma inn til hans,
gera súg að gáfnaeldi,
gleði og fróðleiks manns;
hófst þá oft í æðsta veldi,
orða slyngur dans.

Þá var augans logaljómi,
leiftrandi og skær,
umdu hús af hvellum rómi,
hver sú stund er kær,
finnst mér rödd þín ennþá ómi
aðeins nokkru fjær.

Orðsnild þín mun lifa lengi,
leifturfyndni og svör,
er þú greipst í gáskans strengi,
gneistraði andans fjör,
þannig kunni annar engi,
orðs að knýja hjör.

Ekki er von að öllum líki
orðin sannleikskölð,
veröld full af fleðusýki,
fram á hinsta kvöld,
hreinskilnin í himnaríki
hefir æðstu völd.

Þú áttir í þínum sjóði
þyngstu gjafir lands,
hvað er líf og hvað er gróði,
hverfi gleði manns?
Því skal lítil þökk í ljóði,
þulin minning hans.

**Ríkarður Jónsson**

# Orðheldni

(Brot)

## EFTIR FRÁSÖGN FARANDSALANS

Eftir Dr. J. P. Pálsson

---

Áður en eg gerðist farandsali, vann eg um nokkur ár á skrifstofu félags, sem seldi akuryrkjuverkfæri; en var stundum innheimtumaður félagsins, og ferðaðist í ýmsar áttir út frá borginni.

Einu sinni var eg sendur út til Creeksby, sem er endastöð járnbrautarinnar, smábær við vatnið og á vöxt sinn og viðgang mest að þakka fiskimönnum, sem, að vetrarlagi, draga þangað og selja veiðina. Landið er skógi vaxið og lítið um akuryrkju. Þó hafði félagið útsölumann þar; því héraðið er all stórt, þó akrarnir séu smáir. Umboðsmaður okkar í Creeksby var roskinn Englendingur, Tom Custer að nafni. Viðskiftamenn hans voru flestir Íslendingar, og reyndust jafnan áreiðanlegir menn. En í eitt skifti virtist bregða út af þeirri reglu.

Tom hafði selt manni, sem Val Valson hét, litla þreskivél, og tekið nokkra niðurborgun, en virtist hafa gleymt að láta kaupandann skrifa undir víxil fyrir það sem eftir stóð af vélarverðinu. Við skrifuðum honum hvað eftir annað, þessu viðvíkjandi; en ýmist svaraði hann ekki bréfunum eða hann ítrekaði, að Val Valson hefði lofast til að greiða skuldina á vissum tíma, og að munnlegt loforð Vals væri öllu betra en víxlar fjöldans. Loks varð það úr, að eg var sendur til Creeksby til að ná í víxil frá þessum Val Valson.

Það var um kvöld, að vetrarlagi að eg heimsótti Tom gamla. Hann hafði komið inn á skrifstofuna oftar en einu sinni, svo við vorum dálítið kunnugir. Eftir að heilsast og skiftast á nokkrum orðum um veðrið, bar eg upp erindið. "Jæja Tom, þá er eg nú kominn til að ná í víxil frá þessum þrákjálka sem þú kallar Val Valson."

"Hér er ekki um neinn víxil að ræða," sagði Tom. "Væri hann til, hefði eg sent ykkur hann."

"Þá verðum við að búa hann út, og ná í þrjótinn og láta hann skrifa undir."

"Hægra sagt en gert," segir Tom. "Val er enginn þrjótur. En þrár er hann. Ekki verður það af honum skafið; og vafasamt að hann fáist til að skrifa undir víxil. Enda gerist þess ekki þörf. Skuldin fellur í gjalddaga í haust ,og hann hefir lofast til að greiða hana."

Mér gramdist þetta kæruleysi í Tom. "Þú veist það Tom," segi eg, "að það væri ómögulegt að reka verslun á þennan hátt. Hvernig er hægt að bókfæra munnleg loforð? Og sé maðurinn ráðvandur, er engin ástæða til að hann neiti, að gera skriflega samninga um skifti hans við aðra. Eg skal gefa honum eins langan frest eins og hann æskir, ef eg fæ víxil frá honum."

"Hér kemur ekkert tímaspursmál til greina," segir Tom. "Val lofaði að

gjalda skuldina í haust, og við það mun hann standa."

"Nú jæja. Þá skalt þú ná í hann í kvöld, svo eg geti látið hann skrifa undir, og farið heim með lestinni í fyrra málið."

Tom komst í símasamband við Val og bað hann að finna sig. – "Val segist muni koma og tala við okkur. En hvort þú færð hann til að skrifa undir víxil, er annað mál."

"En, Tom! Þú segir, að hann sé ráðvandur, og áreiðanlegur maður."

"Já, það er hann. En hann er líka einbeittur, og eins og þú mundir kalla það, sérvitur. Val segir að hvorki faðir sinn né afi hafi þurft að skrifa niður nafn sitt, til að minna hann á að halda orð sín. Meira að segja heldur Val því fram, að orðheldni almennings hafi stórum hrakað eftir að kaupmenn og fjársýslumenn tóku upp á að heimta skriflega samninga um öll kaup og sölur." Eftir stundar þögn hélt Tom áfram. "Það væri kannske rétt af mér, að segja þér sögu um Val, sem er gott dæmi upp á orðheldni hans."

Eg var hæst ánægður með þessa tillögu Toms. Mér var umhugað, að kynnast náunganum, áður en eg lagði að honum með penna og pappír. Það fór vel um mig þarna í litlu setustofunni gestagjafa míns. Stóllinn var þægilegur, ofnhurðin að mestu leyti gegnsær míka-gluggi, og á bak við hann skíðlogaði þurt grenið og skyrpti neistum í allar áttir; en út um stofugluggann sást hvít auðn vatnsins lýst upp af björtu tunglskini. Við fyltum pípurnar okkar, og þegar Tom þóttist viss um að væri vel kviknað í, hagræddi hann sér í stólnum og hóf sögu sína á þessa leið:

Það eru tæp tvö ár síðan eg kyntist Val. Í fyrstu hafði eg lítið dálæti á honum, sem ef til vill kom til af því, að mér virtist hann líta Sally dóttur mína hýru auga. Og þetta ókunnugur útlendingur. Sally mín er, eða réttara sagt var, mesta fiðrildi og augnagull ungra manna hér í bænum og grendinni. Og það leið ekki á löngu, að hún og Val sáust oft saman á skautaferðum og dansleikjum, líklega oftar en eg hafði vitneskju um. Eg fór ekki í neina launkofa með, hvernig mér geðjaðist að háttalagi þeirra; en Sally bara hló að mér og sagði, að eg væri gamall fauskur, sem öfundaði unga fólkið af að skemta sér. Aftur á móti tók Val orð mín alvarlega. "Þú þarft ekki að bera áhyggjur út af Sally, þegar hún er með mér," sagði hann stillilega, og annað ekki. En framkoma hans og augnaráð var þannig, að mér varð vel til hans og hann ávann sér traust mitt. Sá orðsveimur komst á, að Sally og Val væru trúlofuð. Eg gerði mér enga rellu út af því, en þótti líklegt, að Val segði mér frá því, væri svo komið, nema kenjar Sally kæmi í bága við það. Hvernig sem þessu var vikið, reyndist það ekki samdráttur þeirra sem olli mér áhyggjum.

Rétt fyrir jólin kom ungur spjátrungur og settist að í Creeksby. Hann hét Jack Robinson, en annars vissi enginn deili á honum. Robinson var einn þessi sléttfágaði brúðumaður, kátur og fjörugur og mjúkur í máli, og hið mesta kvennagull. Og innan mánaðar var hver stelpugopi í þorpinu orðin snarvitlaus í honum. Þar með talin Sally mín. Nú var búið að vera milli hennar og Vals. Og var hann nú ekki meira metinn af yngri kvenþjóðinni, en keila í styrjuneti.

Einn dag finnur Val mig að máli.

"Eg hefi vaðið í villu og reyk", segir hann. "Hélt að Sally þætti vænt um mig, og ætlaði að giftast mér. Nú sé eg að það er okkar beggja lán, að hún áttaði sig í tæka tíð."

"Áttaði sig!" segi eg, og var þungt í skapi. "Hvernig veistu að hún hafi ekki tapað áttunum, að það er ekki hún, sem nú veður villu og reyk? Hún fær aldrei samþykki mitt, til að eiga þetta aðskotadýr, sem enginn veit hver er né hvaðan aðkominn."

"Sally er ung og óreynd," segir Val. "Og ekki er það hennar skuld, að hugur hennar snerist frá mér til Mr. Robinsons. Og af því eg tel þig góðkunningja minn, þætti mér vænt um að þú létir ekki Sally gjalda þess, að eg var þetta flón. Hún er of viðkvæm og saklaus til að þola stygð og ákúrur frá föður sínum. Mótþrói og fordómar eldra fólksins reynast aldrei vel, þegar til einkamála hinna yngri kemur. Og metir þú kunningskap okkar að nokkru, skaltu sýna Sally að hún sé sjálfstæð og hafi rétt til, að velja og hafna, þegar til þess kemur að velja sér eiginmann."

Eg sá að, frá Vals hálfu var málinu lokið, og þótti mér vænt um, á parti, hvernig hann tók þessum ungæðishætti stelpunnar. Enda gat eg ekkert að gert. Hún virtist snarvitlaus í þessum Jack Robinson, og hafði almenningsálitið á sinni sveif. — Það væri, svei mér ekki að furða þó ung og falleg innlend stúlka, eins og Sally Custer, tæki glæsimennið hann Mr. Robinson, fram yfir óbreyttan bóndason, og hann Íslending í tilbót!

Robinson vann í búð hér, en var þó fremur stopull við vinnuna. Var á sífelldu ferðalagi milli Creeksby og Winnipeg, og vissi enginn hvaða erindi hann rak á þeim ferðum. Um haustið keypti hann netja útgerð og hundalest, og réði menn til fiskiveiða, norður á vatn. Alt var þetta mikið til upp á krít, og sannaðist hér, sem oftar, að sá hefir flest sem kjafta kann.

Hér er það á allra vitund, að ekki finnst duglegri maður til flutninga, en Val Valson; og fá hann færri en vilja til að flytja veiði sína að norðan. Því rak margur upp stór augu, þegar það fréttist að Val hefði samið við Robinson um að flytja fisk hans til Creeksby. — Hér var málefni sem var vert þess að ræða það. Hverskonar ræfill var þessi Íslendingur? Fyrst lét hann þennan Robinson ræna sig kærustunni, og síðan narra sig til að flytja fyrir hann fiskinn, því þegar Robinson var orðinn fiskimaður, fór allur glansinn af honum. Það gat reynst fremur tap en gróði að semja við hann um vinnu, mann sem tók alt á lán, kunni sjálfsagt ekkert til fiskiveiða. Vitaskuld hafði hann ráðið til sín vana fiskimenn; en hvað um það? Það lýsti aulaskap Vals, að hann skyldi á nokkurn hátt binda bagga með Robinson.

Fyrri part vertíðarinnar aflaðist lítið, og Val ásetti sér, að gera aðeins eina ferð út í ver Robinsons. Þó dráttar-útvegur hans væri ekki nógur til þess, var honum gefið, að ráða alla þá menn og hesta, sem hann þarfnaðist. Allir vildu vinna fyrir Val, ekki síst ef hann var sjálfur með. Með þessu fyrir komulagi var Val frí, að flytja fyrir aðra þar til kom að því, að sækja fisk Robinsons. Aðal atriðið var, að fiskurinn átti að vera kominn inn til Creeksby fyrir fyrsta dag marsmánaðar, því þann dag voru samningar uppi milli Robinsons og þeirra sem keyptu af honum.

Um það leyti sem Val var að búa sig í leiðangurinn, fékk hann þungt kvef. Beck læknir latti hann til ferðarinnar, sagði að það væri hættuspil fyrir hann að leggja í langferð, eins og hann væri á sig kominn. En Val aðeins glotti að ráðum læknis. Hann hafði alla ævi haft heiðinna manna heilsu, og gat ekki hugsað sér, að smákvilli eins og kvef, breytti áformum hans. Um þrákelkni Vals er óþarft að fara mörgum orðum, þú veist hvernig okkur hefir gengið að fá hann til að undirrita víxilinn. .

"Samningur Robinsons við fiskikaupmennina er uppi fyrsta mars", segir Val. "Og eg hefi lofað að koma fiskinum til Creeksby fyrir þann dag; og eg er ekki vanur að ganga á bak orða minna.",

Læknirinn gerði sitt til að ráða honum frá að takast ferðina á hendur. Sýndi Val fram á, að ágerðist kvefið og snerist upp í lungnabólgu, yrði hann meira til tafar en flýtis. En hann skelti skolleyrum við orðum læknis og annara, sem vildu honum þó alt hið besta.

Það er margt handtakið við að búa stóra dráttarlest í langa ferð út á vatnið. Val átti í ótal snúningum, og þó lasinn væri, taldi hann það skyldu sína að hafa eftirlit með öllum undirbúningi til ferðarinnar. En þegar lestin var loks til að leggja upp, skárust tveir ökumennirnir úr leik. Báru því við að þeir væru lasnir og aftóku að leggja á vatnið. Val bar þeim heigulskap á brýn, og ásakaði þá jafnvel um sviksemi. Hann hálfgrunaði að lasleikinn væri uppgerð, og fyrirsláttur einn, og varð harður í horn að taka. Og þegar þetta bættist á þreytuna og lasleikann, varð Val annar maður, en eg hafði áður þekt hann fyrir. Vanalegri stilling hans og ljúfmensku var lokið; og nú óð hann um eins og grenjandi ljón. Ökumenn hans voru allir Íslendingar, og þó eg skildi ekki reiðilestra hans, er mér nær að halda, að orðbragð hans hafi ekki verið upp á það fínasta.

Svo mikið þótti mér fyrir þessum vandræðum vinar míns, að eg bauðst til að gerast ökumaður í lestinni. Val þáði það með þökkum; en enn vantaði okkur mann. Í þessu kemur maður og býðst til að slást í förina. Við tökum honum fegins hendi, þó hann væri mesta mannleysa og landeyða. Hann mun hafa verið skírður James, en í Creeksby var hann ætíð kallaður Rotti, líklega af því, að hann sást fyrst í þorpinu haustið sem rotturnar gerðu fyrst vart við sig í Creeksby. Eftir það kom hann á hverju hausti, um það leyti sem vertíð byrjaði, og slæptist hér fram á vor. Ekki virtist hann hafa neitt sérstakt fyrir stafni; en þó hann sæist aldrei gera ærlegt handarvik, gekk hann þokkalega til fara og skildi jafnan við þorpið skuldlaus. Var mælt, að tekjur hans takmörkuðust við það sem hann græddi í spilum, billiard-leik og launsölu áfengis.

Val klæddi okkur Rotta eins og hina, í hvítar úlpur utan yfir ósköpin öll af ullarfötum. Úlpunni fylgdi áföst skýluhetta fóðruð loðskinnum; en til fótanna vorum við í þremur ullarsokkum og mjúkleðursskóm.

— Svo þú hefir aldrei séð eina þessa flutningslest. Þær eru víst ærið ólíkar karavönum Austurlanda. Þó er þessi ísauðn vatnsins einskonar eyðimörk, þegar stormurinn æðir um hana og drífur snjóinn í hrannir, sem sífelt breyta um stærð og form; og skafhríðin fyllir vit manna og skepna glithvítum frerasandi. Mun þó blindbirta sólarinnar mun þolanlegri en heiðríkja og

hitasterkja hinnar austrænu eyðimerkur.

Fyrir lestinni gengur snjóplógurinn, sem skefur ísinn og kastar snjónum til beggja hliða. Fjórir hestar ýta honum á undan sér, og er það svo þungur dráttur, að skift er um á hverjum tveim tímum. En í fari hans reynist drátturinn tiltölulega léttur. Á einum sleðanum er tjaldhús, hlýtt og furðu rúmgott. Þar matast lestarmenn á daginn, og sofa á nóttunni. Eftir endilöngum hliðum þess, að utan, liggja jötur úr striga. Við þakið eru festir dúkar svo breiðir, að tjalda má yfir hestana, sem bundnir eru undir veggjunum. Annars eru dúkar þessir vafðir upp á daginn og liggja þá í jötunum. Það er því svo um búið, að öllu leyti, að þar lætur nótt sem nemur; því á þessari eyðimörk er engill hörgull á vatni, fyrir menn og skepnur. Með því að höggva vök í ísinn er vatnsbólið fengið.

Á öðrum degi út úr Creeksby, kom maður á hundum, á eftir okkur. Hafði hann auðsjáanlega haft hraðan á, enda var ferðinni ekki lengra heitið en til okkar. Hann afhenti mér bréf til Robinsons, og þekti eg rithönd Sally minnar á því. Svo sneri bréfberinn heim um hæl.

Ekki gat eg getið mér til um bréfsefnið, en þóttist viss um að það væri áríðandi. Því þó Sally væri léttúðug og ærslafull, kom mér ekki til hugar, að hún hefði gert út þennan sendisvein sinn með ástabréf til unnustans, þó Robinson gæti kallast því nafni, sem mér var ókunnugt um. Og eg gekk þess ekki dulinn, að hér lá meira við.

Ferðin gekk vel út. Veður fremur gott og þolanleg færð, enda lausir sleðar. Það eina sem amaði að, var ástand Vals, því kvefið fremur ágerðist en létti.

Það var seinni part dags, sem við náðum í ver Robinsons; og tók hann vel á móti okkur. Höfðum við gert ráð fyrir að hvíla okkur það sem eftir var dagsins og ferma ekki sleðana fyrr en að morgni. En það fór á aðra leið. Og það var bréf Sally, sem breytti áætlun okkar.

Einhvernveginn hafði hún hlerað, að botninn var dottinn úr fiskimarkaðnum og eftir síðasta dag febrúar mundi fiskurinn ekki borga flutningsgjaldið, hvað þá meira. Fram að þeim tíma var félagið sem Robinson seldi veiði sína, skyldugt, að greiða það verð sem samið var um. Að öllu forfallalausu höfðum við nægan tíma til stefnu, en hér var of mikið í húfi, til að eiga nokkuð á hættu. Illviðri og íssprungur gætu hamlað svo og tafið för okkar, að við næðum ekki til Creeksby í tæka tíð. Og þar sem tefla var um tap eða gróða á allri vertíðar-veiði Robinsons, aftók Valur, að eiga nokkuð á hættu. Og í stað þess, að reykja og rabba eða spila rummy eftir kvöldmat, var tekið til óspiltra málanna að ferma sleðana. Það hafði verið mokafli síðustu dagana, en sá fiskur var allur laus, og urðum við að pakka hann í kassa sem við höfðum komið með. Robinson hafði gert ráð fyrir að öll veiðin og útgerðin yrði flutt í einni ferð; en brátt kom í ljós, að þessu varð ekki við komið. Netin voru enn í vatninu. Þess utan var fiskurinn svo mikill, að hann komst ekki allur á sleðana, hvað þá meira. Það varð því úr, að menn Robinsons yrðu eftir, þar til hann semdi við aðra flutningsmenn, um að sækja þá og það sem þeir hefðu meðferðis. Sjálfur tæki Robinson pláss Vals í lestinni. Enda veitti

ekki af því. Eftir að hann hafði ólmast eins og vitlaus maður alla nóttina, við að ferma sleðana og koma öllu í lag fyrir heimferðina, var hann orðinn fárveikur maður. Mér var líka nokkur fró í því, að eigandi farmsins var nú fyrirliði fararinnar, tækist svo illa til, að lestin kæmist ekki til Creeksby í tæka tíð.

Um morguninn lögðum við upp í býti, og gekk þolanlega þann dag. En um nóttina gekk á, með grenjandi stórhríð, sem stóð yfir allan næsta dag, svo okkur miðaði hægt. Komumst aðeins sem svaraði hálfri dagleið. Héldist óveðrið til lengdar, var undir hælinn lagt, að við næðum Creeksby eftir áætlun. Árangurslaust væri að ofbjóða hestunum. Betra að fara hægara meðan illa gaf, svo menn og skepnur væru óþreytt þegar illviðrinu slotaði. Þessu réði Val, þó hann hefðist við í svefnhúsinu og lægi fyrir mest af tímanum.

Ekki var það einungis veðrið sem hefti för okkar. Þó upp birti og veðurhæðin lækkaði, elti ólánið okkur samt. Alt af var eitthvað að bila, og þó það væri jafnan smávægilegt, olli það töfum og kostaði dýrmætan tíma. Aktýgin biluðu. Fiskkassarnir ultu af sleðunum. Hitt og þetta gleymdist og varð eftir þar sem numið var staðar, og var ekki saknað fyrr en eftir að lestin var komin af stað. En þó þetta væri gremjulegt, og virtist varla einleikið, gaf eg því lítinn gaum. Áhyggjur mínar voru út af ástandi Vals. Hann var orðinn fárveikur; þjáðist ýmist af köldu eða hitasótt, en hélt þó rænu lengst af, og lagði á ráðin um ferðalagið.

En ekki þekti eg hann lengur fyrir sama mann. Hann kallaði okkur öllum ónöfnum, og bölvaði klaufaskap okkar og ráðleysi í sand og ösku.

Eina nóttina vaknaði eg við, að mér heyrðist eða fanst einhver vera við svefnhúshurðina. Það var svarta myrkur, svo eg settist upp og hlustaði. Eg heyrði hurðina opnast og fann kuldastrokuna úr dyrunum. Kerti og eldspýtur voru ætíð við hendina, og eg kveikti í snatri. Sé eg Val, hvar hann stendur við dyrnar, og heldur á Rotta, eins og hvolpanga, undir hendinni. Báðir voru þeir alklæddir. Eg átti bágt með að átta mig á þessu, og flaug strax í hug að Val væri viti sínu fjær af hitasóttinni, og ávítaði hann fyrir að asnast út í kuldanna, svona um hánótt.

"Ertu blindur?" segir Val. "Sérðu ekki hvað eg sótti út? Sýnist þér eg ekki hafa átt erindi út í kuldann?" Svo hendir hann Rotta á gólfið eins og dauðu hræi, og sparkar fæti í hann.

Nú voru allir glaðvaknaðir og horfðu undrandi á Val. "Hvað er um að vera?" "Því liggur Rotti á gólfinu?" "Hefir hann gert nokkuð af sér?" Þannig ringdi spurningunum að Val, eða hverjum þeim, sem kynni að vera fær um að svara þeim.

"Gert nokkuð af sér!" segir Val og sparkar í Rotta á ný. "Þetta kvikindi er potturinn og pannan að öllu basli okkar á þessari ferð. Eg vissi að það var ekki einleikið með allar þessar tafir. Og nú ætlaði úrþvættið að reka á endahnútinn. Þegar eg kom að honum, áðan, var hann í mestu önnum að losa um allar rær í boltum sem halda snjóplóginum saman; og hefði þrælnum unnist tími til, mundi plógurinn hafa hrunið í sundur við fyrsta átak hestanna. Takið þið við honum piltar og sjáið um að hann gangi ekki laus, það sem eftir er ferðarinnar. Líklega best að binda kvikindið."

Mér leitst svo á Rotta að hann mundi

hafa hægt um sig, án þess að vera settur í bönd. Hann virtist mállaus og máttlaus af hræðslu við húsbóndann. Þú getur nærri um hvernig tilfinningar okkar voru gagnvart þessari mannleysu. Robinson varð orðfall. Hann var kominn á fætur, og horfði ýmist á Val eða Rotta. Svo gekk hann til Vals, tók þegjandi í hönd hans og leiddi hann að fleti hans og hjálpaði honum úr ytri fötunum. Eitthvað töluðust þeir við og eg heyrði Val segja, "Þeir munu ekki kæra sig um að kaupa fiskinn þinn fyr en næsta mánuð. Hafðu gætur á Rotta, því eg býst ekki við að verða fær um það. Svo er eins víst að við þurfum á honum að halda fyrir leikslok."

Eins og vænta mátti versnaði Val um allan helming. Hann átti bágt með andardrátt og var ekki með rænu nema stund og stund í senn. Þó fylgdist hann furðu vel með því sem gerðist, og spurði sí og æ hvernig okkur miðaði áfram. Og nær sem hann frétti að alt gengi vel, létti honum í svipinn.

Eins og geta má nærri, sáu piltar um að fanginn gengi ekki úr greipum þeirra. Þeir sýndu honum enga vægð, og létu hann játa á sig alla hans klæki. Kvað hann umboðsmann fiskifélagsins hafa keypt ökumennina tvo til að skerast úr leik og sig til að fremja svikin. Rotti átti að sjá um að lestin kæmist ekki til Creeksby í febrúarlok. En þá gat umboðsmaður keypt á eins lágu verði og honum sýndist, en bókað söluna fyrir mánaðarlok og dregið mismuninn í sinn vasa.

En ráðabrugg þeirra fór alt að forgörðum, þó hæpið væri. Klukkan var farin að ganga níu að kvöldi hins tuttugasta og áttunda, þegar lestin stefndi upp að fiskihúsunum. Við vorum komnir litlu eftir hádegi að vatnsbakkanum, en þaðan varð að beita fjórum eða sex hestum fyrir hverju æki, til fiskihúsanna, því sleðarnir runnu ekki lengur á glerhálum ísnum. Þegar fyrsti sleðinn var kominn á sinn stað, fór Robinson að líta eftir umboðsmanninum, sem ekki var við í svipinn. En enginn kærði sig. Áhuginn stefndi allur að því að koma öllum sleðunum upp. Að því búnu var í alvöru farið að grenslast eftir hvar umboðsmaður héldi sig. Þó skrifstofa hans væri lokuð, og enginn virtist vita hvar hann hélt sig, var ólíklegt að hann gæti dulist í ekki stærra þorpi en Creeksby. Leit þó helst út fyrir að maðurinn yrði ekki fundinn.

Um leið og lestin staðnæmdist við vatnsbakkann, fluttum við Val heim til mín og eg kallaði lækninn. En þó sjúklingurinn væri illa á sig kominn, vissi hann hverju fram fór, og þegar hann varð þess áskynja, að fiskikaupmaðurinn fanst ekki, sagði hann mér að Rotti væri maðurinn til að hafa upp á þrælnum. Þetta reyndist heillaráð. Rotti fann húsbónda sinn, þó þar gerðust engir fagnaðarfundir. En það varð til þess, að Robinson fékk kvittun þess efnis, að hann hefði skilað veiðinni samkvæmt samningum.

Eftir að Val varð þess vís að alt var klappað og klárt milli þeirra, féll hann í mók, og talaði ekki orð af viti svo dögum skifti. Beck læknir sagði að hann hefði svæsna lungnabólgu, og að tvísýnt væri um líf hans. Hann undraðist það mest að Val skyldi ekki vera dauður fyrir löngu.

Eftir að Val var úr hættu, hrósaði eg lækninum fyrir list hans og kunnáttu. En hann vildi ekki heyra það, og hristi höfuðið. "Það var ekki læknislistin sem frelsaði Val", sagði læknir, "heldur

hjúkrun dóttur þinnar. Svo er maðurinn ódrepandi." Beck læknir þagði stundarkorn og segir, "Og svo er samviskan. Enginn veit hversu mikið fylgi góð samviska veitir lífinu, í baráttu þess við dauðann".

★

Dan sló öskuna úr pípunni og þagði. Svo leit hann til mín brosandi. "Og nú getur þú sjálfur dæmt um, hvort loforð Vals Valssonar, séu ábyggileg. — Ekki hafði hann gert neinn skriflegan samning við Robinson".

"Sleppum því", sagði eg. "En hvað um ástamál þeirra Sally og Robinsons".

"Um það er eg með öllu ófróður". sagði Tom, "að öðru leyti en því, að þrem mánuðum eftir að Robinson seldi vetrarveiðina, giftust þau Sally og Val. Og hvort sem þú trúir því eða ekki var eg, og er enn, hæst ánægður með gjaforðið".

Í þessum svifum kom glóhærður, bláeygður risi inn í stofuna. Hann horfði fast á mig. "Þú munt vera innköllunarmaður fyrir verkfæra-félagið", segir tröllið. Eg játti því, en fanst þó hálft í hverju minkun að starfinu.

"Og þú munt vera hér í þeim tilgangi, að fá mig til að skrifa undir loforð mitt um að mæta skuld minni við félagið. Það er best að ljúka því af, svo Mr. Custer hafi frið fyrir ykkur". — Og Val skrifaði undir; en það var í það eina skifti sem eg hefi fyrirorðið mig fyrir að koma mínu fram, þó það væri skylda mín.

---

# Í Haukadal

**Eftir Þórodd Guðmundsson frá Sandi**

---

Gengum vér á Gíslahól.
Gráföl skýin huldu sól.
Sáust gnæfa svipstór fjöll.
Sognsins strönd og dalsins völl
prýddu bændabýli væn.
Brosti Seftjörn fagurgræn,
þar sem háðu háskaleik
Haukdælir, er giftan sveik.

Frjó var þessi forna hæð,
fríðleik gædd í sinni smæð,
þar sem Vésteins hjarta hneit
hjörinn sá, er hvassast beit.
Aldrei hefir dýrri dreng
dauðinn snert. Með brostinn streng
Gísli fyrir fremsta hlunn
féll, sem hnigi blóðug unn.

Enginn hlýrri hetjuóð
hefir sungið vorri þjóð
ljóði þessu: lífi hans,
landsins besta skógarmanns.
Enginn kappi aldurlag
eftir liðinn styrjardag
fékk sem hann á frónskri jörð,
féll með sæmd við Geirþjófsfjörð.

Hér eg skynja dult og djúpt
djarfan sefa, hjarta gljúpt,
auðnu veika, örlög sár,
ást og hatur, gleði og tár,
vit og óráð, víg og frið,
valdboð, ánauð, svik og grið,
rótleysi og ramma taug. —
Roða slær á Vésteinshaug.

Aldrei sá eg áður fyr
opnast svona víðar dyr
inn í gamlan glæsiheim,
gæddan hvítutöfrum þeim,
sem oss fyrnast ekki enn,
útlagar og skógarmenn
þó að gistu gjögururð
griðlausir við nekt og þurrð.

Sér bjó einn þau örlög hörð
öll, sem verða bitrust gjörð.
Eins og væri illri gýg
opinberað Þorgríms víg,
fjendur skæðri hétu hefnd.
Hún að lokum reyndist efnd.
Var þá líf hans ofsókn ein,
ósköp, harmur, kvöl og mein?

Nei, hann átti í böli bót,
blómalund við eggjagrjót,
eins og vin í eyðimörk:

öfl, sem háðu stríð við Börk,
ofsækjandann Eyjólf grá,
óhöpp lífs og dauðaspá.

Auðar vernd og Ingjalds lið
útlaganum stundarfrið
veittu móti myrkrageig,
mannvörgum og draumabeig.

Því var líf hans leiftrum stráð,
líkn í þraut, ef að var gáð.
Helgidóma heilög vé
honum kvölin lét í té.
Sekt og vígsök visku gaf,
vitrun sorgar bládjúpt haf.
Fyrir ævifjörbaugsraun
fékk hann spekisnild í laun.

Dáðfegurri dul þess alls,
dýpri rótum Heklufjalls,
betri mannlífs mætri snild,
meiri tímans hefð og vild,
æðri hverri fremd og frægð,
frjórri bestu kosta gnægð
var þó ást hans eiginvífs:
unaðsbót í þrautum lífs.

Hver mun fegri geta gjöf,
giftudrýgri, þó að höf
köfuð séu og klifin björg,
kjördjásn bjóðist dýr og mörg?

Meðan lifir ment og dygð,
munu Auðar dáð og trygð
lýsa eins og arinbál
inst og dýpst í hverja sál.

# Hauður og haf

Eftir séra Valdimar J. Eylands

---

Einhverju sinni lýsti Bjarni Sæmundsson, hinn merki náttúrufræðingur, og um mörg ár yfirkennari við Menntaskólann í Reykjavík, Íslandi þannig, að það væri að lögun sem ferlíki eitt mikið, sem glenti upp ginið, með blaðrandi tungu, mót úthafinu til vesturs. Samkvæmt þessari lýsingu er Vestfjarðakjálkinn efri skolturinn, Snæfellsnesið tungan, en Reykjanes skagginn neðri skolturinn. Jarðfræðingar telja að Reykjanes skaginn, eins og ýmsir aðrir hlutar Íslands, hafi myndast við eldgos, enda er hann að mestu leyti hlaðinn upp úr hraunlögum. Talið er að ellefu eldgos hafi átt sér stað á þessu svæði síðan sögur hófust. Veðráttan er þarna óstöðug og stormasöm mjög, sem stafar af því að landið er að mestu flatt og hvergi afdrep. Skaginn er í þjóðbraut fyrir loftþyngdarlægðir sem koma sunnan og vestan af hafi, og er hann því eins konar glímuvöllur fyrir storma af ýmsum áttum. Frá því er skýrt í Landnámabók að Steinunn hin gamla, frændkona Ingólfs Arnarsonar landnámsmanns, hafi keypt alt Rosmhvalanes fyrir utan Hvassahraun. og gaf hún fyrir það "heklu eina flekkótta, og vildi kaup kalla". Eftir því að dæma hefir þessi sveit ekki verið mikið gróðursælli þá en nú. Einar Kr. Einarsson, skólastjóri í Grindavík, tilfærir í ræðu sem hann hélt við vígslu hins prýðilega barnaskólahúss þar í þorpinu, ummæli sem hann hefir eftir Þorvaldi Thoroddsen, að "þegar Guð leit yfir alt sem hann hafði gert, og sá, að það var harla gott, mun honum hafa sést yfir Suðurnesin." Hvað sem því líður, þá er þess ekki að dyljast, að þeim sem upp eru aldir við fjölbreytta náttúrufegurð í öðrum sveitum landsins, og koma suður á Reykjanesskagann í fyrsta sinni, finst þar næsta ömurlegt um að litast. Fjöll eru hér engin. Í björtu veðri sést þó að vísu frá norðurströnd skagans hinn tilkomumikli fjallahringur alla leið frá Snæfellsnesjökli yst til vinstri, Baula í Borgarfirði, Akrafjall, Esjan, Grindavíkurfjöllin og Keilir, lengst til hægri. En þessi fjöll eru í svo mikilli fjarlægð, að fegurðar þeirra nýtur ekki að jafnaði. Hér eru þá ekki heldur neinir broshýrir grösugir dalir, engar ár eða lækir, og þá auðvitað heldur ekki fossar. Gróðurinn er einkar fáskrúðugur, þar sem hann er annars nokkur. Alt er blásið og bert, "brjóstin nakin og fölar kinnar". En hér, í þessu forna, og frá náttúrunnar hendi, fátæklega landnámi Steinunnar gömlu búa nú nokkrar þúsundir tápmikilla manna, sem una glaðir við sitt, og líður í alla staði mæta vel. Þeim þykir vænt um sveitina sína, og finst hún meira að segja fögur. Þeim dettur ekki í hug að flytja í fegurri og frjósamari bygðir, en vinna að því eftir mætti að græða landið og gera jörðina sér undirgefna. Þessi sveit, sem í fljótu bragði virðist sneidd að náttúrufegurð og frjósemi, það svo, að landnámskonan lagði hana að jöfnu við eina hversdagslega peysu, hefir þá



Útskálar í Garði

líka reynst íbúum sínum miklu betur en ætla mætti.

Á framtönnunum í efra skolti ferlíkisins, svo notuð sé samlíking náttúrufræðingsins, nyrst og nærri vestast á Reykjanestánni er **Garðurinn,** sambland af sjávar og sveitaþorpi, sem telur um 300 íbúa. Því fer fjarri að þetta þorp sé afskekt, eða að lífsskilyrðin séu þar frumstæð á nokkurn hátt. Fólksflutningabílar, "rútur", fjórar ferðir fram og aftur á hverjum degi til Reykjavíkur, og tekur hver ferð tæpa tvo tíma aðra leiðina. Bærinn er vel raflýstur, og sími og útvarp eru í flestum húsum. Þarna er höfuðbólið og prestssetrið **Útskálar,** sem mun vera landnámsjörð og kirkjujörð, eftir að kristni hófst. Mun þorpið hafa vaxið út frá og í kring um þetta heimili. Allmargar smærri jarðir standa í hinni upphaflegu landareign Útskála, og eru bændurnir þar leiguliðar prestsins. Fyr á tíð er sagt að leigubændur þessir hafi verið svo mjög háðir hinu andlega valdi, að þeir máttu hvergi fara, og ekki vinna dagsverk fyrir aðra, án þess að spyrja klerkinn um leyfi. Skömmu áður en eg fór frá Útskálum í sumar leið, komu bændurnir hver á eftir öðrum inn á skrifstofu mína með jarðarafgjöldin. Áður fyr reiknuðust þau í skippundum fiskjar, og voru þannig goldin, en nú eru þau borguð í jafnvirði af peningum. Eg var alt í einu orðinn stórbóndi, og tók leigur af bændum mínum! En ekki fékk eg að smakka hinn sæta ávöxt prestavaldsins; karlarnir spurðu mig aldrei um leyfi til neins, og fóru allra sinna ferða fyrir mér, og svo mun það hafa verið lengi, hvaða prestur sem átti í hlut. Á þessum slóðum eru fleiri söguríkir og merkilegir staðir. Fimm enskum mílum nær Reykjavík, en Garðurinn, er hinn gamli verslunarstaður **Keflavík,** sem hvað umheiminn snertir, er nú frægasti staður á Íslandi vegna hins mikla flugvallar sem er rétt hjá þorpinu. Keflavík er í uppgangi, og sækir nú um bæjarréttindi. Þar er góð hafskipabryggja, margar ágætar verslanir, fjögur hraðfrystihús, myndarlegur spítali, þó ekki fullgerður. ágætt kvikmyndahús, mikið af nýsköpunar byggingum, og einkar fögur og smekkleg kirkja. Félagslíf er hér fjörugt, einkum á vetrum þegar útgerðin stendur sem hæst. Keflavík telur um 2000 íbúa, og er höfuðstaður Suðurnesja, og samgöngumiðstöð á sjó, landi

og í lofti. Nokkru innar á Skaganum er Innri Njarðvík, þar sem skáldið og spekingurinn Sveinbjörn Egilsson var fæddur. Þar fyrir innan er **Stapinn** einskonar hraunháls, sem stendur allhátt yfir sjávarmál, og gengur í háum þverhníptum kletti fram í sjó. Er talið að á Stapanum hafi verið reimt mjög í fyrri daga, og ýmsar sögur heyrði eg um það að Stapadraugurinn hafi það enn til að glettast við menn, einkum ameríkanana, sem oft ferðast um þessar slóðir. Hvað hann stundum sprengja fyrir þeim bíladekk, þegar verst lætur í veðri, og svo þegar þeir eru að bjástra við aðgerð er hann til með að koma til þeirra og taka ofan fyrir þeim — sjálft höfuðið —, eða kinka gljáandi kolli og holdlausum augnatóftum til þeirra inn um bílgluggann. Ef trúa má ýmsum kynjasögum, má ætla að hinar ósýnilegu verur séu mjög þjóðhollar, og kunni miður vel átroðningi hinna erlendu manna, ekki síður en fjöldi þeirra landsmanna sem holdi eru klæddir. Þessi saga er höfð eftir bónda í Hvalfirðinum:

"Hérna í Hvalfirðinum hafa altaf verið huldumenn, mér er kunnugt um það af eigin raun, því að eg hefi séð þá við og við síðan eg var unglingur. Þegar herdátarnir voru búnir að setja upp eitt varnarvirkið og girðingu í kring, settu þeir þarna vörð hermanna með byssur. Nú bar svo við einu sinni að varðmennirnir sáu að ókunnir menn voru komnir inn fyrir girðinguna og voru þar á sveimi fram og aftur. Varðmennirnir gátu síst skilið, hvar þessir náungar hefðu komist inn og kölluðu til þeirra, en fengu ekkert svar. Varðmennirnir kölluðu þá aftur og allhastarlega og miðuðu byssunum, en aðkomumenn svöruðu ekki, heldur færðu sig, þöglir og ódeigir, eins og ekkert væri, í áttina til varðanna. Varðmennirnir hleyptu þá af, og skutu á þessa þöglu gesti, en skotin fóru gegn um þá, og við þetta tóku þeir undir sig stökk og stefndu á verðina. Við þessa sýn urðu verðirnir ofsahræddir, köstuðu frá sér byssunum og lögðu á flótta. komust þeir við illan leik inn í herbúðir, þar hnigu þeir niður, og varð að stumra yfir þeim lengi dags. Þegar þeir tóku að hressast létu þeir svo um mælt, að þeir vildu heldur láta leiða sig fyrir herrétt en fara aftur á vörðinn.

— En hvað heldurðu að hefði þurft marga slíka vini til þess að reka alla herdátana úr Hvalfirðinum, laxi?" bætti gamli bóndinn við.

En fyrirgefðu, lesari góður. Eg var að tala um söguslaði á Suðurnesjum. Á milli Garðsins og Sandgerðis, á vestursströnd skagans er **Kirkjuból,** þar sem Norðlendingar tóku hús á Kristjáni skrifara, árið 1551, drápu hann og sveina hans, og hefndu þannig aftöku Jóns biskups Arnasonar. Sunnar en Sandgerði er **Hvalsnes,** kirkjujörð, og ein af annexíukirkjum Útskálaprestakalls. Hallgrímur Pétursson gerði þennan garð frægan, en þó var enginn frægðarljómi yfir honum þar. Hann var vígður þangað, og bjó þar fyrstu prestsskapar ár sín við hina mestu fátækt og niðurlægingu. Fortíð hans var heldur ekki glæsileg, aldarandinn hortugur, og enginn vissi hvað með manninum bjó. Ekki virðist hann hafa átt sjö dagana sæla á þessum árum, ef dæma má eftir hinni alkunnu vísu:

"Úti stend eg ekki glaður,
illum þjáður raununum.
þraut er að vera þurfamaður,
þrælanna í Hraununum."



**Ytri Njarðvík og Keflavík**

En nú er það engin "þraut" að vera prestur þeirra Suðurnesjamanna; um það get eg borið af eigin reynd.

Mér fanst eg oft heyra nið aldanna á þessum slóðum, ekki síður en nið hafsins. En hver sá sem dvelur á Útskálum árlangt, hlýtur að komast í náin kynni við hafið með öllum skapbrigðum þess og mismunandi blæ. Það er ævinlega lærdómsríkt að athuga hafið. Oft er það svo undur fagurt, svo þrungið af himneskum friði, svo dásamleg ímynd ómælanleikans og eilífðarinnar, að það vekur dýpstu aðdáun og hrifningu. En það tekur einnig tíðum, einkum á vetrum, á sig svo ægilegar myndir, að engin orð fá lýst. Þegar Ægir teygir hramma sína langt upp á land, lemur fjöruna og ströndina með hvítfossandi löðri, og fleygir stóreflis hnullungum upp á 20 til 30 feta háar klettabrúnir, þá fer nú gamanið að grána. Á slíkum stundum detta manni í hug ljóðlínur, eins og t. d. "Eg elska hafið æst . ." og "Eg elska þig stormur sem geisar um grund", og mann furðar það, hvað skáldin geta elskað mikið! En að öllum líkindum hafa nú skáldin sem svo kváðu setið inn í hlýjum og þægilegum stofum þegar þau voru að sjóða saman þessa speki um hið æsta haf, og hinn geysta storm. Ef þú, lesari góður, hefir nokkru sinni verið út á rúmsjó, mitt í trölladansi hafaldanna og þér hefir skilist að líf þitt var í veði hvert augnablik, þá efast eg um að þú munir hafa haft sterka tilhneigingu til að lýsa yfir ást þinni á hinu æsta hafi. Á sama hátt, ef þú varst á ferðalagi á landi, og réðir þér ekki fyrir veðurofsanum, en fanst þú helst verða að skríða á fjórum fótum til þess að fjúka ekki fyrir björg, þá má mikið vera ef þú varst mjög ástfanginn í storminum rétt þá stundina. Slíkur skáldskapur sem þetta kann að vera góður og fagur, ef hann er sunginn í húsum inni á björtum sólskinsdögum, en sýnir annars hversu hin mjúkklæddu stofuskáld geta stundum verið einkennilega utanveltu við lífið og veruleikann.

En hvort sem menn hafa óttast hafið

eða elskað það hafa menn safnast að ströndum landsins og í sjávarþorpin. Hafið, með yndi sínu og ógnum, með tækifærum sínum til fjáröflunar og til ævintýra hefir kallað syni og dætur Íslands á öllum öldum, og aldrei hefir kall þess lokkað jafnmarga til fangbragða eins og nú. Menn hafa komið, barist og sigrað, öld eftir öld, og svo horfið heim aftur til fátækra og afskektra heimila sinna með björg í bú. En margir hafa einnig horfið snauðir frá, eftir harðan leik, eða þá horfið með öllu í skaut hafsins. Í stað bjargar í bú, hefir vertíðin oft fært íslenskum heimilum lamandi sorg og vonlausan kvíða. En samt fjölgar þeim ávalt með hverju ári sem hafið heimtar, og sem helga sig nær eingöngu starfinu við það og strendur þess. Íslenska þjóðin skilur nú betur en nokkru sinni fyr, að farsæld lands og lýðs fer mikið eftir því, hvernig sjómannastéttinni farnast störf sín, enda er nú betur að henni búið en áður. Skipakostur sjómannanna hefir aldrei verið eins góður og öruggur sem nú. Eitt glæsilegasta mentasetur landsins er nú Sjómannaskólinn í Reykjavík, sem veitir fræðslu í öllum greinum sem að farmensku lúta. Slysavarnarfélag Íslands er nú eitt vinsælasta fyrirtæki á landinu, einskonar bróðurkeðja sem knýtt er meðfram öllum ströndum landsins, til að afstýra slysum, bjarga skipbrotsmönnum og líkna hrjáðum og hröktum vegfarendum hafsins. Árangurinn af þessum samtökum er þegar orðinn mikill og glæsilegur. Íslenska þjóðin skilur það glögt, að sjómannastéttin er herlið landsins, einskonar sambland af sjó og landher. Auk þess að halda uppi þjóðarbúskapnum, hefir þessi stétt aflað sér frábærs orðstírs, bæði utan lands og innan, fyrir hugrekki, hreysti og vaskleika.

Á dvalarári mínu á Suðurnesjum hafði eg gott tækifæri til að kynnast sjómannastétt landsins. Eg lærði að meta dugnað þeirra og ósérhlífni. Eg skil nú betur en áður að lífskjör sjómannsins eru oft mjög erfið og ávalt áhættusöm. Eg dáðist ekki síður að konum sjómannanna. Naumast get eg hugsað mér aðra stétt kvenna, sem til jafns við þær þarf á stöðuglyndi, bjartsýni og trúartrausti að halda, þegar menn þeirra og synir eru út á sjó langar og dimmar nætur, og oft í mjög tvísýnu veðri. Vissulega er það satt sem Kjartan Ólafsson kveður um Gömlu sjómannsekkjuna (Óskastundir, 1948):

"En sjómannskonan oft kvíða má,  
þá kveða stormar við úfinn sjá.  
Og heima hún bíður í bæn og þrá,  
um bölþungar óttans stundir."

Sandgerði er nú, og hefir lengi verið, ein helsta verstöð á Suðurnesjum. Þaðan eru gerðir út á hverjum vetri á milli 30 og 40 bátar, hver þeirra á milli 20 og 30 smálestir að stærð, og allir eru þeir búnir sterkum, kraftmiklum vélum. Á hvern bát eru ráðnir tólf menn; sjö á landi, og fimm á sjóinn. Hver bátur hefir um 35 bjóð, en svo eru stampar þeir kallaðir sem önglarnir eru í og færin. Það er lagt af stað í róðurinn kl. 12 að kvöldi, og komið aftur að landi eftir tuttugu klukkutíma útivist, ef alt gengur vel. Báturinn er affermdur í mesta flýti, fiskurinn afhausaður og slægður, og svo keyrður í bílum til frystihúsanna. Sjómennirnir sofa í mesta lagi þrjá klukkutíma á sólarhring, nema í landlegum. Þeir eru oft illa til reika, er í

land kemur. Yfirborðshrjúfir eru þeir oft og svarakaldir, en inni fyrir býr drenglyndi, kjarkur og karlmannslund, sem best nýtur sín er í mannraunir kemur. Þetta eru hermenn Íslands; dáðadrengir, sem daglega leggja líf sitt í hættu til að flytja þjóð sinni björg í búið. Heill sé þeim, heiður, og þökk allra Íslendinga austan hafs og vestan.

Seytjánda júlí í fyrra sumar hlustaði eg á Karlakór Reykjavíkur syngja nokkur lög á Arnarhóli í Reykjavík í viðurvist meiri mannfjölda en eg hefi nokkurs staðar annars séð saman kominn á einum stað. Söngurinn var frábær að styrkleika og blæfegurð. Meðal laganna var þula Ólafar Andrésdóttur með lagi Sigvalda Kaldalóns. Hún bergmálar enn í huga mér, reynsla mín og kynni af íslenskum sjómönnum gera mér hana ógleymanlega:

"Sæmd er hverri þjóð að eiga sægarpa enn,
Ekki er að spauga með þá útnesjamenn.
Gull að sækja í greipar þeim geigvæna mar
Ekki nema ofurmennum ætlandi var.
Sagt hefir það verið um Suðurnesjamenn:
Fast þeir sóttu sjóinn, og sækja hann enn."

---

# W. P. Ker

**Eftir Snæbjörn Jónsson**

Þegar mér barst eftirfarandi kvæði á síðastliðnu hausti, datt mér til hugar, að ekki ýkja margir lesendur Tímaritsins myndu kannast við W. P. Ker; og af því að eg hafði engin gögn handbær, sneri eg mér til vinar míns Dr. R. Beck, og sendi hann mér góðfúslega þessa greinargerð.

"Prófessor W. P. Ker er sannarlega "drápunnar verður" af hálfu vor Íslendinga, svo hugstæðar voru honum íslenskar fornbókmentir og merkileg rit hans um þær. Hann var Skoti, kaupmannssonur frá Glasgow, fæddur þar í borg 30. ágúst 1855 og stundaði þar bæði undirbúningsnám og háskólanám, en síðan framhaldsnám í Oxford. Árum saman var hann prófessor í enskum bókmentum við Lundúnaháskóla (University College) og einnig prófessor í fagurfræði (skáldskap) við Oxford-háskóla. Hann lést 17. júlí 1923.

Hann tók sérstöku ástfóstri við íslenskar fornbókmentir og túlkaði þær af miklum lærdómi og fágætri skarpskygni í hinu gagnmerka og víðkunna riti sínu **Epic and Romance,** er prentað hefir verið mörgum sinnum. Sama snild, um efnismeðferð og djúpan skilning, svipmerkir ritgerðir hans, eða öllu heldur fyrirlestra, um íslenskar fornbókmentir og íslenska menningarfrömuði, sem prentaðir eru í öðru bindi ritgerðasafns hans **Collected Essays** (1925). Hann var maður frábærlega víðmentaður og hafði verið margvíslegur sómi sýndur fyrir vísindamensku og fræðimannleg afrek. Meðal annars var hann heiðursfélagi í Hinu íslenska Bókmentafélagi."—Ritstj.

Skyldi engin íslensk tunga
ætla að mikla nafnið þitt?
Ertu gleymdur Íslands börnum,
eða mun það kannske hitt,
að þau hiki öll að vaða
eld, sem lykur hauginn þinn?
Sé það þannig, sýnast mætti
sæmst eg réði ei til þín inn.

Veit eg, það er mér um megn að
mæra nafn þitt eins og ber.
Það tókst ennþá engum manni,
allrasíst það hentar mér.
Er þó máske enn í gildi
orðið það, sem skáldið kvað:
Þar sem engill ekki þorði
óhikandi fíflið trað.

Óhikandi ei eg mæli
orð við þína sögu tengd,
en mér hvíslar ógleymd minning,
of ljós til að verði rengd:
Oft við borð þitt áður sat eg,
ei var háfleyg ræðan mín;
óuppfrædda Íslendingsins
orð þó smáði ei viskan þín.

Trúr í öllu, táli sneiddur,
talaðir aldrei hræsnismál;
trygðin þín var trölla meiri,
traustara aldrei hert var stál.
Liðs ef vinir þínir þurftu
það var heilu geði veitt,
og hvað höndin hægra gerði,
hin af því ei vissi neitt.

Myrkra-aldir öðrum fremur
andans bjarma lýstir þú.
Þar um djúpa dularheima
dagsins birta leikur nú.
Öldin forna, öldin nýja,
eitt og sama voru þér;
undan þínum undra-kyndli
allur flýði skuggans her.

Íslands sögu alla þektir,
eldri og nýrri tíðar jafnt,
og að líta á afrek þjóðar
öðrum fremur var ei tamt.
Hvað þú áttir hlýjan huga
hvenær sem að raun að bar;
samúð, þegar sorgin nísti,
sannari aldrei þinni var.

Þar sem leifturljós þíns anda
lýsti upp Íslands sagnaheim
opnuðust dyr á ótal fylgsnum
út í bjartan sólargeim.
Aldrei fyr sá enskur heimur
allar perlur Sögulands.
Þér skal Ísland þakka lengi
þína **Epic and Romance.**

Barnsins hjarta í brjósti spekings
betur enginn geymdi en þú;
gatst svo einlægt glaðst af smáu,
geymdir barnsins föstu trú
á hið fagra, á hið góða,
efalaus um sigur þess,
og því rétta og því sanna
ætíð valdir tignarsess.

Hvergi að verki hálfur gekstu,
hvergi bar það miðlungssvip.
Hvar sem fórstu um fræðahöfin
flestra meira var þitt skip.
Allar voru þér álfur kunnar,
allar tungur lutu þér.
Þó að stæðu þúsund saman,
þektu allir hvar stóð **Ker.**

Þótt um nafn þitt ljóma leggi,
ljósið alt er tíma háð,
og þótt höndin hög á steininn
höggvi letrið gulli fáð,
tíminn loksins öllu eyðir;
orðið síðsta skal þó mitt:
lengi, göfgi, góði vinur,
geymi Ísland nafnið þitt.

# Prófessor Kemp Malone sextugur

Eftir dr. Stefán Einarsson

---

I.

Hinn 14. mars 1949 á sextugsafmæli maður, sem fyrir margra sakir ætti það það skilið að vera miklu kunnari Íslendingum en hann er.

Maður þessi er Kemp Malone, prófessor í enskum fræðum við Johns Hopkins háskólann í Baltimore, Maryland.

Prófessor Kemp Malone hefir að vísu aldrei haft tækifæri til að kenna íslensku. En hann hefir skrifað einhverja hina nákvæmustu lýsingu, sem til er af íslenskum framburði, hann hefir lesið öll fornrit í bókum og greinum, sem því miður eru grafnar í fræðiritum bæði austan hafs og vestan.

Loks er það mjög honum að þakka, að sá sem þessar línur ritar, er nú prófessor í norrænum fræðum í Johns Hopkins háskólanum.



II.

Prófessor Kemp Malone er af gömlum og góðum ættum í Suðurríkjunum.

Faðir hans, John W. Malone, var fæddur 1856 í Atlanta, Georgia. — Hann var klassiskur málfræðingur og löngum rektor (President) í kvennaskólunum (Colleges) Grenada College, Grenada, Miss., Women's Missisippi, Women's College of Missisippi, Oxford, Missisippi og seinast í Andrew College í Cuthbert, Georgia. — Hann hafði stundað nám við Vanderbilt University, Nashville, Tennesee. — Hann dó 1930.

Faðir Johns W. Malones var Jeremiah Dumas Malone. Hann byrjaði líka sem skólakennari (College), en snöri sér síðan að verslun og gerðist kaupmaður í Atlanta, Georgia. Varð hann vel efnaður maður, en misti alt

sitt nema húsgrunnana, þegar Sherman herforingi Norðanmanna, lét brenna Atlanta til kaldra kola, eftir að borgarbúar höfðu gefist upp fyrir honum.

Malone ættin er írsk, og flutti Daniel Malone fyrstur sinna frænda vestur um um haf um miðja 17. öld. Það sem rak hann vestur var Cromwell uppreisnin á Englandi og Írlandi. Þegar Cromwell brautst til valda fluttu konunghollir þegnar Stúartanna til Virginia, er hélt trygð við konungsættina, þó að Ný-Englendingar snerust á sveif með uppreistarmönnum.

Á Írlandi er Malone-ættin talin afgömul og rekja þeir ættmenn kyn sitt til hinna elstu konunga af Connaught á Vestur-Írlandi. Sagan segir, að nafnið þýði "lærisveinn Jóns hins helga" (mal = lærisveinn, one = Jón) og hafi verið gefið þessum frændum, af því að þeir urðu jafnan sköllóttir, og minti skallinn á tónsúru þá, er hinir ísku lærisveinar hins helga Johannis rökuðu í krúnu sér. Ekki vill Malone þó ábyrgjast þessa upprunaskýringu nafnsins.

Langafi Jeremiah Dumas Malones, kaupmanns, var Jeremiah Dumas, franskur húgenotti frá Nimes. Hann kom fyrstur sinna ættingja til Virginia skömmu fyrir 1700, þegar Lúðvík fjórtándi gaf kaþólsku kirkjunni frjálsar hendur til að ofsækja prótestanta með því að nema úr lögum Nanteslagaboðið, sem hafði hlíft þeim.

Föður-móðir Kemp Malones var Mary Hale. Hún var frá Tennesee, en forfeður hennar höfðu numið land i Maryland á 17. öld. Þeir komu þangað frá Yorkshire á Englandi.

Móðir Kemp Malone, Lillian Kemp, var fædd 1867 í Kentucky og er enn á lífi við góða heilsu hjá dóttur sinni í New Orleans. Hún var dóttir Thomas Michael Kemp frá Kentucky; hann settist að í Mississippi eftir borgarastríðið í Bandaríkjunum. Hann var lögmaður og blaðamaður, ættaður frá Virginia, þar sem þeir frændum höfðu numið land snemma á 17. öld, og voru þá þegar vel metnir. Einn þeirra, Michael Kemp, afi Thomasar M. Kemps, var kvæntur Nancy Thornton, en hún var af hinni frægu ætt Washingtons. Þessir frændur komu upphaflega frá Kent á Englandi, enda er nafnið þar mjög algengt enn í dag.

Móður-móðir Kemp Malones var Elizabeth Raiford; hún var fædd í Mississippi og ól þar allan sinn aldur. Faðir hennar var Thomas Raiford; hann var fæddur í South Carolina, en fluttist ungur til Mississippi og efnaðist þar. Átti hann þar vænan búgarð (plantation) og hundrað þræla, og þótt hann biði hnekki eins og aðrir í borgarastríðinu, þá var hann alltaf sæmilega vel megandi.

Þeir Raiford frændur höfðu numið land á síðari hluta 17. aldar í Virginia og komu þá frá Bermuda-eyjum, en ættin var í öndverðu frá Devonshire á Englandi. Fyrstu landnemarnir á Bermuda-eyjum og í Virginia stöfuðu nafnið Wrayford; þeir voru kvekarar, en þeir þessara frænda, sem til South Carolina fluttust, týndu trú sinni og sömdu sig að siðum nágranna sinna.

III.

Kemp Malone var fæddur í Minter, Mississippi, elstur átta systkina, en sjö þeirra eru enn á lífi. Tveir yngri bræður hans lásu sögu og urðu doktorar í þeirri grein. Annar þeirra var Dumas Malone prófessor í sögu við Columbia

háskólann í New York, og útgefandi **Dictionary of American Biography** í 20 bindum (1929-31). Hinn var Miles Malone, kennari í sögu við Phillips Academy, Andover, Massachusetts.

Kemp Malone var þrettán ára, þegar foreldrar hans fluttust til Georgia. Þar ólst hann upp og gekk í skóla: Emory College í Atlanta, Georgia. Útskrifaðist hann þaðan (B.A.) 1907. Síðar miklu — 1936 — heiðraði þessi alma mater (þá EmoryUniversity) þenna lærða son sinn með því að gera hann að heiðursdoktor (Litt.D.)

Malone var átján ára, þegar hann útskrifaðist, en næstu fjögur árin kenndi hann stærðfræði í miðskólum (High Schools) í Georgia.

Árið 1911 var Malone skipaður sendikennari í ensku á Þýskalandi (Prússlandi). Var hann á vegum Carnegie Foundation og kenndi í tvö ár mælt mál enskt (samtal) í tveim þýskum menntaskólum (Real-Gymnasia), fyrst í Hinum konunglega Menntaskóla í Erfurt, Thuringen og síðara árið í Hinum konunglega endurbætta Menntaskóla í Elberfeld í Rínarlöndunum. Þessir menntaskólar kenndu eitt fornmál (latínu) og eitt nýmál (frönsku, eða, ef menn vildu heldur, ensku), og stóðu þannig mitt á milli klassisku mála skólanna og ný-málaskólanna.

Á Þýskalandi vaknaði áhugi Malones á forngermönsku mið-aldamálunum. Að vísu hafði hann lesið bæði fornensku og Chaucer í skóla, en það var ekki fyrr en nú, að hann fór að langa til að kynna sér forngermanskar tungur og bókmenntir og samanburðarmálfræði hinna indó-germönsku mála. Á Þýzkalandi keypti hann sér hina fornensku málfræði Sievers og las hana.

Þegar Malone kom vestur um haf 1913 réð hann af að fara á háskólann í Chicago og lesa þar ensku til doktorsprófs. Aðalkennari hans í enskum fræðum var John M. Manly, en hann las íslensku hjá Chester Nathan Gould og gotnesku, fornsaxnesku og fornháþýsku hjá F. A. Wood. Sanskrit, fornpersnesku og avesta-mál las hann hjá C. D. Buck. Hér urðu þá fyrstu kynni Malones af íslensku: las hann fyrsta ársfjórðunginn létt laust mál, þá las hann **Egilssögu** og um vorið **Eddu Sæmundar.**

Eftir ár í Chicago var Malone félaus orðinn, því stríðið milli Englendinga og Þjóðverja eyðilagði bómullar-markaðinn í Evrópu og þar með afkomuskilyrði manna í Suður-ríkjunum.

Gerðist Malone þá kennari í Culver, Indiana og kendi þar ensku næsta ár Þá sótti hann um Ottendorf Memorial ferðastyrkinn í New York háskóla og fékk hann. Með þann styrk fór hann til Danmerkur og var þar næsta ár við Háskólann í Kaupmannahöfn. Las þar forn-írsku hjá Holger Pedersen, og það eigi aðeins í venjulegum tímum, þrjár stundir á viku, heldur einnig í jólafríinu og langt fram á sumar — svo vel líkaði prófessornum við nemandann. Forna íslensku las hann hjá Finni Jónssyni (**Ólafssögu helga í Heimskring,** vísur í **Gunnlaugs sögu),** en nýja málið hjá Valtý Guðmundssyni. Auk þess lærði hann dönsku af sjálfum sér og hefur hún komið honum að góðu haldi síðan sem lykill að norðurlandamálunum.

Haustið 1916 snöri hann vestur á bóginn og gerðist þá kennari í Þýsku við Cornell University, þar sem hann kynntist Halldóri Hermannssyni bókaverði.

Malone var í Cornell fram í apríl 1917. Þá voru Bandaríkin komin í stríð við Þjóðverja og gekk Malone í herinn. Var hann fyrst sendur í herforingja-skóla (Officers Training Camp) í New York, og eftir þriggja mánaða þjálfun var hann gerður að fyrsta liðsforingja (1st. Lieutenant) í landhernum. Ári síðar varð hann kapteinn í hernum í Frakklandi.

Að stríðinu loknu — í febrúar 1919 — fékk Malone lausn frá herþjónustu og fór þá aftur til Chicago til að ljúka doktorsprófi. Varð hann doktor í ágústmánuði 1919 fyrir ritgerð er nefndist "Studies in English Phonology", og prentuð var í **Modern Philology** XX., og XXIII. 1923 og 26.

### IV.

Vorið 1919 sótti Malone um ferðastyrk af American Scandinavian Foundation til að fara til Íslands. Hann fékk styrkinn og náði í Gullfoss í New York degi áður en að hann átti að fá doktors diploma sitt í Chicago. Eftir tíu tólf daga ferð var Gullfoss kominn til Reykjavíkur, en þá voru svo mikil húsnæðisvandræði í bænum, að Malone fékk sig hvergi inni. Eftir tíu daga dvöl á hóteli í Reykjavík komst hann loks í samband við Eirík Einarsson alþingismann og bankastjóra á Selfossi, sem bauðst til að taka hann til sín. Hugði Malone gott til að fara í sveitina, en þetta gat ekki orðið þá þegar vegna þess, að þá var enn verið að byggja Útibú Íslandsbanka á Selfossi og Eiríkur bjóst til að búa í hinu nýja húsi. Varð það þá úr, að Eiríkur kom Malone fyrir niðri í Kaldaðarnesi hjá Sigurði Ólafssyni, fyrrverandi sýslumanni, og fjölskyldu hans. Þar sat Malone tvo mánuði í góðu yfirlæti og tók nú fyrir alvöru að bera sig eftir íslenskunni. Þegar hann kom, hafði hann talað dönsku aðeins.

Eftir tvo mánuði í Kaldaðarnesi var húsið á Selfossi tilbúið, fór Malone þá þangað og var þar fram í febrúar 1920. Á Selfossi bjó líka aðstoðarmaður Eiríks við bankann, Guðmundur Guðmundsson, með konu sinni, sem var húsfreyja staðarins, dóttur Eyfuru, og föður sínum séra Guðmundi Helgasyni, einhverjum hinum lærðasta manni, sem Malone hitti á Íslandi. Kveðst Malone líklega hafa lært meira af honum en nokkrum öðrum manni á Íslandi, enda fór honum nú óðum fram að lesa og tala málið. Las hann meðal annars Íslendinga sögurnar meðan hann var þar, og þegar hann fór þaðan hafði hann týnt niður dönskunni í svip og talaði eingöngu íslensku.

Í febrúar fóru þeir Eiríkur og Malone ríðandi til Reykjavíkur, þriggja daga ferð. Nú fór Malone að lesa íslensku við háskólann, tók alla tíma hjá Nordal, sem hann gat. En húsnæðisleysið var enn samt við sig, og setti Nordal þá áskorun í blöðin til að reyna að fá menn til að hýsa þennan ameríku fræðimann. Bar þetta þann árangur, að Pétur Hjaltesteð á Sunnuhvoli, sem þá var góðan spotta innan við bæ nálægt Laugavegi, tók hann upp á sína arma, og lét hann hafa herbergi hjá sér. Þar bjó Malone fram í júlí 1920, þegar hann hvarf alfarinn af Íslandi.

Auk tímanna í háskólanum vildi Malone nú fara að vinna að lýsingu þeirri á hljóðfræði íslenskrar tungu, sem hann hafði ætlað sér að safna til meðan hann væri á Íslandi. Vísaði Nordal honum á þann sem þetta skrif-

ar, til að hjálpa honum, vegna þess, að eg hafði lagt sérstaka stund á íslenska hljóðfræði, og var þá að vinna að hljóðritun í hinni miklu orðabók Sigfúsar Blöndals hjá Jóni Ófeigssyni. Kynntist Malone Jóni, lærði mikið af honum og fannst mikið til um lærdóm hans, dug og ósérhlífni.

En verkið við hina íslensku hljóðfræði Malones fór þannig fram, að hann valdi kafla úr **Pilti og stúlku** eftir Jón Thoroddsen og lét mig lesa, hvað eftir annað, og skrifaði um leið upp framburðinn samkvæmt mjög yfirgripsmiklu kerfi, er hann hafði sjálfur samið sér í líkingu við hið stafrofslausa kerfi Jespersens, en miklum mun nákvæmara. Bókina gaf hann síðar út undir nafninu **The Phonology of Modern Icelandic** (New York University, Ottendorfer Memorial Series of Germanic Monographs No. 15, Menasha, Wisc., 1923). Er bókin í þrem köflum: fyrst nákvæm lýsing á kerfinu og táknum þess, þá íslenski textinn með hljóðritun, og loks athugasemdir við íslenska textann. Mun ekki ofsagt, að þetta sé hin nákvæmasta lýsing á framburði, sem nokkur maður hefir reynt að gera með beru eyra, og er þá mikið sagt. En svo nákvæm sem lýsingin er, þá munu ekki margar villur verða fundnar í bókinni og er slíkt aðdáunarvert, þar sem Malone varð að ljúka henni vestan hafs, án þess að geta leiðrétt það sem aflaga kynni að fara. En hinn mikli kostur kerfisins; nákvæmni þess, er um leið hinn mesti ókostur þess, því það er svo flókið, að mjög fáir hafa reynt að lesa bókina ofan í kjölinn, og á hún það þó fyllilega skilið.

Annað viðfangsefni hafði Malone á bak við eyrað meðan hann var á Íslandi, en það var að finna út, að hve miklu leyti forn-íslenskur skáldskapur (dróttkvæði) og íslenskar fornsögur bæru þess merki að hafa orðið fyrir írskum áhrifum (eins og Bugge og Heusler höfðu talið). Las hann í þessu skyni eigi aðeins Íslendingasögur heldur líka fornaldarsögurnar og komst að þeirri niðurstöðu (eins og Finnur Jónsson) að ekki væri hægt að sjá nein ótvíræð merki írskra áhrifa. Man eg, að hann sat oft við fornaldarsögu uppi á Landsbókasafni, og þar kynntist hann Guðmundi Finnbogasyni, landsbókaverði.

## V.

Í júlí 1920 var lokið veru Malones á Íslandi. Fór hann þá til Princeton og var þar árið 1920 — 21 með styrk til rannsókna. Þar skrifaði hann um veru sína á Íslandi "Political and Social Tendencies in Iceland" fyrir **American Scandinavian Review** 1922.* En fyrst og fremst sökkti hann sér niður í samanburð á **Hervararsögu, Beowulf** og **Wídsíþ** á annan bóginn en sögu Hamlets í Saxo Grammaticus á hinn, og upp úr þessum rannsóknum skrifaði hann bókina **The Literary History of Hamlet I. The Early Tradition.** (Heidelberg 1923). En í þessari lærðu og merkilegu bók reynir hann líka að leggja grundvöll að forngermanskri sagn-sögu yfirleitt.

Um sumarið var honum boðin aðstoðar-prófessors-staða í ensku við Minnesota-háskólann í Minneapolis.

---

* Þetta mun vera eina greinin, sem Malone hefir birt á prenti um Ísland. En hann hefir þó nokkrum sinnum haldið fyrirlestra um Ísland; meðal annars fyrir hermennina, sem til Íslands fóru frá Maryland. Auk þess flutti hann einu sinni erindi um Íslendingasögur fyrir PBK (fí beta kappa) bræðralagið í Tulane University, New Orleans, Louisiana.

Þar var hann þrjú ár (1921-4). Þar kynntist hann hinum ágætu miðaldafræðingum, prófessor Frederick Klaeber, útgefanda **Beowulfs,** og Martin S. Ruud. Á þessum árum kenndi Malone helst miðensku, Shakespeare og Milton.

Haustið 1924 kom Malone sem fyrirlesari (Lecturer) til Johns Hopkins Háskólans í Baltimore. Hafði hann verið kvaddur þangað til þess að taka við kennslu í fornenskum og miðenskum fræðum eftir James W. Bright sem um langa hríð hafði verið þar prófessor, annar í röðinni frá stofnun skólans 1876. En þessi skóli var frægur í amerískri skólasögu, eigi aðeins vegna læknadeildar sinnar, sem bar hróður hans út um víðan heim, heldur líka vegna þess að stofnendur hans höfðu innleitt strangara vísindanám eftir þýskri fyrirmynd, sem miðaði að því fyrst og fremst að gera doktorsefnin að fræðimönnum og varð því að gefa prófessorum sínum meiri tíma til rannsókna en flestir aðrir skólar. Liður í þessari starfsemi voru hin lærðu tímarit skólans og bókaútgáfa hans, (J. H. Press), hin fyrsta meðal amerískra háskóla.

Það var því ekki lítill heiður, sem Malone var sýndur, er hann var kosinn til að halda í horfinu vísindaiðkunum í hinni ensku deild háskólans, en hann reyndist því fyllilega vaxinn. Næsta ár var hann gerður að Associate Professor og 1926 að Professor af English Philology (í enskum fræðum), og hefur hann haldið því starfi síðan. En hann mun hafa ritað meira en báðir fyrirrennarar hans samanlagt, og miklu vinsælli kennari hefir hann verið en Bright var.

Í Baltimore kynntist hann Inez René, dóttur J. Henry Chatain frá Richmond, Virginia, af franskri húgenotta-ætt. Kvæntist hann henni 28. apríl 1927, og fóru þau hjónin í brúðkaupsferð til London um sumarið. Sat Malone þá sex mánuði í British Museum og orðtók tvö rit fyrir fornírska orðabók, er út kom nokkrum árum síðar (Hessen's **Irish Lexicon,** Halle 1933).

Sama sumarið bauð Malone mér að koma vestur sem styrkþega (Research Fellow) til John Hopkins háskólans, og átti eg, meðal annars að kenna íslensku. Þegar eg kom vestur haustið 1927 átti háskólinn heldur lítið af íslenskum og norrænum bókum eða fræðiritum um þau efni, en Malone vildi ekkert til spara að gera bókasafnið úr garði og gaf hann jafnvel, árið 1928—29 500.00 dollara úr eigin vasa til þess að fylla í skarðið. Marga íslenska bók hefir hann þó gefið safninu síðan, enda var hann þess hvetjandi að safnið keypti safn Nikulásar Ottensons í Winnipeg mörgum árum síðar.

En fyrir bragðið er safnið nú orðið með bestu söfnum í norrænum fræðum, hér vestan hafs, þegar hin miklu söfn í Cornell og Harvard eru undan skilin.

Sumarið 1927 mun hafa verið hið fyrsta, sem Malone eyddi í British Museum, en ekki hið síðasta, því hann hefir setið þar alls sex eða sjö sumur. Hafi stríð eða dýrtíð ekki hindrað, hefir hann, eins og Halldór Hermannsson, farið til Evrópu á hverju sumri, venjulega til Englands, en stundum til annara landa. Þannig fór hann sumarið 1936 til Kaupmannahafnar sem fulltrúi Bandaríkjastjórnar á fjórða alþjóðaþing málvísindamanna og 1939 var hann forseti amerísku sendisveitarinnar á fimmta alþjóðaþingi málvís-

indamanna í Brussel í Belgíu, en það þing var rofið þegar styrjöldin skall á í ágúst 1939.

Síðan hefir hann ekki komið til Evrópu þar til í sumar (1948) að hann ætlar til Danmerkur til þess að vinna að mikilli útgáfu á Saxo Grammaticus (sjá síðar) og til þess að sjá um ljósprentaða útgáfu af Thorkelin handritunum af **Beowulf.**

VI.

Mjög hefir Malone verið riðinn við útgáfu lærðra tímarita í Bandaríkjunum. Þannig stofnaði hann 1925 með Louise Pound tímaritið **American Speech,** sem er eina tímaritið á því sviði í Bandaríkjunum, var hann aðalritstjóri þess 1925 — 32. Hann var líka einn af stofnandi meðlimum Málvísindafélagsins ameríska (Linguistic Society of America 1925-). Þá hefir hann verið ritstjóri tímaritsins **Hesperia. Erganzungsreihe** (1930-), sem gefur út ritgerðir um enska tungu og bókmenntir. Árið 1929 gaf hann út afmælisrit til heiðurs Fr. Klaeber, félaga sínum í Minnesota (**Studies in English Philology in Honor of Fr. Klaeber,** 1929). Sama ár gerðist hann meðritstjóri að **Modern Language Notes,** og 1935 varð hann meðritstjóri **American Journal of Philology,** en bæði þessi tímarit eru gefin út af Johns Hopkins háskólanum (J. H. Press). Af öðrum merkum tímaritum, sem Malone hefir haft hönd í bagga með má nefna **Speculum** og **Anglia** (nú eftir stríðið).

Auk þess hefir hann verið í útgáfunefndum ýmsra annara ritfyrirtækja, en þar af eru merkust Miðenska orðabókin, sem nú er unnið að í Ann Arbor, Michigan, og Linguistic Atlas of America, sem út kemur á vegum Málvísindafélagsins ameríska.

Þessutan er Malone félagi í fjöldamörgum bókmenntafélögum vestan hafs og austan (sjá **Who is Who in America**), en hér skulu aðeins þau talin, sem að einhverju leyti snerta Ísland eða Norðurlönd: American Scandinavian Foundation, Society for Advancement of Scandinavian Studies (varaforseti 1923 — 24), Sögufélag Íslands, Hið íslenska bókmenntafélag (heiðursfélagi 1937), Vereinigung der Islandfreunde á Þýskalandi og Viking Society á Englandi.

Auk þeirra bóka sem þegar hafa verið taldar hefur Malone frumsamið eða gefið út þessar bækur: **Deor** 1933 (2.útg. 1935), **Widsith** 1936, **Dodo and the Camel** 1938, **Ten Old English Poems** 1941, þriðja og fjórða bindi af **Centennial Edition of Sidney Lanier** 1945 og **The Old English Period** (to 1100) í **A Literary History of English,** edited by Albert C. Baugh 1948.

**Deor** og **Widsith** eru útgáfur á mjög merkum kvæðum fornenskum, og má segja, að Malone taki þau engum lausatökum. Má geta þess til að gefa hugmynd um þetta, að kvæðið **Widsith** er 143 línur og myndi taka rúmar þrjár blaðsíður í útgáfu hans, en bókin öll er 202 bls. og kom útgefandinn þó ekki öllu þar fyrir sem hann vildi sakir rúmskorts! En ástæðan til þess er sú, að uppistaðan í kvæðinu eru þrjár afarfornar þulur, konunga-, þjóða- og kappa-töl, er byrja á Atla og Jörmunreki (c. 375) og enda á Eadwine (Auðuni) sem dó 565, og má segja að þessar þulur rúmi öll þau nöfn, er menn hafa hugmynd um að fræg hafi verið í söngvum og sögum Germana (og það ekki síður Skanínava) á þessu tímabili.

Því er það ekki að undra að fræðimenn hafa frá öndverðu beitt öllum lífs og sálarkröftum til þess að reyna að kasta ljósi á þessi nöfn, — og nöfnin í **Deor** og **Beowulf** sem eru nátengd þessum nöfnum í **Widsith.** Hinn frægi fræðimaður R. W. Chambers í Lundúnum, skrifaði tvær gríðarstórar bækur, aðra um **Beowulf,** hina um **Widsith.** En síðan hann leið er Malone tvímælalaust bestur fræðimaður á þessu sviði, eins og þessi nýja útgáfa hans á **Widsith** sýndi, og eins og koma mun í ljós, þegar hann fær lokið hinni miklu **Variorum Edition of Beowulf,** sem hann hefir unnið að um mörg ár.

Hver sem lesið hefir þessar sprenglærðu bækur Malones, mundi tæplega látið sér til hugar koma að **Dodo and the Camel,** dýrasaga í léttu ljóðformi væri eftir hann, og að vísu er hún það ekki að öllu leyti, því hún er stæld og staðfærð eftir ljóðsögu eftir vin Malones, Gudmund Schutte, danskan fræðimann sem hefir annars helgað sig hinum forngermönsku fræðum alveg eins og Malone. Svo þetta er leikur þeirra fræðimannanna. En annars er Malone ágætlega skáldmæltur og yrkir mjög sonnettur, m. a. á jólum hverjum til að senda vinum sínum. Hygg eg að Þorsteinn Þ. Þorsteinsson hafi snúið einni jólasonnettu Malones og prentað í "Sögu". En Malone hefir líka snúið nýjárssálmi Matthíasar Jochumssonar á ensku ("New Year's Hymn" **American Scandinavian Review** XIX, 1931, 23) og er það ein sú besta þýðing sem eg hef séð á kvæði úr íslensku, enda tók Beck hana upp í **Icelandic Poems and Stories,** 1934.

**Tíu fornesku kvæðin** eru þýdd undir stuðluðu fornyrðislagi frumkvæðanna. Annars eiga þessi kvæði að koma síðar í upphafi sýnisbókar enskra bókmennta, sem ensku-deildin í Johns Hopkins háskóla er að búa undir prentun.

**The Centennial Edition of Sydney Lanier** er aldarminningar útgáfa rita hins merka suðræna skálds, sem líka var á sínum tíma kennari við Johns Hopkins háskólann. Aðalritstjóri verksins var Charles Anderson, prófessor í amerískum bókmenntum hér við háskólann, en Malone gaf út þriðja og fjórða bindið, annað þeirra með öðrum manni.

Þá er loks fornenska bókmenntasagan, í hinni ágætu nýju **Bókmenntasögu Englands,** sem A. C. Baugh hefir gefið út. Fornensk bókmenntasaga, einkum saga kvæðanna, er allt annað en auðveld viðfangs, svo lítið sem vitað er með vissu um kvæðin og höfunda þeirra. En þetta þrjóska efni hefir Malone agað svo, að manni finnst allt í náttúrlegri röð og reglu. Byrjar Malone á því að skýra frá uppruna enskrar þjóðar og enskrar tungu, þá skrifar hann kapítula um latneskar bókmenntir Engil-saxa. Kvæðunum skiftir hann í tvennt: kvæði um forn efni og kvæði um kristin efni. Byrjar hann á því að skýra form þeirra, fornyrðislagið, og stíl þeirra, og hefir hann hér mjög merkar athuganir um uppruna og þróun þessa ljóðforms, hyggur hann að þær ljóðlínur eða vísuorð séu elst, sem rúma setningu í ljóðlínu, en hitt sé merki yngra forms, þegar setningarnar teygjast gegnum margar línur, og einkum þegar endi setningar fer að koma í miðri línu heldur en í enda hennar. Kvæðum um forn efni skiftir hann í alþýðukveðskap og hirðskáldskap, koma t. d. galdraljóð í fyrra flokkinn en kvæði eins og**Widsith** og **Deor** í

hinn síðara. Kristnu kvæðunum skiftir hann í þrjá kafla: Cædmon og skóla hans, Cynewulf og skóla hans og önnur kristin kvæði. Þá skrifar hann kapítula um veraldleg kvæði eins og **Beowulf** og loks ræðir hann í síðasta kapítulanum um rit í lausu máli, bækur Alfreds og Ælfrics, o. s. frv. Öll er bókin prýðilega skrifuð, og af slíkum lærdómi, sem fáir munu nú ráða yfir slíkum. En sagan er ekki aðeins merk nýjung í enskum fræðum, hún er líka merkur þáttur í inngangsfræðum þeim, er Íslendingar ættu að hafa að bókmenntum sínum, ef vel væri.

## VII.

Ekki þarf annað en líta á bækur Malones, þær sem nú hafa verið taldar til að sjá hve fjölhæfur hann er, en það kemur þó enn betur í ljós, ef litið er á ritgerðir hans. Árið 1931 tók hann saman skrá um rit sín og skifti þeim eftir efni. Kom þá í ljós að hann hafði skrifað ritgerðir um Hamlet-sagnir og um uppruna nafnsins Hamlet-Amlóði, — ritgerðir um Arthurs-sagnir og keltnesku efni — ritgerðir um forngermanskar sagnir og ljóð — ritgerðir um fornenskan og norrænan skáldskap — ritgerðir um bækur Alfreds hins mikla Englakonungs — ritgerðir um tungumál og málvísindi — ritgerðir um tækniorð — ritgerðir um amerísk efni — ritgerðir um ýmisleg efni — og kvæði.

Það sem Íslendingum kemur við af þessum ritgerðum hans eru fyrst og fremst ritgerðir hans um forngermanskar sagnir og ritgerðir hans um fornensk og fornnorræn kvæði. Yrði að vísu of langt upp að telja þær hér — þær munu vera um hundrað að tölu — en þó hef eg tekið saman skrá yfir greinar þær, er sérstaklega snerta íslensk-norræn efni og eru þar þó ekki uppteknar greinar sem eingöngu snerta Saxo hinn danska, en þær eru þó nokkrar, enda hefir hið danska bókmenntafélag (Det danske Sprog- og Literaturselskab) ráðið Malone að samverkamanni til þess að vinna að skýringum í hinni miklu útgáfu af Saxo, sem félagið hefir á prjónunum. Er Malone eini samverkamaðurinn utan Norðurlanda.

En það einkennir allar greinar Malones, að hann dregur sem víðast nót að heimildum sínum og ber þær síðan saman svo nákvæmlega, sem kostur er á, og reynir að skýra fyrir sér og öðrum hvernig skyldleika þeirra geti verið varið — ef hann hyggur að um skyldleika sé að ræða.

Lítur hann venjulega svo á, að sagnir þær, sem drepið er á í **Widsith** og **Beowulf** muni standa næst sögulegum sannleika, eins og við er að búast, þar sem þær verða að vera frá 7. öld eða eldri, en sagnir í Saxo hinum danska og fornaldarsögum eru ekki eldri en svo sem frá 11. — 13. öld. Eigi að síður kasta þessar yngri sagnir oft skíru ljósi á nöfnin í **Widsith** og **Beowulf**, af því að of oft eru þau tæplega annað en nöfnin tóm, og hin yngri rit gefa þá fyrst einhverja hugmynd um hvað bak við þau kann að leynast af sögnum og sögu.

Auðséð er, að það er ekki á neins meðalmanns færi að hreyfa sig innan um þenna myrkvið hinna fornu sagna — á knúsaðri miðalda-latínu, íslensku og öðrum forngermönskum málum — án þess að festa fót og falla á sjálfs síns bragði. En það er eigi aðeins undravert, hve mikið Malone verður úr því litla, sem mönnum er kunnugt um á

þessum myrku sviðum, — og má þar til nefna grein hans um "Agelmund og Lamicho", sem snertir "Helgakviðurnar" í **Eddu** — heldur líka hitt, hve fádæma fundvís hann er á þá hluti, sem öðrum hefir með öllu sést yfir — og má nefna til þess grein hans um "Mæðhild" þar sem hann finnur hliðstæður hinna ókunnu hjúa, Mæðhild og Geat, í **Deor** í íslensku fornkvæðunum "Gauta kvæði" og "Kvæði af Gauta og Magnhildi."

En Malone er eigi aðeins óvenjulega fjölhæfur lærdómsmaður, hann er líka með afbrigðum skarpur maður að hverju sem hann beitir athygli sinni og hefir með fádæmum frjótt ímyndunarafl. Skarpleikur hans minnir mig á B. M. Ólsen og Hugo Pipping, svo að tekið sé dæmi af norrænum fræðimönnum. Ímyndunarafl hans lýsir sér í því hve djarflega hann tengir saman og raðar í mótsagnalaust kerfi hinum fáu og dreifðu staðreyndum í hinum forngermanska sagnaheimi. Það lýsir sér eigi síður í gjörhygli hans, er hann rýnir í málfræðileg efni, hvort sem viðfangsefnið er hljóðfræði, hljóðkerfisfræði, eða setningafræði. Frumleikur hans kemur allsstaðar í ljós og lýsir sér í óvæntum samböndum, í nýjum kerfum og í nýyrðum — en allt þetta gerir greinar hans stundum allt annað en auðveldar aflestrar. En það er með þær eins og **Sturlungu,** að sá sem venur sig á að lesa, hittir í þeim marga **matarholuna.**

Malone átti því láni að fagna á yngri árum að geta gefið sig allan við rannsóknum og ritstörfum. Tel eg lítinn vafa á því að svo hafi hann unað best hag sínum, og því hefir hann haldið tryggð við Johns Hopkins háskólann, að þar er prófessorum ætlaður óvenjumikill tími til ritstarfa í samanburði við aðra skóla.

Eigi má þó skilja þessi orð mín svo, að hann hafi ekki haft gaman af að kenna: það hefir hann alltaf haft, enda hefir hann verið ástsæll af nemendum sínum fyrir sína góðu kennarakosti. Fáir munu gleyma því, ef þeir hafa lesið Chaucer hjá honum. Og enn færri munu geta gleymt handleiðslu hans, þeir sem tekið hafa doktorspróf hjá honum, eða umhyggju hans fyrir hag þeirra eftir að þeir eru flognir úr hreiðrinu.

Á síðari árum hafa borið að honum ýms trúnaðar og ábyrgðarstörf, þótt hér verði þau ekki talin. Þannig hefir hann verið forseti (Head of) ensku deildarinnar um allmörg ár, unnið allskonar nefndarstörf og tekið á annan hátt virkan þátt í stjórn skólans. En þótt mig gruni að Malone hefði heldur kosið að helga sig rannsóknum eingöngu, þá veit eg að hann hefir leyst þessi störf af hendi með sama röskleik og sömu trúmennsku og fræðastörfin.

Auk þess sem nú hefir verið talið má rétt aðeins minnast á, að Malone hefir tekið eigi óvirkan þátt í félagslífi í Baltimore — og þau hjón bæði, því þau eru vel metin og virt af öllum. Sérstaklega hafa þau stutt hið fjölbreytta músíklíf borgarinnar og munu þau vera stöðugir gestir í hinum stóra hljómleikasal bæjarins. Er hér um fornar ástir að ræða af hálfu Malones, því hann lærði á fiðlu á æskuárum sínum.

Á stríðsárunum beittu þau hjónin áhrifum sínum mjög mikið til stuðnings Englandi og bandamönnum þess. Veit eg þó eigi, að neinar opinberar þakkir hafi borist handan um hafið, nema frá Danmörku, því 1946 sæmdu

Danir Malone Kong Christian den Xndes Friheds Medal. En í haust þegar Malone kemur heim frá Danmörku er hann ráðinn til að halda fyrirlestra í Lundúnum, Oxford og Cambridge og víðar. Munu Englendingar þá hafa tækifæri til að votta honum þakkir sínar.



## RITGERÐIR EFTIR KEMP MALONE

**sem nota og skýra forn-norræn rit**

King Aun in the Rök Inscription. Modern Language Notes XXXIX, 1924, 223-6 Ynglingasaga.

Widsith and the Hervararsaga. PMLA XL, 1925, 769-813, Hervararsaga, Ásmundar saga kappabana, Hyndluljóð, Sörlaþáttr, Þorsteins saga bæjarmagns, Ynglingasaga (Ynglingatal), Skáldskaparmál, Hrólfs saga Gautrekssonar.

Agelmund and Lamicho. American Journal of Philology XLVII, 1926, 319-46, Helgakviða Hundingsbana I og II, Helgakviða Hjörvarðssonar, Frá dauða Sinfjötla, Sörlaþáttr Skáldskaparmál, Sögubrot af fornkonungum, Ynglingasaga.

Danes and Half-Danes. Arkiv för nordisk filologi XLII, 1926, 234-40, Gróttasöngr, Skjöldungasaga, Sögubrot af fornkonungum.

Etymologies for Hamlet. Review of English Studies III, 1927, 257-71, Vísa Snæbjarnar í Snorra Eddu.

Hrethric. PMLA XLII, 1927, 268-313, Langfeðgatal, Frá Fornjóti, Bjarkarímur, Skjöldungasaga (Arngr.), Hrólfs saga kraka, Hyndluljóð, Sögubrot af fornkonungum, Njála, Gróttasöngr. Ynglingasaga.

The Daughter of Healfdane. Studies in English Philology in Honor of Frederick Klaeber. 1929, 135-58, Skjöldungasaga (Arngr.). Bjarkarímur, Hrólfs saga kraka, Ynglinga saga, Sögubrot af fornkonungum, Gróttasöngr, Völsungasaga.

Note on Gróttasöngr. Acta Philologica Scandinavica IV, 1929, 270.

A Note on Beowulf 2928 and 2932. Philological Quarterly VIII, 1929, 406-7, Ynglingasaga.

Ingeld. Modern Philology XXVII, 1930, 257-76, Ynglingasaga, Skjöldungasaga (Arngr.). Bjarkarímur, Hrólfs saga kraka.

The Date of Ohthere's Voyage to Hæthum. Modern Language Review XXV, 1930, 78-81, Heimskringla.

Hlithe and Hlöðr. Acta Philologica Scandinavica VI, 1931, 328-31, Hervararsaga.

Two Notes on Widsith. Modern Language Notes XLVII, 1932, 367-71, Ynglingatal Háleygjatal (Ömð).

On King Alfred's Geographical Treatise. Speculum VIII, 1933, 67-78, Hervararsaga.

The Suffix of Appurtenance in Widsith. Modern Language Review XXVIII, 1933, 315-26, Helgakviða Hundingsbana.

Aki Örlungatrausti. Saga-Book of the Viking Society XI, i, 1934, 26-9, Þiðrekssaga.

The Theodoric of the Rök Inscription. Acta philologica Scandinavica IX, 1934, 76-78 Heimskringla (=Theodoric the Frank).

Secca and Becca. Studia Germanica tillegnade E. A. Kokc 1934, 26-51, Becca er ekki Bikki í Snorra Eddu.

Healfdene. Englische Studien LXX, 1935, 74-76 Gróttasöngr, Skjöldungasaga (Arngr.).

The Alliterative Pattern abba in the Þulur. Saga-Book of the Viking Society XI, iii, 1936, 250-2, Vísur í Hervararsögu og Örvar-Oddssögu.

Mæðhild. ELH III, 1936, 253-6, Gauta kvæði, Kvæði af Gauta og Magnhildi.

The Burning of Heorot. Review of English Studies XIII, 1937, 462-3, Bjarkarímur.

The Tale of Geat and Mæðhild. English Studies XIX, 1937, 193-99, sjá Mæðhild.

Old English Cáre, Cáser, Cásere. Anglia Beiblatt XLVIII, 1937, 221-2, Hervararsaga.

Hygelac. English Studies XXI, 1939, 108-119 Ynglingasaga, Hervararsaga.

Humblus and Lotherus. Acta philologica Scandinavica XIII, 1929, 201-14, Hrólfs saga kraka, Hervararsaga, Þorsteins saga bæjarmagns, Sörlaþáttr.

Swerting. Germanic Review XIV, 1939, 235-57 Skjöldungasaga (Arngr.), Ynglingasaga Skáldskaparmál, Hynduljóð, Frá Fornjóti.

Hagbard and Ingeld. Essays and Studies for Carleton Brown 1940, 1-22, Völsungasaga.

Grundtvig as Beowulf Critic. Review of English Studies XVII, 1941, 129-38, Vöslungasaga.

On Deor 14—17. Modern Philology XL, 1942, 1-18, sjá Mæðhild.

Auður Gullbrá and Skeggi. Scandinavian Studies to G. T. Flom 1942, 56-65. Íslenskar þjóðsögur.

Thorkelin's Transcripts of Beowulf. Studia Neophilologica XIV, 1942, 202-9, Grímur Thorkelin.

Ubbo Fresicus at Brávellir. Classica et Mediaevalia VIII, 1946, 116-20, Sögubrot af fornkonungum.

Hrungnir. Arkiv för nordisk filologi LXI, 1946, 284-5 (uppruni).

---

# Litla stúlkan

Þau sitja hrygg, og horfa út í bláinn,
og halda að eg sá dáin.

*

En inn um gluggann glaðar raddir óma,
og gróðrar angan, smáfugls vængjablak;
og fjarri heyrist fyrsta lóukvak
í fögrum samleik vorsins gígju hljóma.

Æ, eg er þreytt á þessu litla rúmi,
á þessum höfga, sorg og kvalaróm.
Mig langar út í sólskin, söng og blóm.
Eg sé ei lengur til í þessu húmi.

Ó, verið sæl! Eg veit þið skynjið eigi.
Eg varpa líni og hljóðlát stíg af sæng.
Nú finn eg mér er lyft á léttum væng;
svo líð eg upp mót sól og glöðum degi.

*

Þau hryggjast enn og horfa út í bláinn,
og halda, að eg sé dáin.

G. J.

# Dr. Richard Beck Prófessor

Eftir Dr. Sig. Júl. Jóhannesson

I.

Dr. Richard Beck hefir miðlað "Þjóðræknisfélaginu" svo miklu af starfstíma sínum, látið það njóta svo mikils af kröftum sínum og hæfileikum og auðgað Tímarit þess með svo mörgum og merkum skrifum, að það á vel við að minnast þess, sem hann hefir þegar gert, með von um það að hann endist lengi til áframhalds sömu störfum.



Hann er fæddur 9. júní 1897 að Svínaskálastekk í Reyðarfirði. Foreldrar hans voru þau: Hans K. Beck bóndi í Litlu-Breiðuvík og kona hans Vigfúsína Vigfúsdóttir. Föður sinn misti hann þegar hann var 10 ára gamall, en móðir hans er enn á lífi, nálega áttræð og á heima í Winnipeg. Jóhann Þorvaldur Beck, forstjóri Columbia prentsmiðjunnar, þar sem Lögberg er gefið út, er bróðir dr. Becks.

Árið 1921 flutti hann til Vesturheims með móður sína og staðnæmdist um hríð í Winnipeg, því þar voru mörg skyldmenni hans. Þetta var um haustið, en um veturinn kendi hann íslensku fyrir "Þjóðræknisfélagið".

Mentaferill dr. Becks á Íslandi hafði verið glæsilegur. Hann lærði undir skóla hjá Sigurði Vigfússyni móðurbróður sínum, sem var mikill fræðimaður og annálaður kennari. Dr. Beck lauk gagnfræðaprófi á Akureyri 1918 með ágætis einkunn, gekk þá í fjórða bekk Mentaskólans og tók próf upp úr þeim bekk um vorið. Næsta ár las hann utanskóla fimta og sjötta bekk til samans og útskrifaðist af Mentaskólanum vorið 1920 með hárri einkunn.

Þegar hingað kom lét hann ekki staðar numið við námið. Hann byrjaði framhaldsnám 1922 við Cornell háskólann í Íþöku í New York og las þar ensk og norræn fræði. Mun það hafa verið tvent sem sérstaklega dró hann þangað. Í fyrsta lagi var þar hið mikla íslenska bókasafn, sem kent er við Íslandsvininn prófessor Fiske og í öðru lagi var þar hinn velþekti fræðimaður og rithöfundur Halldór Her-

mannsson — hann var þar bæði bókavörður og kennari.

Dr. Beck tók meistarapróf (M.A.) við Cornell háskólann um vorið 1924, og Doktors próf (D.Ph.) í heimspeki 1926. Hann skrifaði meistara ritgerð sína um skáldið Byron og áhrif hans í íslenskum bókmentum, en Doktors ritgerðina um Jón Þorláksson skáld á Bægisá og þýðingu hans á "Paradísarmissi" eftir Milton.

Á þessari löngu og sigursælu mentabraut er vert að geta þess að dr. Beck vann í hjáverkum frá náminu fyrir öllum þeim kostnaði, sem það útheimti. Hlaut hann því oft að verja þeim tíma til annara starfa, sem flestir aðrir skólabræður hans vörðu — eða gátu varið — til námsins. En þrátt fyrir þetta hlaut hann hver námsverðlaunin á fætur öðrum, bæði hér og heima. Það er list, sem enginn meðalmaður leikur.

En dr. Beck var vanur vinnunni áður en hann sneri sér að náminu. Hann var, svo árum skifti, sjómaður og formaður á Reyðarfirði; djarfur en skynsamlega varfær sjósóknari og heppinn með afla.

Stundum vill það verða svo, að þótt menn hafi skarað fram úr við nám, þá hverfa þeir úr sögunni þegar námsbrautin er á enda, og láta ekkert eða lítið, til sín taka.

Séra Friðrik Bergmann sagði einhverju sinni við skólauppsögn að það væri gleðilegt þegar ungir menn lykju námi með hrósi og heiðri; en hitt væri leitt, sem stundum ætti sér stað, að útskriftardagurinn væri samtímis nokkurs konar útfarardagur þessara efnilegu manna, sem svo margar vonir höfðu vakið, að þeirra heyrðist aldrei getið eftir prófið.

Þetta þótti vel að orði komist eins og svo margt sem kom frá vörum og penna þess manns. Hann hvatti hina íslensku námsmenn til þess að hafa þetta hugfast, og verða aldrei í tölu þeirra manna, sem ættu sameiginlega útskriftar og útfarardag.

Dr. Beck sannarlega lagði ekki árar í bát þegar lokið var náminu. Hann hafði ekki fyr náð sér í meistara og doktors titlana en hann var orðinn háskólakennari: fyrst í enskum bókmentum við St. Olafs skólann í Northfield í Minnesota og þar næst við Thiel skólann í Greenville í Pennsylvaníu. En árið 1929 varð hann prófessor við ríkisháskólann í Grand Forks í Norður Dakota, og hefir haldið því embætti síðan með sívaxandi orðstír í tuttugu ár. Er hann þar prófessor í Norðurlandamálum og bókmentum — og yfirkennari í þeirri deild.

Eins og prófessor Beck hafði fleiri hnöppum að hneppa en námshnöppunum, meðan það stóð yfir — því hann tók þá þegar mikinn þátt í opinberum málum — eins hefir hann haft fleiri járn í eldinum en kenslujárnið síðan hann hóf starf sitt við ríkisháskólann í Grand Forks.

Hann hefir tekið virkan, veigamikinn og sigursælan þátt í ýmsum félögum og málefnum, er siðbótum, menningu og framförum hafa helgað líf sitt og tilveru. Má þar á meðal nefna Goodtemplara málið, friðarmálin og þjóðræknismálið. Hefir hann staðið þar betur að vígi en flestir aðrir, sökum þess að hann hefir þrjú vopnin, þar sem aðrir hafa einungis eitt. Þeir sem við ritstörf og ræðuhöld fást, njóta sín mjög fáir nema á einu máli; dr. Beck aftur á móti er jafnvígur á þrjú mál: Hvort sem hann beitir tungu eða penna nýtur hann sín jafnt á íslensku, ensku og norsku, og hefir auk þess víðtæka

kunnáttu í fleiri málum. Hvernig hann kemst yfir öll þau ósköp af bókmentastörfum og félagsmála þátttöku sem hann leysir af hendi í hjáverkum frá lífsstarfi sínu — kenslunni — er flestum óráðin gáta. Hér skal talið hrafl af störfum hans meðal Íslendinga:

Frá því fyrsta er hann kom hingað vestur hefir hann flutt fjölda af ræðum og fyrirlestrum fyrir bindindismálið og gegnt þar ýmsum störfum og embættum. Hann hefir altaf verið stórvirkur leiðtogi í Þjóðræknisfélaginu: verið meðal annars í stjórn þess i tólf ár — sex ár varaformaður þess og formaður þess í önnur sex ár, langtum lengur en nokkur annar í senn. Og hann hefir ekki aðeins gegnt þessum störfum að nafninu til, heldur hefir hann unnið að þeim með lífi og sál; ferðast út um allar íslenskar bygðir frá hafi til hafs Þjóðræknisfélaginu til útbreiðslu og eflingar með ræðum og fyrirlestrum.

Hann hefir gefið út bók með frumsömdum kvæðum, er hann nefnir "Ljóðmál" og ljóðakver með frumortum kvæðum á ensku. Hann hefir skrifað sögu íslenska lúterska kirkjufélagsins í Vesturheimi; safnað og búið undir prentun íslensk ljóð og þýðingar þeirra á ensku; nefnir hann þá bók "Icelandic Lyrics". Hann er einn af höfundum "Bókmentasögu" Norðurlanda á ensku, sem gefin er út í New York. Á hann þar ítarlegt yfirlit yfir íslenskar bókmentir fyr og síðar. Hann er meðritstjóri fræðiritsins "Scandinavian Studies", ritstjóri Almanaks O. S. Thorgeirsons; "hefir safnað og búið undir prentun: "Icelandic Poems and Stories". Hann hefir annast undirbúning og útgáfu á kvæðum Kristjáns Júlíusar og ljóðum séra Jónasar Sigurðssonar. — Hann er nú að ljúka við undirbúning á enskri bók um sögu íslenskrar ljóðagerðar í síðustu 150 ár.

Auk þeirra bóka, sem hér eru taldar og fleiri sem ekki eru nefndar, hefir dr. Beck skrifað fjöldann allan af ritgerðum um merka menn, íslenska og aðra til þess að kynna þá á víxl. En það má kalla annað lífsstarf hans að kynna hinum enskumælandi heimi Ísland og íslenska menningu. Hér skulu taldar nokkrar þessara merku greina:

Ritgerð um Matthías Jochumsson í Scandinavian Studies 1935.

Um Einar H. Kvaran í Poet Lore 1936.

Um Einar Benediktsson í Books Abroad 1936.

Um Bjarna Thorarensen í Scandinavian Studies 1939.

Um Gunnar Gunnarsson í The Friend 1940.

Um Stephan G. Stephansson í The American Scandinavian Review í New York.

Um Einar Benediktsson (önnur ritgerð) í sama riti.

Í því riti einnig um forseta Íslands, háskóla Íslands og íslenskar bókmentir síðustu ára.

Í "Encyclopedia of Literature" hefir hann ritað heildaryfirlit yfir íslenskar bókmentir og stutt æviágrip helstu íslenskra höfunda.

Kynningarstarf Dr. Becks er mikið og margbrotið, en það er yfirleitt í þremur liðum: Það er að kynna sem nánast hvora öðrum Vestur- og Austur-Íslendinga og með því að styrkja sem best samvinnu og bróðurlegt hugarþel milli þeirra; í öðru lagi að kynna Íslendingum hér og heima erlendar bókmentir og erlenda menningu; í þriðja lagi —

og umfram alt — að kynna hinum enskumælandi þjóðum íslenskar bókmentir, íslenskan skáldskap yfirleitt og íslenska nútíðarmenningu.

Svo má heita að Dr. Beck nái í hverja merka bók, sem út kemur heima á Íslandi, lesi hana og dæmi í íslensku blöðunum. Er það út af fyrir sig ekki lítill þáttur í kynningarstarfinu. Hvar sem hann fréttir um einhverja bók, einhverja umsögn um Ísland eða Íslendinga, aflar hann sér þess tafarlaust, kemst í samband við höfundinn, leiðréttir með vinsemd og lipurð það, sem mishermt kann að vera, og gerir hann sér að vini með prúðmannlegri framkomu — sér sjálfum að persónulegum vini og vini Íslands og Íslendinga.

Eg spurði Dr. Beck að því nýlega hversu marga fyrirlestra og ræður hann mundi hafa flutt í sambandi við þetta kynningarstarf sitt: "Eg veit það nú ekki með vissu", svaraði hann. "En það eru að minsta kosti 400 ræður og fyrirlestrar á öllum málunum þremur."

Þegar til þess kom að velja mann sem fulltrúa Vestur-Íslendinga á Lýðveldishátíðina 1944, og gest ríkisstjórnarinnar samkvæmt boði hennar þá varð það eðlilega hlutskifti Dr. Becks að leysa það af hendi: Í fyrsta lagi var hann þá forseti Þjóðræknisfélagsins, og margra hluta vegna sjálfkjörinn til þess. Það er satt að við eigum mörgum góðum mönnum á að skipa; en tæpast nokkrum, sem til þess var að öllu leyti eins vel fallinn: Til þess þurfti mann með sterkan og heilbrigðan líkama; mann sem þoldi að ferðast svo að segja nótt og dag, hvernig sem viðraði og "vegaði". Til þess þurfti mann sem var snjall ræðumaður og var jafn vígur á bæði málin, ensku og íslensku; mann sem kunnugur var sögu landsins og þjóðarinnar; mann sem komið gat fram einarðlega og myndarlega, en jafnframt prúðmannlega og mætt hverjum sem var eins og jafningja sínum.

Umsagnir blaðanna heima sýna það að Dr. Beck kom fram Vestur-Íslendingum til sóma á Lýðveldishátíðinni.

Eins og nærri má geta hefir Dr. Beck verið heiðraður á margan hátt fyrir sitt mikla starf: Hann hefir verið gerður heiðursfélagi í fjölmörgum vísindafélögum, bókmentafélögum, menningarfélögum og Þjóðræknisfélögum. Auk þess hefir hann verið sæmdur fjölda af heiðursmerkjum. Við það tækifæri hefir það komið í ljós hversu mikils störf hans eru metin. Þegar hann var t. d. sæmdur St. Olafs orðunni árið 1939 af Hákoni Noregs-konungi, var honum haldið afar fjölment og virðulegt samkvæmi í Oddfellows salnum í Grand Forks. Voru þar mætt mörg stórmenni úr öllum áttum. Þar var staddur norskur maður, sem heitir Björgulv Björnaraa og flutti Dr. Beck eftirfarandi kvæði, auðvitað á norsku:

"Þig Sögueyjan sendi hingað,
þú sonur Íslands — heill sé þér. —
Um framtíð höfðu forlög þingað
og fest þér nám í landi hér:
Í norska stofnsins stríði þar
að standa í broddi fylkingar.

Í kvöld sér Olafs krossinn sæmir:
Í kvöld hann þér á barmi skín;
og hann í þeirra hóp þig dæmir,
sem hvergi slíðra vopnin sín.
Að fengnum sigri halda í höfn
í herrans nafni', um úfna dröfn.

Þú hamingju og heiðurs njótir
sem hingað til — þín komandi ár;
þú ennþá nýjar brautir brjótir

og brjótist fram með æsku þrár.
Í verkum þínum, vegleg dreymd,
sé vorra feðra minning geymd."

Á því samkvæmi fórust þáverandi ríkisstjóra í Norður Dakota orð á þessa leið: "Heillaóskir til heiðursgestsins hafa borist hingað úr öllum áttum, innan lands og utan, ýmist í bréfum eða skeytum.

St. Olafs orðan er einungis veitt þeim mönnum, sem fram úr hafa skarað hér í Vesturheimi. Eg þekki engan í þessu ríki, sem fremur verðskuldar þennan heiður en Dr. Beck. Síðan hann kom til Norður Dakota, hefir hann unnið uppihaldslaust að því að skapa sem mesta vináttu og besta samvinnu milli Norðmanna heima og fólks af norskum uppruna hér í álfu. Það hefir verið starf hans að halda á loft hinum hreina fána norskrar menningar, norskrar sögu og norskra bókmenta. Hann hefir sannarlega verðskuldað þann heiður, sem honum veitist hér í kvöld. Dr. Beck á ekki einungis skilið hrós og heiður frá Norðmönnum, heldur einnig — og ekki síður — fyrir hönd Íslendinga og Dana. Dr. Beck er í orðsins fylsta og besta skilningi góður borgari Norður Dakota: hann er góður borgari Bandaríkjanna yfir höfuð." Þannig fórust ríkisstjóranum orð.

Við sama tækifæri sagði prófessor Sveinbjörn Johnson þetta: "Dr. Beck hefir gert meira þessi fáu ár, sem hann hefir verið í Norður Dakota, til þess að leiða athygli annara þjóða að öllu því besta í skandinaviskri menningu en nokkur annar maður, eða allir til samans við háskólann síðan hann var stofnaður."

Þetta er merkilegur vitnisburður frá öðrum eins manni og Sveinbirni Johnson.

Í blaðinu "Grand Forks Scandinav" við þetta tækifæri var fyrsta ritstjórnargreinin á þessa leið: "Nýr riddari hefir hlotið heiðursmerki St. Olafs orðunnar. Í þetta skifti er það Dr. Richard Beck, sem heiðurinn hlaut frá Hákoni konungi. Þessi útnefning vakti almenna ánægju hér í bæ og umhverfi. Þeim sem fylgst hafa með störfum Dr. Becks og athöfnum kom þessi frétt ekki á óvart. Altaf síðan C. J. Hambro stórþings forseti heimsótti oss, hafa margir leiðandi menn og háttsettir unnið að því í kyrþey að prófessor Beck hlotnaðist þessi heiður. Ritstjóri þessa blaðs hefir einnig sterklega mælt með þessari útnefningu.

Með starfi sínu við háskólann sem prófessor, sem rithöfundur, sem fyrirlesari, með greinum sínum í norskum blöðum og enskum tímaritum, hefir Dr. Beck í stórum mæli stuðlað til þess að útbreiða norska menningu hér í álfu. Fyrir áhrif hans og störf hér í miðvestrinu hafa norræn áhrif rutt sér braut, þangað til þau nú horfast í augu við nýjan og bjartari dag. Sankti Olafs orðan var í þetta skifti látin þar, sem hún sómir sér vel."

Prófessor Einar Haugen yfirkennari í norrænum fræðum við háskólann í Wisconsin skrifar þetta: "Það hryggir mig stórlega að geta ekki sótt heiðurshátíð Dr. Becks, míns góða vinar og gamla kennara. — Fáir eru þeir, sem þessa viðurkenning hafa hlotið og unnið eins rækilega fyrir henni og Dr. Beck. Hann hefir með sínu eldfjöri og sinni óþreytandi stöðugu starfsemi skapað og vakið lifandi áhuga fyrir norrænum vísindum og norrænni tungu."

Oppegard, útgefandi "Grand Forks Herald" leggur hér einnig samhljóða orð í belg; hann hefir þetta að segja:

"Eg óska Dr. Beck til hamingju af heilum huga með þá viðurkenningu, sem hann hefir meira en verðskuldað. Það er ekki auðvelt að gera sér fyllilega grein fyrir þeim miklu áhrifum, sem prófessor Beck hefir haft til útbreiðslu og viðurkenningar norrænna bókmenta. — Eg veit um hvað eg er að tala þegar eg segi þetta, því hann hefir unnið í svo góðri og göfugri samvinnu við "Grand Forks Herald".

En það er ekki einungis heima fyrir, sem Dr. Beck er orðinn viðurkendur. Það var ekki fyrir alllöngu sem grein birtist í mörgum ritum og taldi upp háskólastofnanir í Bandaríkjunum; var þar sérstaklega getið háskólans í Norður Dakota, fyrir störf hans og kenslu í norrænni tungu **undir stjórn Dr. Becks.**"

Þessir vitnisburðir Norðmanna um Dr. Beck eru þýddir úr norskum blöðum, og því nýir Íslendingum. Þeir eru margir fleiri, en eg læt þetta nægja. Aftur á móti langar mig til að bæta hér við stuttum kafla úr undurfallegri grein í "Tímanum" eftir Hermann Jónasson fyrverandi forsætisráðherra Íslands, sem hann kallar: "Afmæliskveðja til skólabróður" þegar Dr. Beck var fimtugur. Hann segir þetta:

"Dr. Beck las fimta og sjötta bekk saman á einum vetri.

Að komast sem fyrst og komast sem lengst
er kapp þeim sem langt þarf að fara.

Það var lögmálið í lífi og starfi Richards Becks. Hann ætlaði sér að fara langt, og hann hefir gert það. Hann talaði ekki um það, en við skólabræður hans fundum það einhvern veginn á okkur; og við sem þektum hæfileika hans og dugnað vorum ekki í neinum efa um það að öðruvísi gæti það ekki orðið, ef honum entist aldur. — Mér er þessi skólabróðir minnisstæður frá því fyrsta við sáumst, vegna þess hvað skemtilega var saman ofið í augum og andlitsdráttum þessa manns glaðlyndið og góðmenskan, lífsfjörið og stálviljinn. Þessi skólafélagi okkar hafði hugann allsstaðar, og hann hafði áhuga fyrir öllu. Hvað mikið sem honum lá á að ná markinu, þá hafði hann altaf tíma til þess að sinna öðrum málum, sem altaf urðu á vegi hans. . . . Hann var virðulegur fulltrúi Vestur-Íslendinga á Lýðveldishátíðinni 1944, og flutti skörulega ræðu á Þingvöllum, er menn hlýddu á með athygli og ánægju. — Hann fylti ekki einungis með heiðri þann sess að vera fulltrúi landnemanna vestan hafsins með hátíðahöldin; hann hafði auk þess tíma til að semja og flytja fjölda fyrirlestra. — Hann átti enn sem fyr sama lífsglaða áhugann fyrir öllu. Þeir menn eru gæfumenn, sem tekst þannig, samfara mentun og lífsreynslu, að vernda æsku sína. — Eg vona og eg veit, að þú gamli skólafélagi, haldir áfram sem horfir: mikilsverður fulltrúi íslensku þjóðarinnar hvar sem þú ferð."

Í niðurlagi greinar, sem prófessor Alexander Jóhannesson skrifar um Dr. Beck, kemst hann þannig að orði:

"Væri þess óskandi að hans mætti enn lengi njóta, því alt hans starf miðar að því að auka hróður Íslands, og kynna íslenska menningu í Vesturheimi."

Guðmundur skáld Hagalín segir í langri ritgerð um Dr. Beck: "Prófessor Beck er slíkur dugnaðar- og afkasta-

maður, að heita má með fullum ólíkindum. — Er ekki of mikið sagt þó þannig sé tekið til orða að hann sé sífelt á verði um það, hvar og hvernig hann megi verða fósturjörð sinni til gagns og sóma — og íslenskum mönnum að liði."

Þetta er fagur vitnisburður, og þeir, sem fylgst hafa með lífsstarfi Dr. Becks, vita að hann er sannur.

Prófessor Beck er tvíkvæntur: var fyrri kona hans Ólöf Daníelsdóttir frá Helgustöðum í Reyðarfirði; hann misti hana eftir stutta sambúð. Seinni konan er Bertha Samson hjúkrunarkona, dóttir Jóns Samsons fyrverandi lögreglumanns og konu hans í Winnipeg. Er hún frábærlega vel gefin kona og hefir átt mikinn þátt í því, hversu óvenjulega miklu hann hefir getað afkastað. Þau eiga tvö börn: Margréti 18 ára og Richard 16 ára, bæði við nám.

---

# Ljóðabréf

**Til Dr. J. P. Pálssonar frá J. M. Bjarnasyni**

1. janúar 1914

---

Kæri vinur! Klökkust þakkar orð
Eg klóra á blaðið, fyrst á annað borð
Eg rita þér frá Kyrrahafsstrandar
klettum
Með fettum
Og fádæma brettum.
Og þakkar-orð mín eru fyrir bréf,
Sem fengið hef
Eg frá þér — með þinni hendi —
Svo ágætt skrif eg aldrei brendi,
En heldur geymi,
Svo hugann dreymi
Um dýrðar-daga.
Drottinn minn! Þetta er fögur saga!

Engar sögur sagt þér get eg.
Syng eg fátt, þó ljóðin meti' eg.
En hér er nóg um hark og org
Í herjans borg,
Svo eg vil þegja,
Og ekkert segja
Um mannanna sult og sorg.

Þó finst mér skylt að skýra þér
Frá þeim skrítna her,
Sem stritar og stríðir,
Og strætin prýðir,
Og biður um brauð og smér
Í borginni hér: —

Þeir ensku eru flestir
Og altaf mestir
Á landi og söltum sjó,
Og eiga af öllu nóg.

Næst koma Skotar
Með skúfa og sjöl,
Og aldrei vilja þeir moka möl,
Eða sandi
Í þessu landi.
En fræklega beita þeir brandi
Til varnar veikum lýð,
Þegar voleg geysa stríð.

Og svo kemur Írinn,
Ertinn og týrrinn,
Fljótur til svars og fyndinn.
Á brestina ber hann,
Svo bölvar og sver hann,
Og varpar því öllu út í vindinn.

Þá eru Frakkar
Svo fullir af kæti,
Sem ódælir krakkar,
Með alskonar læti,
Tindil-fættir og tala í nef;
Eg trúi' að þeir fái aldrei kvef.
Með róðu-krossa og rauða klúta
Þeir skera hrúta
Í svefni um svartar nætur,
Og fara á fætur
Fyrir allar aldir,
Illir og kaldir;
Og ætla þá öllu að stúta.

En Þjóðverjinn, þungur og feitur,
Þambar sinn bjór á kveldin,
Er situr hann sveittur við eldinn,
Síngjarn og undirleitur.
Um töfra-lyf hann talar ný,
Og tundur-skip loftinu í;
Því altaf veður hann aur og elg,
Er orðinn að vísinda-belg.

Og Ítalinn smár
Er altaf knár,
Og mokað getur
Mörgum betur.
En voða-gestur
Hann verður mestur,
Þegar hann bragðar vín,
Það bannsett fylli-svín.

Þar verður Tyrkinn vænni,
Og virðist kænni,
Því Bakkus hatar hann,
Sá herjans mann;
Og fleskið hann forðast sem eitur,
Og fær aldrei geitur.

En Grikkir gleypa alt,
Gott og ilt — heitt og kalt,
Og selja aldini og egg
Undir sérhverjum vegg;
Og sælgæti þykir þeim salt.

Og Rússinn er sterkur og stór,
Og stinnur sem þjór,
Með skolbrúnt skegg og hár,
Og blakkar brár.
Hann biður um brennivín
Og bölvar og hrín,
Ef ekki er strax
Alt til taks;
Og hver sem fætur á
Sér forðar þá.
**Inter pókúlá!**

Svo kemur Svíinn,
Í sjóbúðum þarfur,
Er drýldinn og djarfur,
Og dálítið lýginn. —
Segir hann sögur
Af kóngum og kempum,
Og klerkum í hempum,
Og ber saman bögur. —
Og málið hans mæra
Er mjúkt eins og gullið,
En bannsett er bullið,
Sem börnin hans læra.

Og Finninn þykir frækinn kall,
Sem faðir hans og móður-kyn.
Hann gefur lítt um glaum og svall,
Né gróða-brall;
En vínsins er hann vin. —
Og breiðar eru herðar hans,
Og hárið hvítt sem viðar-ull.

En þegar hann kom til þessa lands,
Með þrettán manns,
Þá átti hann ekkert gull.
En nú á karlinn nógan auð
Og nægta-búr við Púget-sund,
Og feginn vill hann flytja brauð,
Og feitan sauð,
Til frænda á feðra-grund.

Og Norðmaðurinn nýtur þess,
Að Nansen á með Bretum sess,
Að Ámundsen fann undra-lönd
Við Íshafs syðstu rönd. –
Og alt af á hann þrek og þol,
En þambar bjór og segir "skol",
Með gráblá augu, glóbjart hár,
Er gildur bæði og knár.

Gyðingurinn gangandi glottir við
tönn,
Og engan mun sér hann á alin og
spönn.
Um vetur og sumar, um vor og um
haust,
Heyrirðu Gyðingsins hrópandi raust.
Því aldrei fyllast vasar þess marg-
þjáða manns,
Og prýðilegt er glingrið í pokanum
hans. –
Og Gyðingurinn gangandi gulleplið
fann;
Áfelli enginn svo ágætan mann:
Svo heilagur var enginn hnetti
vorum á,
Að ei tæki' upp gull, sem í götunni lá.
Hann þekkir af reynslu, að það er
ekkert bull,
Að alt fæst fyrir silfur og glóandi
gull.

Og Kínverjinn læðist
Með kinnbein há,
Og augu smá,
Sem eru á ská;
Og voðum hann klæðist
Víðum, með ermum á.
Og hárfléttan mjóa
Hangir sem rófa
Hans úr hnakka,
Og hræðir alla hvíta krakka.
Og gangirðu í gildruna hans,
Þess gula manns,
Þá sleppur þú aldrei út
Fyrir utan sút.
Því svefnlyf hans eru sæt og sterk,
Og setja í þig höfuð-verk.

En Jappinn er klókinda kall
Við kaupsýslu-brall,
Og heiðnari en Hákon jarl;
Er snyrtimannlegur og snotur
Með hæversku snið,
Að höfðingja sið,
Og syndur sem sjávar-otur.

Og Hindúinn vestan um ver
Með Veda-bók fer,
Túrban og traf,
Og töfra-staf.
Er hægur og seinn,
Og heldur fár,
Með hrafnsvart skegg og hár
Og kaffibrúnt hörund. – Er keikur
og beinn
Eins og teinréttur prjónn,
Eða tvítugur lögregluþjónn. –
En ilt þykir honum eitt,
Og ansvíti leitt,
Að kúra hér konulaus,
Sem kaldur hnaus.
Og þykir engum undur,
"Þó á hann renni ei blundur",
Og karlgreyið kraumi
Í laumi.
En Bretinn segir,

Að hann eigi
Að hlýða og stríða,
Og bíða betri tíða.

Svo kemur Kolur
Frá Kóngó-dal,
Sem eikar-bolur
Úr bjarka-sal;
Með ull á kolli,
En ekkert tog, –
Sem sviðinn skolli
Við synda-vog. –
Með nasir víðar,
En nefbein látt,
Og tennur fríðar
Á trölla hátt,
Og varir fláar,
Og víðan hvoft,
Og kinnar bláar
Sem kólgu-loft. –
Hann mokar kolum,
Og mylur krít,
Og býr í holum
Á **Harris Street.**

En Indíáninn rauði
Er snauður
Og snoðinn,
Og heldur sig að hálfu
Við álfa
Og goðin.
Hann raular vöggu-stefin
Við refinn
Og björninn,
Og kynja-sögur kann 'ann
Um manninn
Og örninn.
Hann býr í næfra-skála
Við álinn
Og ósinn,
En unir ekki' í borgum
Við orgin
Og ljósin.
Hann gengur inn á heiðar
Til veiða
Á vorin,
Og vart mun nokkur refur
Fá þefað
Upp sporin.
Og náttúran, sem falið
Og alið
Hann hefur,
Andar heilsu' í blóðið
Og móð
Honum gefur;
Og seinast, þegar hugur
Og dugur
Hans dofnar,
Að hennar barmi hallast
Þá kallinn –
Og sofnar.

Og landinn kemur með harðar hendur,
Hugumstór eins og Egill og Þórir,
Drengur góður, en djarfur og slunginn,
Dregur hann reip úr flestra greipum;
Dreymir hann enn um frægð og frama
Fornrar þjóðar á norður-slóðum;
Finnur hann sér í blóði brenna
Berserks-kraftinn genginn aftur. –
Hundrað rímur af Högna og Andra
Hefur hann ort hjá staðarins porti,
Og kveður svo hátt, að katólskar þjóðir
Kvíða því mest, að himininn bresti,
En Húnar, og aðrir herjans vinir,
Halda að fjandinn sé kominn að landi.
Látum grey þau lengi sýta:
Því **landinn** yrkir, þó þeir kyrkist.

# Kvæðabók fylgt úr hlaði

Á síðast liðnu hausti kom út hér í Winnipeg kvæðabók eftir Bjarna Þorsteinsson ljósmyndasmið frá Höfn í Borgarfirði eystra. Ritstjóra þessa tímarits var falið, að sjá um útgáfuna og gera grein fyrir höfundinum. Bókin er víst, enn sem komið er, í fárra eigu, svo ef það kynni að geta orðið til þess að vekja athygli lesenda tímaritsins á bókinni og á þann hátt stuðla að einhverju leyti að útbreiðslu hennar, þá er inngangurinn endurprentaður hér orðréttur ásamt mynd höfundarins.

Fyrir meira en þriðjungi aldar var eg kyntur mætum íslenskum mentamanni hér á Íslendingadegi. Sennilega hefir það verið milligöngumanninum að kenna, að samtalið barst að skáldskap og þá kvæðum dagsins sérstaklega. Man eg þá, að hann sagði: "Þið yrkið mikið hér vestra". Í rómnum og einkum áherslu orðanna fanst mér felast vandlætingar keimur eða jafnvel kaldhæðni; svo mér varð á sú ókurteisi, að svara í álíka róm: "Já, en við gætum kannske gjört ýmislegt sem verra væri". Við það féll samtalið skiljanlega niður. Á þeim árum eða skömmu fyr var hér við lýði félag, sem nefndi sig Hagyrðingafélag, og lá vitanlega allmikið eftir það og reyndar eigi síður aðra fleiri, sem aldrei tilheyrðu því. Sumir æðstu prestar vorir hér lögðust á þá sveifina, að vilja þagga niður í öllum, sem kváðu, og sögðu með berum orðum, að þeim væri nær að gjöra eitthvað þarfara, en að fylla blöðin með leirburði. Þessir sömu prestar voru samt svo þjóðræknir og góðir Íslendingar, að starf þeirra í viðhaldi þjóðernis og tungu gekk kraftaverki næst. Þeir töldu það heilagt málefni — næst kirkju og kristindómi. En þeim sást einhvern veginn yfir það mikilvæga atriði, að ef vér vanræktum það, sem oss var nánast í blóð borið, gæti farið svo, að vér legðum fleiri þjóðareinkenni vor á hilluna — jafnvel málið sjálft.



Því hefir verið haldið fram, og sjálfsagt með nokkrum sanni, að Íslendingar sé að eðlisfari listræn þjóð. En það listform, sem fylgt hefir oss í gegnum aldirnar, er orðsins list, og þá ekki síst sá hluti hennar, sem birtist í ljóðagerðinni. Fram til þess tíma, að vesturflutningar voru um garð gengnir, hafði þjóðin haft fátt eitt að sýna í öðrum greinum fagurra lista, svo sem málverk, höggmyndir eða tónljóð. — Hvað var þá

eðlilegra og sjálfsagðara en að vér, sem flestir komum hingað með tóman mal og fáeinar ljóðabækur á kistubotninum, tækjum til að iðka þessa einu list, sem vér visssum glöggust deili á og oss var innrætt í gegnum þúsund ára bókmentir, jafnframt því sem vér vorum að herða oss gagnvart annarlegum utanaðkomandi áhrifum?

Enginn hefði því átt að undrast né fyllast vandlætingu, þótt ekki væri jafnhátt undir loft hjá okkur öllum. Fegurstu skógarnir eru vaxnir hinum breytilegasta og ólíkasta gróðri að vexti og útliti; og stór tré þrífast síst á berangri. En sú staðreynd, að allmörg ágætisskáld, og jafnvel stórskáld, hafa vaxið upp úr okkar vestur-íslenska þjóðarjarðvegi, sýnir, að þessi hreyfing var holl og ekki fyrir gýg.

Í þessu sambandi má ekki gleyma því, að fæstir þeirra, er best hafa ort hér vestra, höfðu kveðið nokkuð að ráði heima á föðurlandinu. Þeir komu hingað ungir, allflestir, með tilhneiginguna eina, og sumir voru fæddir hér. Af þessu stafaði lengi vel, að heimaþjóðinni gekk erfiðlega að sætta sig við þá hugsun, að vér, vestmenn, værum nokkuð annað eða meira en eftirhermur eldri skáldanna. Eymir jafnvel af þessu enn, sem sjá má meðal annars af því, að einn merkur mentamaður var fyrir skemstu froðufellandi yfir því, að hafa ekki getað sett höfuðskáld Vestur-Íslendinga á hné sér.

— — — —

Þegar eg tók að mér, að sjá um útgáfu þessara kvæða, fyrir beiðni barna höfundarins, var mér ekki fyllilega ljóst, hvað eg væri að takast á hendur. Tæpur þriðjungur kvæðanna var til í eiginhandar riti; og þótt allmikið væri sent inn frá vinum og frændaliði, þá voru það mest sömu kvæðin. Og eins og gengur og gerist hafði höfundurinn breytt víða orðalagi og jafnvel heilum vísum, svo handritunum bar ekki ávalt saman. Út því varð eg að vinsa það, sem smekklegast virtist, eða þá það, sem vissa var fyrir, að höf. hefði lagt á síðustu hönd. Fullur helmingur ljóðanna var hvergi til nema í blöðunum. Hið næsta, sem fyrir lá, var því, að flétta í milli þrjátíu og fjörutíu árgöngum af Lögbergi og Heimskringlu, skrifa upp kvæðin og safna í eina heild. Mér hefði þótt æskilegast að raða kvæðunum eftir aldri, því á þann hátt má best lesa þroskasögu höfunda. En með því að engin vissa er fyrir um aldur þeirra, að undanteknum tækifæriskvæðunum, þá tók eg þann kostinn, að flokka þau sem mest eftir efni. Stafsetning og greinarmerkja skipun er höfundarins, nema þar sem nauðsyn krafði breytingar.

Skyldu einhverjir halda, að mér hafi þótt þetta leiðindaverk, þá er það langt fjarri sanni. Í opnum blaðanna birtist mér ýmist nýr heimur, eða gömul og hálfgleymd minningalönd. Og þó eg, af skiljanlegum ástæðum, hefði ekki tóm til að lesa annað en það, sem þenna eina höfund snerti, þá rakst eg þar á urmul af kvæðum eftir öndvegisskáld okkar hér, svo sem St. G. Stephansson, Kristinn Stefánsson, Jón Runólfsson, Þorskabít, M. Markússon, Kristján N. Júlíus, Séra Jónas A. Sigurðsson, Þ. Þ. Þorsteinsson, Guttorm J. Guttormsson, Einar P. Jónsson, Dr. Sig. Júl. Jóhannesson og þá bræðurna Pál og Kristján Pálssyni, auk fjölda annara, sem of langt yrði upp að telja, en hafa látið margt gott eftir sig á þrykk útganga, en að vísu einnig kynstur af lélegu hnoði og leir.

En eg varð hugfanginn af þessari sýn, því eg sá í anda framundan mér frumskóginn, þar sem úir og grúir af allskonar gróðri — blómum, grænu grasi, nettlum, þyrnum og þistlum innan um kjarr, runna og hálf vaxin tré, upp í volduga blaðskrýdda álma, aspir, eikur og hlyni. Og það minti mig líka á hin dularfullu, sígrænu barrtré — einirinn, grenið, furuna og lævirkjatréð — sem ein standa græn um hávetur og ægja kyngisnjó, nepju og nístings kulda, þegar öll önnur tré hafa kastað klæðum og gengið til svefns.

Eitt tréið í þessum vestræna ljóðskáldaskógi er höfundur þessa kvæða kvers. Og þó engin tilraun verði gjörð til að marka honum nokkurt ákveðið svið, eða gefa honum þar nafn, þá verður þó ekki með sanngirni framhjá honum gengið. Hann yrkir að vísu mjög í anda og stíl skálda þeirra, er uppi voru um og eftir síðustu aldamót,, en svo gjöra fleiri og eru engu síðri fyrir. Hann stælir engan né tekur sér einn fremur öðrum til fyrirmyndar. Og hann hefir djörfung til að komast sumstaðar að öðrum niðurstöðum en algengt er, t. d. í sumum sögukvæðunum. Fæstir af þeim, er hér hafa mest kveðið, hafa verið eldri en hann, þegar hingað kom. Hann var þá hálf-fertugur; en ekki verður þó með vissu sannað, að nokkurt kvæðanna sé ort á Íslandi, að minsta kosti í þeirri mynd, sem þau eru nú í, að tveimur æskukvæðum undanteknum — Vorvísur og Álfasöngur, — og styður það að nokkru tilgátu mína hér að framan, að margir hverjir, sem að líkindum hefðu aldrei ort neitt til muna í heimahögunum, hafi tekið til að iðka þá list hér vestra, ekki aðeins af innri þörf til að láta tilfinningar sínar í ljós, heldur og beinlínis til þess að brynja sig gegn þeim öflum, sem hóta þjóðernislegri tortímingu.

— — — — — — —

Bjarni Þorsteinsson, höfundur þessara kvæða, var fæddur í Höfn í Borgarfirði eystra 16. desember 1868. Faðir hans, Þorsteinn, var Magnússon, Jónssonar prests á Eiðum í Héraði. Eyjólfur, faðir Gunnsteins sagnaskálds og á Unalandi í Nýja-Íslandi, var bróðir Þorsteins í Höfn. Eru ættir þeirra raktar suður á Rangárvelli til Bryjólfs Magnússonar — "20 býla Brynka", — og norður í Eyjafjörð til Lofts ríka á Möðruvöllum og Jóns biskups Arasonar. Þeir bræður, Eyjólfur og Þorsteinn, voru vel viti bornir, fastir í lund, en nokkuð fornir í skapi. Engir voru þeir menntamenn eða hneigðir til skáldskapar, en búhöldar ágætir. Einkennilegt er það þó, að synir þeirra, Gunnsteinn og Bjarni, voru báðir listrænir og skáld, enda gætu þeir hafa erft það frá mæðrum sínum. Kona Þorsteins í Höfn og móðir Bjarna hét Anna Hallgrímsdóttir frá Búðum í Fáskrúðsfirði.

Bjarni mun snemma hafa hneigst til bókar, enda kvað heimilið hafa átt allsæmilegan bókakost. Ekkert varð þó af því, að hann gengi í skóla, sem oft tíðkaðist með efnaðra bænda syni. En þegar hann fór til Kaupmannahafnar, nokkru eftir tvítugs aldurinn, mun hann af sjálfsdáðum hafa verið orðinn allvel að sér í almennum fræðum, íslenskri málfræði, Norðurlandamálunum og ensku. Í fyrstu tók hann upp trésmíði sem handiðn en hætti því fljótlega. Í frístundum sínum gaf hann sig að tungumálanámi, svo sem þýsku og frönsku. Jafnframt því, eða kannske öllu fremur, fór hann að læra ljósmyndagerð. Eigi veit eg með vissu,

hversu mörg ár hann dvaldi í Khöfn, en á þeim árum mun hann hafa þekt og umgengist þar marga íslenska námsmenn og handverksmenn, og tekið virkan þátt í félagsstörfum þeirra og áhugamálum. Hann hafði miklar mætur a Þorsteini Erlingssyni; og af kvæðunum má sjá, að vinátta var milli hans og Einars Jónssonar myndhöggvara og Guðmundar Hannessonar, síðar prófessors.

Um vorið 1897 sá eg Bjarna fyrst, og þótti hann glæsilegur maður, er hann steig af skipsfjöl á Seyðisfirði með unnustu sinni, Björgu Jónsdóttur frá Sleðbrjót, er dvalið hafði í Khöfn um veturinn. Eg hafði lítið eitt kynst henni í heimahúsum og síðar á Akureyri, þegar við gengum sitt á hvorn skólann í Eyjafirði tveim árum áður. Eftir það sáumst við ekki fyrr en hér í Winnipeg, árinu eftir að við komum hingað vestur.

Þau Bjarni og Björg giftust í júní 1898, sumarið eftir að þau komu heim. — Settust þau að í Höfn eða á Bakka, þar sem hann stofnaði verslun. Ekki varð það honum samt neinn auðnuvegur; og það næsta er eg frétti af þeim var, að hann hafði flutt til Vopnafjarðar og stundaði þar ljósmyndaiðn. Sumarið 1903 fluttu þau svo hingað vestur og settust að í Winnipeg. Vann hann hér fyrst að húsabyggingum, en tók þó brátt upp ljósmyndasmíðina hjá bestu myndasmiðum þessa bæjar. — Fjórum árum síðar settist hann að í Selkirk og bjó þar lengst af síðan og stundaði þar iðn sína fram yfir sjötugs aldur, eða þangað til hann flutti til elsta sonar síns hér í borg fjórum árum áður en hann féll frá. Þar stytti hann sér stundir við ritstörf og bókband, sem hann hafði lært eitthvað til á yngri árum. Hann lést hér í Winnipeg 21. maí 1943. Konu sína hafði hann mist fyr á árinu eftir langvarandi vanheilsu. Þau áttu saman fimm börn, öll vel að sér gjör, sem eru fyrir löngu fullorðin. — Eftir aldursröð eru þau: Jón, Anna, Þorsteinn, Jóhann og Helga.

Bjarni var fríður sýnum, meðalhár, grannvaxinn og léttur í spori, prúðmenni hið mesta og snyrtimenni í umgengni. Hann var að eðlisfari fálátur og draumlyndur, og virtist jafnvel feiminn. En þegar hann hafði verið tekinn tali, gat hann verið málreifur og skemtilegur; og óbeinlínis kom þá í ljós, hve fróður hann var um marga hluti. Áður hefir verið minst á tungumálaþekkingu hans; hann las og skildi sjö tungur, og talaði sumar af þeim vel, enda þýddi hann allmörg kvæði úr þýsku, ensku og frönsku, eftir að hann fór að gefa sig við ljóðagjörð. Eftir margra ára dvöl í Danmörku talaði hann vitanlega og las dönsku eins vel og margir innfæddir, en þó er ekki til ein einasta þýðing eftir hann, svo eg viti, úr Norðurlandamálunum, sem enn bendir á, að hann fór ekki að yrkja fyrir alvöru fyr en löngu síðar. Enn annað vísar líka til þess, að ljóðagjörðin hafi verið honum nokkurskonar dægradvöl og hugarléttir á einveru og þunglyndisstundum, og það er, að þó leitað sé með logandi ljósi finnast hvergi eftir hann lausavísur, sem oftast er kastað fram í gamni eða glettni yfir glasi eða í kunningjahóp, og fáir hagyrðingar sleppa við. Því þó höfundarnir haldi þeim ekki ævinlega til haga sjálfir, eru þó altaf nógir aðrir, sem henda þær á lofti, ef vísurnar eru nógu smellnar. Yfirleitt bera þó kvæðin þess vott, að höfundi þeirra hafi ekki verið ósýnt um rím. Til dæmis er allur þorri

lýrisku kvæðanna einkar fagur og hrynjandi í formi. Í sumum öðrum kvæðum er setningaskipun og orðaröð ekki eins bein eða ljós og æskilegt væri. En rímgallar og mállýti eru ekki tíðari hjá honum en ýmsum stærri skáldunum. –

– – – – – –

Ekkert er það undarlegt um mann með hans skapgerð, þótt að honum sækti þunglyndi með köflum. Hann mun hafa hugsað líkt og skáldið, sem kvað:

"Um frelsis vínber seydd við sólar kyngi
mín sálin unga bað,
en krækiber af þrældóms lúsalyngi
mér lífið réttir að."

En hann lætur þess lítinn vott sjást í kvæðum sínum, og hvergi er þar æðra. Í einu kvæði dreymir hann, að Guð bjóði honum, að lifa lífi sínu upp aftur. En hann þakkar fyrir boðið og svarar:

Eg er orðinn þreyttur mjög og móður,
svo, mildi drottinn, eg vil heldur sofa.

Og þarna hefir hann lengst gengið í því, að gefa í skyn, að hann væri saddur lífdaga.

– – – – – –

Gullnemar telja sér vel borgaða fyrirhöfn, ef þeir fá eina únsu af skíru gulli úr tonni grjóts, eða 1 af 32000. Hreint ljóðagull er að sjálfsögðu sjaldgæf vara. En eg hygg, að jafnvel í þessu litla kveri muni leynast fleiri molar af hreinum málmi innan um mölina en einn á móti þrjátíu og tveim þúsundum, fyrir þá, sem nenna að grafa.

---

# Bækur

ISLANDICA, XXXII and XXXIII. Saga íslenskra bókmenta á ensku.

Þetta eru í einu lagi tveir árgangar af hinu merka fræðiriti, er prófessor Halldór Hermannsson hefir gefið út á vegum Fiske-safnsins við Cornell háskólann í meir en þrjátíu síðastliðin ár. Í þetta sinn hefir hann þó ekki skrifað ritið sjálfur. En í þess stað er þar í einni heild hin langþráða saga íslenskra bókmenta, 1800–1940 (History of Icelandic Prose Writers 1800–1940) eftir Dr. Stefán Einarsson, prófessor í norrænum fræðum og tungumálum við Johns Hopkins háskólann í Baltimore. Og er bókin að verðugu tileinkuð Halldóri Hermannssyni.

Eins og drepið var á í þessu Tímariti endur fyrir löngu, skiftu þeir með sér hlutverkum, hann og Dr. Richard Beck, þannig, að í Stefáns hlut féllu allir þeir rithöfundar, sem órímað eða sundurlaust mál hafa skrifað á þessu tímabili, en í Ríkarðar hlut komu ljóðskáldin, sem munu miklu fleiri að tölu ef að líkum lætur. Í þessari deild bókmentanna munu þó taldir hátt upp í hundrað rithöfundar. Enda munu fáir eftir skildir, sem nokkuð hafa látið eftir sig á prenti í skáldskapar áttina.

Í formála bókarinnar markar höfundurinn það svið, sem henni er ætlað að

ná yfir, sem sé aðallega alt það, sem komið getur undir nafnið skáldverk: stærri og smærri sögur, leikrit, huganir o. s. frv. Af því leiðir, að vísindabækur, heimspekisrit, veraldarsaga, og guðsorðabækur eru útilokaðar — ekki ein einasta húspostilla er þar nefnd, hvað þá allar hugvekjurnar. Er eg hræddur um að vinur vor, Dr. Beck, sleppi ekki eins auðveldlega við sálmaskáldin.

Bókinni er að sjálfsögðu skift í flokka, samkvæmt tímabilum, stefnum og straumum. Og getur slík flokkaskipun oft leitt til þrætu og skoðanaskiftinga í milli fræðimanna, sem flestir eru með því marki brendir, að leitast við að finna einhverja bókmentalega skúffu, einhverja fræðimannlega skilarétt, sem hægt sé að stinga hverjum einstökum rithöfundi í. Við alþýðukarlarnir kærum okkur kollótta, úr hvaða dilk höfundarnir eru dregnir. Við lesum bækur þeirra okkur til fróðleiks eða skemtunar, eða hvors tveggja; og ef við finnum hvorugt, stingum við þeim öllum í sömu skúffuna — ruslaskrínuna, eða í dilkinn með óskilafénu. En margir hafa samt gaman af markaskránni.

Vel er mér enn í fersku minni frá æskuárunum, hversu argir við urðum yfir því, þegar danskurinn og jafnvel sumir íslenskir fræðimenn héldu því fram, að Íslendingar ættu engar nútíðar bókmentir. En þegar hér gefst nú tækifæri til að líta yfir heildarafrek nítjándu aldarinnar á þessu sviði bókmentanna, sést fljótt, að ekki var um auðugan garð að gresja; og verður manni þá að spyrja sjálfan sig, yfir hverju við vorum svo ergilegir; því þegar vel er að gætt, má telja á fingrum sér alla þá, sem nokkra tilraun höfðu gert í skáldsagna og leikrita gjörð fyrstu áttatíu til níutíu ár aldarinnar.

En nú er öldin önnur, sem sjá má af yfirliti síðustu fimtíu til sextíu áranna. Við höfum eignast leikrit á borð við það besta, sem aðrar þjóðir hafa skrifað á sama tímabili, og skáldsögur spretta nú fastar en gorkúlur á mykjuhaugi; og er ekkert að því að finna. Ef úr öllum þeim aragrúa kynni að hafa komið þó ekki væri nema eitt heilsteypt listaverk, þá réttlætast allar hinar af verkunum.

Aftast í bókinni er yfirlit yfir bókmentastörf Vestur-Íslendinga, skrifað af samúð og djúpum skilningi. Og enn aftar er Jón Sveinssson, höfundur Nonna-bókanna, gerður að sérstöku umtalsefni.

Hér er þá komin bók fyrir yngri kynslóðina, sem síður les íslensku, en hefir samt, að öðru leyti, áhuga fyrir því sem íslenskt er. Má óhætt fullyrða, að mati höfundarins á verkum hinna ýmsu rithöfunda sé treystandi, þó ekki geti hjá því farið, að sitt lítist hverjum, og manni finnist sumir málaðar í fullbjörtum litum. Vitanlega eru hér engin sýnishorn, en bækur margra þeirra höfunda, sem nefndir eru, hafa verið þýddar á ensku, þótt færri séu en skyldi. Má þar til einkum nefna Jóhann Sigurjónsson, Gunnar Gunnarsson, Kristmann Guðmundsson, Guðmund Kamban og Halldór Kiljan Laxness, auk allmargra smásagna höfunda.

Gaman væri að fá aðra eins bók yfir íslenskar bókmentir á íslensku; en áður það skeður, verð eg fyrir löngu kominn til Maríu minnar, eins og Jón sálugi Krukkur sagði.

LUNDAR DIAMOND JUBILEE, 1887-1947, heitir nýútkomin bók, sem nefnd sú, er annaðist 60 ára afmælishátíð Álftavatns og Grunnavatns bygða sumarið 1947 hefir annast um útgáfu á. Um þessa hátíð var greinargjörð í þessu tímariti í fyrra. Bókin er bæði á ensku og íslensku. Og eru þar allar ræður og kvæði hátíðardagsins. En þar við er ekki látið sitja, heldur er þar landnematal með myndum, sem nefnt er "The Pioneers and Their Children", eftir Paul Reykdal, Allan Eyólfsson, August Magnússson og Rannveig Gudmundsson. Als eru í bókinni hátt upp í 200 myndir af landnemunum og börnum þeirra. Eini gallinn á þessum köflum er sá, að engin tilraun er gerð til að skýra hvaðan af Íslandi þessir landnemar komu, né ættartengsli þeirra við heimaþjóðina. Illa kann eg og við, að stafa öll nöfn á enska vísu, svo sem Sigurdur, Bjorn, Malfridur, o. s. frv., þar sem bókin er prentuð í íslenskri prentsmiðju og því engin nauðþörf á því.

Þá eru þar greinar um sveitarstjórnir, verslunar og handiðnamenn, félagsmál og félagslíf bygðanna, ýmist á ensku eða íslensku, fróðlegar og yfirleitt vel ritaðar. Þá eru sérstakar greinar um "University Graduates", eða þá sem útskrifast hafa frá háskóla Manitoba og annars staðar. Eru þeir taldir tuttugu als; enfremur eru þar kennarar, hjúkrunarkonur og stúdentar, sem enn hafa ekki lokið námi, og er það stór hópur. Má af þessu öllu sjá að menningarlíf bygðanna hefir aldrei verið á lágu stigi Eins og getið er í upphafi eru í bókinni allar hinar ágætu ræður, sem fluttar voru á hátíðinni, ræður þeirra fyrv. þingmanns Skúla Sigfússonar, próf. Richard Beck, séra Alberts E. Kristjánssonar, og þá ekki síst ræðan, sem Paul Reykdal flutti þar blaðalaust. Mig langar til að enda þetta ófullkomna yfirlit yfir bókina með því að þýða lauslega niðurlagsorð þeirrar ræðu, því hún sýndi svo átakanlega, við hvað var að stríða og hvernig landnemarnir unnu bug á örðugleikunum.

"Síðan 1887 höfum við séð nýtísku hús og fjós taka við af bjálkakofunum með torfþakinu og moldargólfinu, bíla, dráttarvélar og jarðyrkju áhöld koma í stað hesta, uxa, orfa, ljáa og handhrífanna. Vér höfum séð hag landnemans smábatna, og marga verða vel efnaða, þrátt fyrir það, að landgæðin á þessu svæði eru langt frá því að vera hagkvæm. En sagan sýnir oss, að því erfiðara sem landið er til nytja, því þolnara og iðjusamara verður fólkið, því aðrir endast ekki. Tökum til dæmis Norðurlönd. Ísland er hrjóstrugt, en Íslendingar eru hraustir, iðjusamir, greindir og ráðvandir, og þeir fluttu þessa eiginleika með sér hingað. Sama má segja um Noreg og Svíþjóð. Danmörk er gróðursælla land, en Dönum hættir meira til sællífis, kæruleysis og leti. Af þessu sjáum við, að þar sem landið drýpur af mjólk og hunangi, legst fólkið frekar í leti og ómensku.

Fólkið í þessari bygð hefir aldrei átt kost á því. Svo eg kemst að lokum að þeirri niðurstöðu, að þó erfitt sé að fá góða uppskeru, ábatasama griparækt, af því landgæðin eru fá, þá hefir bygðin þó gefið af sér það sem er miklu þýðingarmeira. Hún hefir alið upp aragrúa af ágætu fólki."

# Blinda stúlkan frá Kolmúla

Erindi flutt í íslenska Ríkisútvarpið 26. febrúar 1948.

Eftir Ástríði E. Víking

---

Á unglingsárum mínum barst mér í hendur ofurlítil bók, sem vakti óskifta athygli mína og aðdáun. Bók þessi er fyrirlestur próf. Haralds Níelssonar "Hvert komast má". Þar var sagt frá helztu æviatriðum konu, sem tveggja ára að aldri, misti bæði sjón, heyrn og mál, en tókst með aðstoð fágæts kennara, að læra að tala, ljúka háskólanámi, og geta sér góðan orðstír sem rithöfundur og skáld. — Kona þessi heitir Helen Keller, og er enn á lífi og á heima í Westport í Connecticut í Bandaríkjunum. Eg efast ekki um, að margir hér á landi hafi heyrt þessarar heimsfrægu konu getið og þekki talsvert æviferil hennar, því að nú á þessu ári hafa komið út á íslensku tvær ævisögur Helen Keller. "Ævisaga mín" í þýðingu Hólmfríðar Árnadóttur og "Sjálfsævisaga" í "Ritsafni kvenna". En aftur á móti efast eg um, að jafnmargir viti, að með okkar þjóð, á þessari öld, lifði kona, sem átti líkar raunir að rekja sem Helen Keller og var fágætum hæfileikum búin sem hún. Það er hún sem eg minnist hér í kvöld "Blinda stúlkan frá Kolmúla". Hún hét Málfríður Jónasdóttir, fædd 27. sept. 1910 að Hreinsstöðum á Fljótsdalshéraði í Norður Múlasýslu. Hún lést að heimili sínu Kolmúla við Reyðarfjörð 20. mars 1941, aðeins liðlega þrítug að aldri. Foreldrar Málfríðar voru hjónin Guðný Guðmundsdóttir og Jónas Benediktsson, bæði ættuð af Fljótsdalshéraði, og var hún elst fimm barna þeirra. Mjög snemma bar á því að Málfríður litla myndi óvenjulegum hæfileikum búin, næmi hennar, minni og handlægni, virtist frábær, eins og líka seinna varð raunin á. Foreldrar og aðrir ættingjar unnu henni mjög og gjörðu sér miklar vonir um hana. Snemma mun einnig hafa borið á því, að taugakerfi hennar væri fínbygt og viðkvæmt, eins og oft mun eiga sér stað með fólk sem er miklum listrænum hæfileikum gætt.



Níu ára að aldri flytst hún með foreldrum sínum að Vattarnesi við Reyðarfjörð, og sama ár missir hún bæði sjón og heyrn eftir hálfs árs þjáninga-

full veikindi. Heyrnina fékk hún þó nokkra aftur, en var þó heyrnarlítil mjög, uppfrá því. Og tvo síðustu árin, sem hún lifði, fór heyrn hennar sífelt minkandi svo að óttast var um, að hún yrði alveg heyrnarlaus á ný.

Eins og að líkum lætur var þetta þungt áfall henni og ættingjum hennar; fanst nú bæði foreldrum og öðrum vandmönnum, að útséð myndi um framtíð hennar. En er frá leið, og heyrnin kom aftur að nokkru, tók hún að læra sem önnur börn. (Þó auðvitað með öðrum hætti þar sem hún var nú algjörlega blind) og var svo fermd fjórtán ára með ágætis einkunn.

Engum dylst sem um það hugsar og til þekti, að um þessar mundir og einnig líka síðar, muni þeir, er næstir henni stóðu hafa lagt mikið á sig hennar vegna. Faðir og móðir, einkum móðirin, sátu löngum stundum og lásu fyrir og fræddu litlu blindu stúlkuna sína, sem nú var orðin þeim kærari en nokkru sinn fyr. Starf þeirra bar líka ríkulegan ávöxt, því að í engu mun dóttir þeirra hafa staðið að baki öðrum ungmennum á hennar aldri. Einnig gekk hún að öllum heimilisverkum sem sjáandi væri.

Hún dvelst nú heima að Vattarnesi og síðar að Kolmúla í sömu sveit, fram til tvítugs aldurs, eða þar til 1930 um haustið, að hún fer til Reykjavíkur á Málleysingja skólann og lærir þar vetrarlangt dönsku, og að notfæra sér blindra letur. Fyrir foreldrum hennar hafði lengi vakað, að hún kæmist á blindraskóla utanlands, og var í því skyni, sótt um styrk til Alþingis. Fyrir milligöngu góðra manna, svo sem þáverandi forsætisráðherra Tryggva Þórhallssonar, fræðslumálast. Ásgeirs Ásgeirssonar og forstöðukonu Málleysingjaskólans frú Margrétar Rasmus, fékst styrkur veittur til tveggja ára náms við Blindraskóla og heimili fyrir blindar stúlkur í Kaupmannahöfn. Vorið 1931 sigldi málfríður til Danmerkur og dvaldist við nefndan skóla í tvö ár og lærði vefnað og fleira. Í skólanum gat hún sér hinn besta orðstír, sem glegst má marka af því, að kenslukonur og aðrir vandamenn skólans, sýndu henni hina mestu vinsemd og umhyggju á meðan hún dvaldist þar og síðar með bréfa viðskiftum og gjöfum. Forstöðukona skólans kallaði hana "íslenska barnið sitt" og Málfríður kallaði hana sína "dönsku mömmu". Danmörk nefndi hún "sælulandið" og vildi ógjarna þaðan hverfa. En tvö árin liðu áður en varði, og styrkurinn þraut. Kom hún því heim um vorið 1933 og dvelst heima á Kolmúla sumarlangt, en hverfur til Reykjavíkur um haustið. Hún er full áhuga og vonar og hygst, að vinna mikið starf á vegum "Blindravinafélags Íslands", sem hún væntir sér aðstoðar frá. En hún átti ekki samleið með öðru blindu fólki, hún gat ekki sætt sig við, að binda bursta, prjóna grófa leista, eða vefa gólfklúta, slík vinna samræmdist ekki hennar listrænu höndum, og viðkvæmu fegurðarleitandi sál. Hún þráði altaf að komast til Danmerkur aftur. Þar hafði lærdóms þrá hennar sterk og flugfús fengið nokkurn byr undir vængi, og hana fýsti svo mjög, að læra meira. Dönsk náttúra hafði líka heillað hug hennar, Blóma ilmsins, og nærveru hinna yndislegu skóga, saknaði hún æ síðan.

Leið hennar lá eigi til Danmerkur aftur, þótt vinir hennar þar byðu henni, að koma, því að styrjöldin skall á og sundin lokuðust. Bæði blindrafélögin í Reykjavík og einstakir starfs-

menn þeirra, greiddu götu hennar á ýmsan hátt, en þrátt fyrir það, kýs hún þó, að hverfa til föðurhúsa aftur, og dvelst þar á meðan aldur endist, og þar verður það, að hún vinnur mikið og merkilegt starf.

Úr utanför sinni kom Málfríður með nokkuð af bókum með blindra letri, og síðar bætti hún stöðugt við þær. Auk dönskunnar, sem hún var vel að sér í, las hún norsku og sænsku, og einnig esperanto sér til gagns og gleði. Líka átti hún kenslubók í þýsku og var farin að kynna sér það mál. Skömmu áður en hún lést hafði hún keypt sér ritvél, og var komin vel á veg með að notfæra sér hana. Reikningsgáfu hafði hún með afbrigðum góða, reiknaði þung dæmi rétt og mun þó tæpast hafa verið búin, að læra almenn undirstöðuatriði reiknings, er hún níu ára gömul misti bæði sjón og heyrn. Líka undruðust margir, hvílíkt stálminni henni var gefið, og einnig, hve mikið hún vissi og kunni af sögum, ljóðum og alskyns fróðleik.

Málfríður var gædd óvenjulegu andans atgjörvi, ekki einungis næmi, skilningi og minni, heldur og, fágætum verklegum hæfileikum. Hygg eg, að á því sviði, muni hún hafa átt fáa sína líka, jafnvel þótt ekki væri tekið tillit til þess, að hún var blind. Ákjósanlegt væri, að geta birt skrá yfir alt, sem hún vann síðustu sjö árin heima í föðurgarði, en slíks er enginn kostur, þar sem munir þeir er hún vann, eru nú dreifðir, seldir eða gefnir, um alt land og einnig til Norðurlanda og Vesturheims.

Eg set hér ofurlítinn kafla úr bréfi móður hennar til mín. Þar er að finna allgóða greinargjörð, á hinum merkilegu vinnu afköstum hennar, en þó ekki líkt því nógu fullkomna. Móðir hennar segir: "Þú spyrð um vinnubrögð Fríðu dóttur okkar. Um þau get eg ekki sagt nákvæmlega, en þó er mér óhætt að fullyrða, að á meðan hún lagði aðallega fyrir sig, að vefa, handklæði, dregla og eldhús þurkur, óf hún tuttugu til tuttugu og fjóra vefi yfir árið, og reglan var, að hafa þá fimtíu metra langa. En síðustu árin er erfiðara gerðist að fá efni, og hún fór að vefa fjölþættara, svo sem bekk- og rúmábreiður, borð og kjóla dúka, sessuborð, gardínur og fleira, varð metrafjöldinn ekki eins mikill. Hún vann sjálf að öllu sem að vefnaðinum laut, svo sem rakningu og uppfestingu. Um prjónlesið er ekki heldur hægt að gefa neinar nákvæmar upplýsingar, en það voru, að öllum fanst, mestu undur, hverju hún afkastaði, bæði fyrir heimilið og það, sem hún seldi og gaf og prjónaði fyrir aðra, mikið af þessu var alskonar karla-, kvenna- og barnafatnaður, svo sem kjólar, pils, vesti og peysur alskonar, einnig slæður, sjöl og dúkar með margvíslegu útprjóni. Hún átti mikið af vefnaðar- og hannyrða bókum fyrir blint fólk."

Þannig hljóðar frásögn móður hennar, en þar með er ekki hálfsögð sagan, aðeins lauslegt yfirlit þess, hve miklu hún kom í verk, en ekkert á það minst, með hvaða snildarbrag alt var af hendi leyst, en það var einmitt það, sem vakti undrun og aðdáun svo margra. Hitt vissu færri, að hún var afkastamesta manneskja sveitarinnar, og þó víðar væri leitað.

Jakobína Johnson skáldkona og fleiri merkir Vestur-Íslendingar er hér voru á ferð sumarið 1935, dáðu mjög handbragð hennar, og keyptu hluti af henni til minja. Vinkonum mínum

vestan hafs, sendi eg dúka og fleira eftir hana. Ein þeirra sagði: "Eg horfði á dúkinn, ekki laus við blygðun, og spurði sjálfa mig: "Mun eg ekki hafa grafið pund mitt í jörðu, fyrst blind stúlka úti á Íslandi getur annað eins og þetta?" Önnur vildi láta safna saman verkum hennar og hafa til sýnis utan lands og innan.

Það vakti mér löngum undrun og aðdáun, að Málfríður, svo ung og sorglega fötluð, virtist hafa numið til fulls, þá gullnu reglu, að alt sem er á annað borð virði þess, að það sé unnið er líka þess virði, að það sé vel gert. Af öllu merkilegu í fari hennar fanst mér þetta einna dásamlegast, og hefir það vafalaust átt rót sína í því, hve fegurðarsmekkur hennar var hreinn og djúpur. Það speglaðist í verkum hennar og allri framkomu, enda átti hún marga vini og aðdáendur, bæði íslenska og danska og hafði yndi af samræðum og bréfaskriftum við þá. Góðar bækur voru líka eitthvert mesta yndi hennar.

Glaðlynd og kímin var Málfríður að eðlisfari, þótt hins vegar bæri stundum á því, að hún ætti sínar angurstundir, fyndist hún afskift. — Það er skiljanlegt, því sárt svíður í undinni þeirri, að fá eigi notið sín, og því meir, sem hæfileikar eru meiri og skapgerð stórbrotnari. Glaðværð og fyndni tók hún ævinlega með þökkum, og mat vel, ef einhver kom hnyttilega fyrir sig orði, enda var henni sjálfri það lagið bæði í bundnu og óbundnu máli. Í bréfum hennar til foreldranna, er hún dvaldist í Reykjavík og Kaupmannahöfn, finnast víða glögg, rithöfundar einkenni, stíllinn oft þróttmikill og ber vitni um innsæi og þjálfaða hugsun. Að vísu kveður þar stundum við, djúpur tregatónn, vængstýfðrar sálar, en svo ómar þar einnig glaður söngur, vonar og vissu, eins og eftirfarandi vísa hennar sýnir.

Hryggur gerist hugurinn,
hrynja borgir skýja.
Aðra leið eg eflaust finn,
inn á brautu nýja.

Hún var vel hagmælt og orti sér til hugarhægðar, en mun lítið hafa haldið saman því sem hún kvað.

Hún bar mjög gott skyn á allan skáldskap, og unni mjög fögrum ljóðum, sem hún kunni ótrúlega mikið af.

Við ræddum eilífðar málin, einnig á því sviði dáði eg þroska hennar, sannleiksþrá og víðsýni. Hin dapra þunga reynsla, sem henni var ásköpuð svo ungri, mun snemma hafa beint hug hennar, inn á nýjar, alvarlegar brautir. Hún þráði skygni á rök og reginþáttu lífsins. Hún hugðist finna raunveruleikann á bak við bókstafinn. Þess vegna hneigðist hugur hennar til guðspeki og jafnvel dulspekilegra fræða, og þar mun hún oft hafa fundið hin þráðu svör.

Eg hugsa um blindu vinstúlkuna mína látnu, og finn, að hún er ein merkasta samferðakonan á minni lífsleið. En, tók unga fólkið, jafnaldrar hennar, nokkurntímann eftir því, hvílík fyrirmynd hún var, í þolgæði, iðni og vandvirkni? Eg veit það ekki, en eg vona og hygg, að svo hafi verið, því, að slík sál sem hennar hlýtur ævinlega, að auðga samtíð sína af meiri eða minni verðmætum. Aðeins það, að vita af henni í nágrenninu, slíkum hæfileikum gædda, og sístarfandi, var mér ósegjanleg uppörvun og yndi. Mér fanst það gefa lífinu meira gildi, lyfta því upp í æðra veldi. Það er því eigi

ótrúlegt, þótt hún yrði mér og öllum öðrum sem kynni höfðu af henni, harmdauði, svo ung sem hún var og vaxandi.

Eg minnist ógleymanlegra stunda, er við móðir hennar sátum í litlu stofunni heima á Kolmúla og töluðum um "Fríðu", lásum kafla úr bréfum hennar, og skoðuðum fögur handaverk hennar. Eg varð gripin aðdáun, hrifningu, á mannsandanum, hvers hann er megnugur, þrátt fyrir allar þrengingar. Eg hefst yfir hversdagsleikann, það er sem eg leggi leið mína um blómgaðan aldingarð, altekin lotningu yfir dásemdum tilverunnar.

Málfríður var fríð sýnum fremur há og grannvaxin, framgangan djarfleg og með fyrirmensku brag, þótt sjónarinnar væri vant. Mun henni á ýmsan hátt hafa svipað til föður- og móðurömmu, sem báðar voru fríðar sýnum, og hagleiks konur.

Að Málfríði látinni gáfu foreldrar hennar, bókasafn hennar, sem orðið var talsvert að vöxtum, til "Blindrafélagsins" í Reykjavík, og var með því bókasafni, og nokkru fjárframlagi, stofnaður sjóður er ber nafnið "Minningarsjóður Málfríðar Jónasdóttur". — Tilgangur sjóðsins er sá, að varðveita og auka við nefnt bókasafn, og greiða öllum blindum mönnum á Íslandi sem greiðastan aðgang að því. Í upphafi þessa erindis var talað um, að Helen Keller hin ameríska hefði haft fágætan kennara, en íslenska "Helen Keller" átti fágæta foreldra, fágæta að þolgæði, umönnun og ástríki. Ef allir íslenskir uppalendur legðu slíka rækt við æskuna, sem Kolmúla hjónin við blinda gáfaða barnið sitt, myndu, er tímar líða, æðri sem lægri sæti þessa þjóðfélags vel skipast, og hinn eini æskilegi gróandi þjóðlífsins dafna, gróandi manndóms og þroska.

Að lokum óska eg þess af heilum hug, að þessi minningarorð mættu verða alþingi og ríkisstjórn áminning og hvöt til þess, að efla starfskrafta Blindrafélaga Íslands og annara líknarfélaga. — Eg vænti þess einnig, að samúð og skilningur almennings, á kjörum þeirra sem vanheilir eru, og þarfnast sérstakrar umhyggju, fari vaxandi. — Lífssaga "blindu stúlkunnar frá Kolmúla", sýnir, hvílíkir gimsteinar leynast stundum, hjá olnbogabörnunum eða þeim, sem við erfiðust skilyrði búa, ef vandlega er leitað og að er hlúð.

Áður en eg lýk máli mínu, vil eg, þakka og minna á, hið fagra fordæmi frú Unnar Ólafsdóttur, er hún nýlega gaf til "Blindrafélaganna" hér á landi, yfir þrjátíu þúsundir króna. Slíks höfðingsskapar er okkur öllum gott að minnast sem oftast.

**Athugasemd:**

Ritstjóri Tímaritsins vildi ekki neita þessu ágæta útvarpserindi upptöku, enda þótt það sé stílað til og eigi einkum erindi til heimaþjóðarinnar, að því er snertir blindra kenslu og fjárframlög til þeirrar starfsemi. Höfundurinn er fyrverandi Vestur-Íslendingur, en er nú búsett á föðurlandinu. Ritstj.

# Hugleiðingar út af afmæli

Gjarna hefði eg viljað leggja orð í belg til að árna vini mínum Guttormi J. Guttormssyni allra heilla á sjötíu ára afmælisdegi hans í vetur og þakka honum nærri hálfrar aldar vináttu, gestrisni og bókmentalega aðstoð, og þó einkum fyrir þann ljóma er hann hefir kastað yfir landamæralausan Dimmadal vestur-íslensks þjóðlífs, ásamt reyndar svo mörgum öðrum — lífs og liðnum. En þess gafst mér enginn kostur. Reyndar var það víst happ, því auk þess aragrúa, sem þar "vitnaði" — tuttugu og fimm eða fleiri — voru sjálfsagt enn fleiri, sem eins mikið tilkall, eða meira, áttu til þess og eg, en komust eigi heldur að.



Auðvitað gladdist eg með glöðum og naut í fylsta mæli gestrisni bæjar- og bygðarbúa.

En eftir því sem á leið daginn var smám saman að skýrast í huga mínum gömul saga, er eg las fyrir fjörutíu árum, og höfð var eftir Bandaríkja fréttaritara, sem átti að hafa heimsótt enska skáldið Rudyard Kipling. Hann kvaðst hafa spurt Kipling að því meðal annars, hversvegna hans kvæði nyti ekki eins almennrar hylli og kvæði sumra minni háttar skálda, hvort það stafaði af því, að fá eða engin af kvæðum hans væru prentuð í lesbókum alþýðuskólanna. Kipling svaraði á þá leið, að beinasti og fljótasti vegurinn til að tapa hylli alþýðu manna væri einmitt sá, að leyfa upptöku kvæðanna í barnaskóla lesbækur. Lítt þroskaðir unglingar væru pískaðir til að lesa og læra utanbóknar eitthvað, sem þeir hefðu lítinn skilning á og enn síður væri þeim hugleikið. Eftir því væri svo höfundurinn dæmdur. Hann gaf sem dæmi eitt kvæði, sem einhvern veginn hefði slæðst inn í barnaskóla lesbók. Það héti "Ef", og væri nokkurs konar uppeldis prédikun í ljóðformi.* Síðan héldi allur þorri unglinga, að þetta væri eina kvæðið, sem hann hefði ort, eða að minsta kosti það besta, og hefði svo auðvitað enga forvitni að kynnast sér ítarlegar. Niðurstaðan yrði svo vanalega sú, að nálega hvert einasta skáld, undir samskonar kringum-

---

* Þetta varð til þess, að eg þýddi kvæðið þá þegar, og er það prentað á bls. 195 í kverinu "Farfuglar". Síðan hefi eg séð fjórar eða fimm þýðingar af sama kvæði eftir ýmsa höfunda, heima og hér vestra.

stæðum, yrði þekt af einu sérstöku kvæði, og þá oftast ekki af besta tæinu.

Og þarna sem eg sat datt mér í hug, aftur og aftur, að líkt stæði á fyrir mörgum Íslendingi. Í langa tíð var St. G. Stephansson nærri eingöngu kunnur fyrir "Þótt þú langförull legðir", eða jafnvel fyrir tvær línur úr því kvæði: "Nóttlaus voraldar veröld, þar sem víðsýnið skín", sem allir spertust við að skrækja, í ýmiskonar tóntegundum og stundum af litlum skilningi; Hannes Hafstein fyrir "Á Kaldadal", sem hann sjálfur gerði gys að síðar og þótti lítið til koma, Matthías Jochumsson og Sveinbjörn Sveinbjörnsson fyrir kvæðið og lagið "Ó Guð vors lands", sem er fjarri því að vera það besta, er hvor um sig gerði; og svona mætti lengi telja.

Og eftir því sem eg hlustaði lengur fanst mér að Guttormur væri að verða, ef ekki orðinn, að eins-kvæðis-manni, eins og Kipling, Stefán og Sveinbjörn, et al. En hann var tiltölulega heppinn, því eitt af hans bestu kvæðum olli teningskastinu: "Sandy Bar". Kvæðið er auðvitað listaverk. Sorgaratburður liðinnar tíðar varð að hleðslu í huga skáldsins, er brautst út í þessum magni þrungna óð, sem jafnframt varð svo lánsamur, að eignast sameiginlega hljómgrunn í hugum almennings. En að fullyrða, að það sé besta kvæði Guttorms, eða það eina besta, er að syndga á móti öllum lögum listar og fegurðar. Hann á mörg önnur kvæði, sem eg, fyrir mitt leyti, gæti ekki hugsað mér ort á neinn annan hátt, til þess að vera heilsteypt listaverk.

Annars er þetta **"besta"** hættulegt hugtak, og oft á tíðum meiningarlítið, sem sjá má meðal annars á mörgum bókartitlum: "Hundrað bestu kvæði", "Fimmtíu bestu lög", "Bestu smásögur í heimi", o. s. frv. Eg hefi haft undir hendi og á margar þesskonar bækur, og hefi enn ekki getað fundið hvar merkjalínan liggur í milli hins besta og næstbesta, eða jafnvel hins besta og hins versta. Þessháttar alt verður að fara eftir hvers eins smekk og skilningsþroska. Og eitt er víst, að höfundunum kemur ekki ávalt saman við þessa "úrvals" menn.

Oft heyrir maður talað um dularfull fyrirbrigði, og er þá vanalega reynt að skýra fyrir mönnum í hverju þau eru fólgin. En enginn hefir enn reynt að skýra, svo eg hafi heyrt, það dularfylsta fyrirbrigði, hvernig skáld verður til. Við þekkjum allir söguna um mjöðinn í okkar fornhelgu bók. "Og orðið varð hold", segir guðspjallið. En á undan orðinu hlýtur að hafa verið hugsun. Orðið er ávöxtur hugsunarinnar. Fáeinir öreiga Íslendingar fara út í óbygðir. Við það myndaðist Nýja Ísland. Svo einn góðan veðurdag slær niður ósýnilegri eldingu á bökkum fljótsins, og þá fæðist skáld.

Eftir vanalegri yfirsýn virtist svo í haginn búið, að öll spilin væri stokkuð á móti Guttormi, en hann varð skáld samt af því að hann gat ekki annað.

Ef orðin **hljóð** og **ljóð** eru af sama uppruna, þá fallast þau í faðma hjá Guttormi. Eg veit ekki hve snemma hann fór að yrkja ljóð, en hitt veit eg að ungur fór hann að iðka hljóðlistina. Hann stjórnaði hornleikaraflokki snemma og blés á horn af þvílíku kappi, að einn páskadagsmorgunn, er hann kom út snemmendis, sá hann sólina dansa. Hvað sem hann kann að hafa hugsað, þá sá læknirinn orsökina og harðbannaði honum að fylgja dæmi Arons og annara hornablástrara. En

upp frá þeim degi fór hann að iðka ljóðlistina fyrir alvöru, og út úr því völundarhúsi á enginn afturkvæmt, sem einu sinni hefir látið ginnast inn fyrir dyrnar.

G. J.

# Símon á staurnum

Ríma með skýringum

---

Ein af hinum fáránlegustu fyrirbrigðum meðal meinlætamanna Miðalda-kristninnar voru hinir svonefndu Staursetar (Stylites eða Pillar Saints). Frægastur þeirra var Símon hinn Sýrlenski. Hann lifði ströngu munk-lífi í fyrstu, en er það fullnægði honum ekki lengur, lét hann reisa sér stólpa með örlitlum húskofa á toppnum. Smámsaman fékk hann sér hærri og hærri stólpa, þangað til sá síðasti var talinn um 60 fet á hæð. Í þessa staursetu eyddi hann 37 árum ævinnar. Eru margar sögur um iðrunar og reiðiprédikanir hans og kraftaverk. Þusti til hans fólk úr öllum löndum heims. Tennyson orti um hann stórt kvæði og leggur aðal áhersluna á meinlætalifnaðinn, syndahrellinguna og sjálfsvítin, sem sjá má af þessu upphafi:

Þó eg sé lægsta mannkvikindi á mold,
frá tám að hvirfli síki af syndum fylt,
himni og jörð ei hæfur — jafnvel ei
sem djöflafæða, allri andstygð krýnd —
eg skal ei hætta að halda sterkri von
um helgun, ef eg hrópa, sýti og græt,
og ký á himins hlið í ofsabæn:
Miskuna drottinn! Syndum svift á brott!

Höfundur þessara vísna hefir altaf haldið, að á bak við sjálfshirtinguna og strangleikann, og yfirborðs auðmýkt þessara staurdýrðlinga hafi falist ekki svo lítið af auglýsingaskrumi kynjalyfjasalanna og sápukassa prédikara vorra tíma; og með það í huga er ríman kveðin.

## RÍMAN

Helgra manna ei um of
óska eg hróður klingi;
sæmir þó að syngja lof
Símoni staur-dýrð-lingi.

Meðan gegnum mold og aur
múgans tróðu fætur,
aleinn sat hann upp á staur
alla daga og nætur.

Hann var kannske í húsa þröng –
í hinsta fokið skjólið.
Engin fjörug faldaspöng
fékst til verma bólið.

Líka af reynslu sinni hann sá,
svo sem fleiri kanna:
Hærri tign er hægra að ná
höfðum ofar manna.

Hann var ekki þó að þrá
þegna, lönd né aura,
en hugðarefnið helsta að fá
hærri og betri staura.

Að hann hafi reiknað rétt,
rakleitt sýndu merkin:
Hærri staur með hærri stétt
hreif á kraftaverkin.

Eins og hrafn á bæjarbust
brýndi hann sífelt gogginn,
og í krepju og kuldagust
kvað hann sálma rogginn.

Þegar lýðsins sarg og suð
svall á jöfri stólpna,
hrópaði hann á góðan guð,
að gera þá alla hólpna.

Þó var altaf inní lætt
eitri hugarvílsins.
Djöfull hverri gein í gætt –
gleypti vonir skrílsins.

Úr sér hýddi 'ann æ og sí
allar kendir fýsnar.
Yndi helsta hann af því
hafði, að tína lýsnar.

Þær voru skepnur skaparans,
skyldar manna börnum,
gjörðar til að gæta hans –
gæddar synda vörnum.

Hann í miskunn fjöldans fann
fæðu og gnótt af klæðum.
Það var alt, sem þáði hann
þessa heims af gæðum.

Símon eins og aðrir dó
eftir setu langa.
Arðinn af hans ævi þó
engum tókst að fanga.

Afturhvarf og ytri hót
ekki lengi standa;
því varð öll hans eymda bót
endaslepp að vanda.

Hækju frá sér haltur brá,
hallaðist upp að þili;
daufur heyrði, sjónsljór sá –
svona rétt í bili.

Ef til vill þó einhver fann
óræk batamerki.
Laxermeðal löngum vann
líkast kraftaverki.

Eftir lífsins arg og þras,
ef að getum lætur,
kannske hefir gróið gras
grænna um staursins fætur.

X.

# Tuttugasta og níunda ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi

var sett í Góðtemplarahúsinu, í Winnipeg, kl. 10 fyrir hádegi þann 23. febrúar, 1948. Þingið var fjölsótt bæði af fólki héðan úr borginni og af fulltrúum og gestum.

Í fjarveru forsetans, sem dvaldi á Íslandi, skipaði vara-forsetinn séra Philip Pétursson forsæti.

Þingið hófst með því að séra Rúnólfur Marteinsson las biblíukafla en þá var sálmurinn nr. 182, í sálmabókinni sunginn, "Lát þitt ríki ljóssins herra . . . ." Þá flutti séra Rúnólfur einkar hjartnæma bæn en á eftir var sálmurinn nr. 23, "Faðir andanna" sunginn.

Þá las ritarinn þingboðið eins og það var prentað í blöðunum. Að því loknu las forsetinn ávarp sitt. Byrjaði hann ávarp sitt með því að lesa heillaóskabréf frá forseta félagsins, séra Valdimar J. Eylands. Var skýrsla varaforsetans hin greinilegasta og fróðlegasta, og var vel tekið af þingheimi.

## ÁVARP FORSETA

Háttvirtu fulltrúar og gestir:

Ávarp þetta, sem eg flyt ykkur í dag, við setningu þessa þings, hins 29. ársþings Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi, verður hvorki langt né margbrotið, — en þó verð eg að gera dálitla grein fyrir starfinu á árinu. Með lestri bréfsins frá forseta félagsins, hefi eg flutt þinginu kveðju hans. Eg veit að hugur hans leitar til okkar í dag, er hann hugsar hingað, — alveg eins og hugur okkar beinist til hans á Íslandi, þar sem hann hefir dvalið þessa síðustu sjö mánuði, og dvelur að mér skilst, fjóra eða fimm mánuði enn. Við söknum hans á þessu þingi, og ekki síst eg, sem verð, sem vara-forseti félagsins, að stíga í forsetastólinn, og láta sem eg væri forseti, og þurfa að vinna öll þau erfiðu verk, og ábyrgðarfullu, sem forsetinn vinnur altaf á þessum þingum okkar, í stað þess að mega sitja í rólegheitum einhversstaðar í þingsalnum, sem vara-forseti, og engar áhyggjur hafa. Eg vona að allir þingmenn, fulltrúar og gestir, taki saman höndum til að hjálpa við að gera mér þessi störf sem léttust, og þægilegust, að allir vinni saman, sem ein heild til að afgreiða mál þingsins sem best, og á þann hátt sem hæfir mönnum, sem bera hag íslenska þjóðarbrotsins hér vestra fyrir brjósti. Mönnum veitist tækifæri, og eg vona að þeir noti sér það, að ræða málin sem liggja fyrir, rækilega og vel, en eg vona að þeir geri það í anda bræðralags og góðs skilnings, þó að þeir séu ekki sammála í hverju einasta atriði. Með þeim hætti komumst við að þeim niðurstöðum og samþyktum í málum okkar og verkum, sem verða okkur hagkvæmastar og bestar og sem hrinda málum okkar og stefnum vel á leið.

Við komum hér saman, sem Íslendingar, sem menn og konur af hinu sama þjóðarbroti, með sameiginlegan uppruna og arfleifð, til að halda þing, til að ræða mál sem oss varða, til að gera samþyktir og ráðstafanir, og yfirleitt að leggja grundvöll að þjóðararfi hér í þessu landi, sem verður veglegt minningarmerki íslenska þjóðarbrotsins og afkomendum þess sem hér búa. Þessu starfi hefir verið haldið uppi nú, í þessari mynd undanfarin tuttugu og átta ár. Á þeim tíma hafa orðið margar breytingar innan félagsins, margar framkvæmdir, og mörgum mörkum náð. Á því tímabili, þó stutt sé, tiltölulega, hefir félagið lifað í gegnum margt, og meðlimir þess reynt margt, auðsældarár, kreppuár, stríð og dýrtíð. — Á hverju ári hefir félagatalan fækkað, er sumir féllu frá, vinir og meðlimir, sem vér minnumst altaf með kærleika og þakklæti. Og enn, er vér komum saman nú, á þetta þing, eru nokkrir horfnir, sem voru með okkur hér í fyrra, eða sem skipuðu sæti í einhverri deildinni, út um bygðir. Vér minnumst þeirra, nú, með þakklæti og kærleika, og biðjum guð að blessa þá og minningu þeirra og starf þeirra í þágu þeirra mála sem þeir unnu mest.

Meðal þeirra sem horfið hafa, og sem vér minnumst nú, eru: Halli Gíslason, Mountain,

N. Dak.; B. Eastman, Akra, N. Dak.; Wm. Benedictson, Mountain, N. Dak.; Thorbergur Thorvardarson, Cavalier, N. Dak.; Dr. Ágúst Blöndal, Winnipeg, Man.; Miss Ingibjörg Bjarnason, Winnipeg, Man.; Loftur Mathews, Winnipeg, Man.; Guðmundur Lambertsen, Glenboro, Man.; Ásgeir Ingimundarson Blöndal, Reykjavík, Ísland; Mrs. Guðrún Johnson, Rugby, N. Dak.; Próf. Thomas Thorleifsson, Grand Forks, N. Dak.

En svo eru líka altaf nýir að bætast við, og fylla skarðið sem hinir fráföllnu hafa gert í félagahópinn, þó að þau skörð verði aldrei fylt að fullu, né bætt upp. En með hjálp og aðstoð margra góðra manna og kvenna lifir félagið og dafnar, og færist fram á braut, til enn meiri og nýrri framkvæmda.

Á liðnum árum hefir mörgu marki verið náð. Gaman væri að telja þau upp, en tími leyfir ekki. Og ekki er þess heldur þörf því önnur takmörk hafa verið sett, er hinum gömlu var náð sem vér verðum nú að keppa að, í stað þess að líta um öxl, að því sem liðið er. Liðin saga er búin saga. Vér bætum engu inn í hana. En saga framtíðarinnar er enn í tilúningi, og er það verk okkar, ekki að fullgera hana, en að fylla inn nokkra kafla, sem enn er ekki búið að ganga frá að fullu.

Eg vil drepa á eitthvað af því sem gerst hefir, og fara örfáum orðum um það sem framundan er, það sem enn bíður framkvæmdar og vísa því síðan til þingsins til ráðstöfunar og fullkomnunar, og hvetja þingheim til starfs á þeim grundvelli sem hann bendir til.

Eins og menn vita, og eins og eg mintist á, fór forseti félagsins séra Valdimar J. Eylands, heim til Íslands s. l. sumar til ársdvalar þar og unir sér þar vel, eins og bréf hans bendir til. Sem vara-forseti tók eg stjórn nefndarinnar að mér, og með hjálp nefndarmanna, hefir tekist að halda nokkra fundi og að afgreiða sum efni, sem lágu fyrir, en eg er hræddur um að æði margt liggi enn fyrir sem þingið verður að taka upp og ræða, og gera samþyktir um.

Eitt sem forsetinn var búinn að sjá um og ráðstafa, áður en hann fór heim til Íslands, var það, að ráða umboðsmann í fræðslumálastarfsemi, sem átti að verða íslensku kenslu tilraunum hér í Winnipeg að liði, og að stofna eða að endurreisa skóla og félög út um landsbygðir, þar sem engir skólar voru, eða starfið lagst niður. Nefndinni tókst að ráða Mrs. Hólmfríði Danielson, sem hefir unnið að þessu verki með miklu kappi, af mikilli alúð, og með aðdáanlegum dugnaði og áhuga. Hún hefir gert sér þrjár ferðir til Riverton, og sex til Gimli, til Lundar þrisvar, og Glenboro, Baldur, Árborg og Víðir, einu sinni, auk þess að vera hjálpsöm hér í Winnipeg, þar sem Mrs. Ingibjörg Jónsson er formaður skólans og hefir rekið hann með frábærri alúð og samviskusemi, eins og kennararnir allir hafa gert, sem hafa tekið þessa kenslu að sér. Mrs. Danielson kemur inn á þing seinna með skýrslu, en eg vil aðeins bæta því við, að hún hefir stofnað, auk skólanna á Gimli og Riverton, "Study Clubs" á báðum stöðum meðal fullorðinna, sem hafa tekist með afbrigðum. Auk þess hefir hún verið í stöðugum bréfaviðskiftum við fólk á þessum fyrnefndu stöðum, og fleirum, jafnvel við deildina í Seattle á vesturströndinni. Eg vil þakka Mrs. Danielson fyrir þetta ágæta starf hennar, og veit að þingheimur tekur undir með mér er hann heyrir skýrslu hennar.

Einnig vildi eg þakka öllum kennurum út um bygðir, sem hafa tekið þetta fræðsluverk að sér, og svo vil eg líka, síðast en alls ekki sízt, þakka Mrs. Ingibjörgu Jónsson, og meðkennurum hennar hér í Winnipeg fyrir skólarekstur hennar. Eg vona að oss takist að viðurkenna starf þeirra allra á einhvern góðan og viðeigandi hátt seinna. Þeir eiga það allir marg skilið, þó að þeir verði fyrir hnútu kasti af og til frá mönnum sem ekki fylgjast með og ekki vita hvað er að gerast.

**Agnes Sigurðsson námssjóður**

Eins og kunnugt er, er Miss Agnes Sigurðsson enn við nám austur í New York, og gerir ráð fyrir að vera svo búin að fullkomna sig í sumar, að hún geti komið fram í hljómlista höllinni miklu í New York, Carnegie Hall. Auk þess hefir hún ráðgert að fara ferð til Íslands, en þó helst til Reykjavíkur, til þess að Íslendingum heima veitist tækifæri að njóta hljómlistar fegurðar og hæfileika hennar.

En til þessa tveggja fyrirtækja, og til undirbúnings til þeirra, auk námsins sem eftir er,

þarf fé, sem nú er alt útrunnið, sem safnað var í námssjóð hennar. Það væri leiðinlegt að hugsa til þess, að Agnes Sigurðsson yrði að hætta við framhaldsnámið vegna fjárskorts. Eg vona að þetta mál verði tekið til athugunar á þessu þingi, því eins og menn vita, er Miss Sigurðsson einstökum hæfileikum gædd, og Íslendingum til heiðurs og stórsóma.

**Byggingarmál**

Milliþinganefnd var sett á þinginu í fyrra til að rannsaka byggingarmálið, sem hreyft hefir verið á ýmsum þingum undanfarin ár og kemur sú nefnd með skýrslu á þessu þingi. Næstum því frá því að Þjóðræknisfélagið var stofnað hefir þetta mál verið á dagskrá félagsins. Og svo fyrir tveimur árum var komið aftur inn á þing með málið og tillaga borin fram um að skipa nefnd til að athuga málið og semja skýrslu. Álit nefndarinnar var borið fram í fyrra, og önnur nefnd var skipuð. Sú nefnd hefir haldið nokkra fundi, og mér skilst er nú tilbúin að leggja fyrir þingið ályktun sína um málið, sem hún gerir seinna. Formaður nefndarinnar er Páll Bardal.

**Minjasafn**

Byggingarmálið og minjasafns málið bland ast saman í huga mínum og finst mér að nokkru leyti þau mál eiga saman.

Undanfarin ár hefir minjasafnsnefnd verið starfandi og tekið á móti nokkrum gripum sem hafa verið sendir henni. Í tuttugasta og fyrsta árgangi Tímaritsins, á blaðsíðu 103, í þingtíðindunum, er listi prentaður yfir þá muni, sem hafa komið inn. Alls eru sjötíu mismunandi hlutir nefndir.

Ekki man eg eftir að nein skýrsla hafi komið nýlega um hvað þessum munum líður né heldur um nokkrar ráðagerðir um þá. Forseti félagsins mintist minjasafnisins á þinginu í fyrra, og nú ætti það að vera rækilega tekið til íhugunar og ráðstöfunar. Eignir félagsins fjölga ár frá ári, eins og t. d. skjöl þau er voru send félaginu á tuttugu og fimm ára afmæli þess frá stjórn Íslands og frá Þjóðræknisfélaginu í Reykjavík, og kertastjakinn, sem myndin er af í Tímaritinu sem kemur út nú í dag eða á morgun, gefin Þjóðræknisfélaginu til minningar um Íslandsferð Dr. Richard Beck 1944, af Ungmennafélagi Íslands, höfðinglegasta gjöf. Komið verður með þann kertastjaka seinna inn á þing. Og svo er ýmislegt fleira. Það er ekki nóg að forseti eða ritari eða skjalavörður eða einhver annar nefndarmannanna taki þessa hluti og leggi þá einhverstaðar upp á hillu þar sem þeir safna ryki, og engum félagsmönnum veitt tækifæri að sjá eða skoða þá. Þetta er vanræksla sem einhvern veginn ætti að rætast úr, bæði í sambandi við þessar eignir og minjagripina hina.

**Minnisvarðamálið**

Haldið hefir verið áfram með hugmyndina um minnisvarða til minningar um skáldið J. Magnús Bjarnason síðan á síðasta þingi, með þeim árangri að félagið, sem aðallega hefir staðið fyrir því, kvenfélagið í Elfros, Sask., með aðstoð og hjálp tveggja manna sem eru nú, þetta ár, erindsrekar á þingið, Rósmundur Árnason og Páll Guðmundsson, hefir tekist að safna meira en átta hundruð dollurum ($800.00). Þeir, þessir menn, koma með skýrslu inn á þingið og flytja þar mál sitt, um hvað gert hefir verið og hvað væntanlega verði gert til að minnast skáldsins góðkunna á viðeigandi hátt.

Í fyrra í forseta skýrslunni var Leifs styttunnar minst sem þá hafði legið í geymslu en sem átti að reisa í Washington, D. C. Guðmundur Grímson hafði málið með höndum, og hafði hann falið hr. Ásmundi P. Jóhannssyni að gefa skýrslu um það, en mér er ekki kunnugt um hvernig það fór. Ef ekki er enn búið að ganga frá því væri gott að fá einhverjar skýringar hér um það á þessu þingi.

**Háskólamálið**

Eitt af málum félagsins sem rætt hefir verið um, og samþyktir gerðar um, frá því að félagið hóf starf sitt, er Háskólakenslumálið, það er, stofnun kenslu í íslensku og íslenskum fræðum á Manitoba háskóla. Forseti félagsins skýrði frá því í fyrra í skýrslu sinni. Hann mintist þess, að þingið frá árinu áður hefði falið stjórnarnefndinni **"að ljá því máli lið sitt á hvern þann hátt, sem henni er unt"**. Hann gat þess einnig að þriggja manna nefnd hafði verið sett af stjórnarnefndinni til að vinna með öðrum sem höfðu þetta mál með höndum. Samþyktir í þessu máli voru gerðar mjög snemma í sögu Þjóðræknisfélagsins og

hefir því verið hreyft á fundum félagsins af og til síðan.

Eins og forsetinn mintist í fyrra, er þetta eitt allra stærsta málið, sem Þjóðræknisfélagið hefir á dagskrá sinni. Nokkrar veigamiklar framkvæmdir hafa orðið í því, eins og skýrsla, sem seinna verður lesin af Dr. Thorlákssyni, mun sýna, og eg vona að þingheimur veiti þeirri skýrslu og tillögum, sem henni munu fylgja, góða eftirtekt.

Þetta mál, að mínum dómi, er eitt af þeim málum sem eg mintist í byrjun orða minna, sem, er tímar líða, getur orðið, ef að því er framfylgt, eitt af hinum ágætustu minningarmerkjum vor Íslendinga hér í Vestur Canada, og tákn þess, að þó að vér séum tiltölulega lítið þjóðarbrot af einni af hinum minstu þjóðum (að fólksfjölda) heimsins, þá höfum vér verið það framtaksmeiri og framsýnni en nokkuð annað þjóðarbrot hér vestra, og með þeim góða skilningi á menningargildi tungu vorrar og sögu hennar, og því tillagi, sem hún getur lagt til menningar þessarar þjóðar, að vér vildum með góðum hug og vilja, leggja á oss þá ábyrgð, að stofna höfuðstól nógu stóran til þess að geta stofnað kennara embætti á háskóla þessa fylkis. Það verður, á þessu þingi annaðhvort að duga eða að drepast, að samþykkja það, sem hefir þegar verið gert, og ákveða enn meiri framkvæmdir, eða að gera enda á þessu máli sem hefir verið á dagskrá félagsins öll þessi ár, og nota tímann til að hugsa og ræða um eitthvað annað. Stjórnarnefndin hefir afráðið að biðja Dr. Thorlákson, sem hefir verið kosinn formaður þeirrar nefndar, sem þetta mál hefir með höndum, að bera fram skýrslu hér á þessu þingi, þriðjudaginn kl. 2, sem hann hefir lofast til að gera.

### Útgáfumál

Um útgáfumál félagsins er ekki annað að segja, en að tímaritið sem hr. Gísli Johnson, fyrv. prentsmiðjustjóri, er ritstjóri að, er með sömu ágætum að innihaldi og frágangi og áður. Undir stjórn hans hefir ritið verið óaðfinnanlegt, og skipað háan sess meðal tímarita af hinu sama tæi. Árgangarnir sem hann hefir séð um og gefið út jafnast á við hina bestu, sem áður hafa komið og eru auðugur fjársjóður fróðleiks og vitneskju um okkur Vestur-Íslendinga og mál vor. Það er ekki lítil þakklætisskuld sem Þjóðræknisfélagið stendur í við hann fyrir þetta sem hefir eins oft verið vanþakkað eins og hitt.

Um sögu Íslendinga í Vesturheimi er ekkert að segja. Hún stendur í sama stað og í fyrra. Þrjú hefti eru komin, og það er orðinn stans á því máli. — Það getur verið að ritari nefndarinnar komi með skýrslu inn á þingið en ef ekki, þá er ekkert meira í bili um það mál að segja.

### Samsæti

Níunda janúar mánaðar, eins og kunnugt er, hélt Þjóðræknisnefndin með styrk og aðstoð annara félaga, góðtemplara, deildarinnar Frón, o. s. frv., Dr. Sigurði Júlíusi Jóhannessyni samsæti og fagnaðarmót í tilefni af áttugasta afmæli hans. Samsætið fór fram í Fyrstu lútersku kirkju á Victor St., og voru á fjórða hundrað gestir þar staddir til að fagna hinum góða og vinsæla lækni. Það fagnaðarmót er flestum enn í fersku minni, enda fluttu blöðin fréttir um það og þarf því ekki að orðlengja um það hér, að öðru leyti en því, að láta í ljósi hina miklu ánægju þjóðræknisnefndarinnar að hafa getað fagnað einum heiðursmeðlim Þjóðræknisfélagsins á þann hátt. Lækninum verður aldrei nóg þakkað fyrir hans ágæta starf á mörgum sviðum mannfélagsmálanna og ekki síst á sviði ræktarsemi við Ísland og íslenska tungu.

Önnur fagnaðarmót eða samsæti voru ekki haldin á árinu undir umsjón félagsins.

### Útbreiðslustarfsemi

Um útbreiðslustarfið er það að segja að það hefir skiftst niður á milli margra, nefndarmanna og annara, og þar má helst nefna Mrs. Hólmfríði Danielson, Dr. Richard Beck, séra Valdimar J. Eylands, forseta félagsins, og fleiri.

Um minn eigin þátt í útbreiðslustarfinu má nefna ferð sem eg fór til Gimli og til Riverton í samfélagi með Mrs. Danielson. Eg flutti nokkur orð á fundi deildanna á báðum þessum stöðum, og sýndi hreyfimyndir af Íslandi sem eg hafði í för með mér og sem eru eign félagsins. Einnig flutti eg nokkur orð fyrir hönd félagsins á Íslendingadeginum á Gimli s. l. sumar.

Mrs. Danielson, hefi eg áður minst, og ferðanna sem hún hefir gert sér til Glenboro,

Gimli, Riverton, Lundar og víðar og bréfaskiftin sem hún hefir verið í við marga. En hún ber það alt upp í skýrslu sinni sem hún birtir seinna, sem umboðsmaður félagsins í fræðslumálum.

Séra Valdimar J. Eylands gerði stutta grein fyrir starfi sínu, í bréfinu sem hann sendi mér frá Íslandi, og sem eg las áðan. Honum hefir, með dvöl sinni á Íslandi, veitst tækifæri til að kynna okkur Vestur Íslendinga, Íslandi, og Íslendingum, og hefir hann getað, á margan hátt, styrkt böndin á milli okkar og Íslands.

Dr. Beck vann svo vel og mikið fyrir Þjóðræknisfélagið á meðan að hann var forseti þess, að það komst upp í vana hjá honum. Hann heldur áfram að vinna þjóðræknisstarf, sem við erum öll mjög þakklát fyrir. — Hann flutti t. d. kveðjur forseta félagsins og stjórnarnefndar, og var aðalræðumaður á 25 ára afmælissamkomu deildarinnar "Ísland" í Brown, sem haldin var í júní, síðast liðnum, og var sótt af öllum þorra bygðarbúa. Einnig var hann einn af aðal ræðumönnum á 60 ára landnámshátíðinni að Lundar og flutti þar ræðu um íslenskar menningarerfðir. Auk þess hefir hann á árinu, eins og undanfarið, flutt margar ræður um Ísland og íslensk efni á ensku meðal annars um Davíð skáld Stefánsson á ársfundi fræðafélagsins "Society for the Advancement of Scandinavian Study" í Chicago, og ítarleg erindi um land og þjóð á fjölmennum samkomum kennara og nemenda á kennaraskólanum og gagnfræðaskólanum í Dickinson, N. Dak., s. l. haust. Margt hefir hann einnig ritað um þau efni á árinu. Eg veit að allir eru meðmæltir því að tjá honum þakkir fyrir þessa miklu og göfugu starfsemi í þágu íslenskra mála.

**Önnur mál**

Nú held eg að eg hafi talið upp næstum því öll þau mál, sem okkur mest varða og sem á dagskrá félagsins og nefndarinnar hafa verið. En tvö atriði vildi eg leyfa mér að benda þinginu á, áður en tekið er til starfa.

Fyrst er það, að eg hefi rekið mig á, er eg hefi lesið gamla fundargerninga þingsins, að lagabreytingar hafa af og til verið gerðar, og samþyktar á þinginu á löglegan hátt, en sýnast svo hafa gleymst. Við höfum prentaða útgáfu af lögum félagsins, sem kom út árið 1930, fyrir átján árum. Breytingar hafa verið gerðar síðan, og finst mér það vera bráð nauðsynlegt að tillit verði tekið til þeirra, og einhver ráðgerð samin. Ef að eg mætti gera tillögu, yrði hún þess efnis, að nefnd yrði sett í það að yfirfara alla fundargerninga frá byrjun og skrásetja öll lög og allar lagabreytingar sem gerðar hafa verið, og undirbúa lög félagsins til prentunar, svo að einstaklingar og deildir viti nákvæmlega hver lög félagsins nú eru.

Í öðru lagi, vildi eg benda þingheimi, og sérstaklega væntanlegri dagskrárnefnd á, að á þinginu, árið 1934, var samþykt að kjósa nefnd í byrjun hvers þings, sem væri kölluð "þingmálanefnd". Næstu tvö þingin á eftir, var þingmálanefnd kosin, en svo sýnist hún hafa gleymst og hætt var að kjósa hana. En nú vildi eg, sem löghlýðinn maður, taka upp aftur þá venju eða þá aðferð. En til útskýringar vil eg lesa tillöguna, eins og hún kemur fram í þingsamþyktinni, í seytjánda árgangi Tímaritsins, bls. 138-139.

Þar er sagt:

"Kosin skal vera í byrjun hvers þings þriggja manna þingmálanefnd, er starfi meðan á þingi stendur. Skal sú nefnd veita móttöku að tilvísun forseta, öllum frumvörpum, og skal hún sjá um að frumvörpin hafi verið undirbúin áður en þau eru lögð fyrir þing. Þó skal þetta ekki taka til þeirra mála er fengin eru þingnefndum, milliþinganefndum eða sem stjórnarnefnd leggur fram og innifalin eru í dagskránni. Þó hefir nefndin ekkert vald til að útiloka nokkurt mál frá því að það komi fram á þingi."

Eg geri ráð fyrir að fylgja þessari reglu á þessu þingi, því hún er eitt af lögum félagsins, og þar að auki hygg eg að hún greiði fyrir þingfundunum.

Af þessari yfirlýsingu sem er nú orðin um of, löng, þar sem eg ætlaði mér að hafa hana stutta og einfalda, sjáum við hve mikið er að taka til íhugunar og umræðu, hve mikið starfið er, sem Þjóðræknisfélagið og Íslendingar í heild, hafa með höndum. Því vil eg hvetja menn til starfs, en minna þingheim á, að "allir erum vér eitt", og allir eigum vér að vinna í anda bræðralags og friði. Í orðum forsetans, frá í fyrra, "setjum oss þá það mark, háttvirtu þingmenn og konur, að vinna að úrlausn allra mála vorra, með elju og alúð, með

það eitt fyrir augum hvað oss er til sóma sem félagi, og þjóðarbroti voru hér yfirleitt til sæmdar."

Með þessum hvatningarorðum, segi eg tuttugasta og níunda ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi, sett, og bið þingheim að taka til starfa.

Philip M. Pétursson

Var skýrslunni vísað til væntanlegrar dagskrárnefndar samkvæmt tillögu dr. Richard Beck, sem G. L. Jóhannson studdi.

Tillaga G. L. Jóhannsonar sem ýmsir studdu að forseti skipi þriggja manna dagskrárnefnd. Samþykt.

Þessir skipaðir í nefndina: Prófessor Richard Beck, Mrs. P. S. Pálsson, Guðmundur Félsted.

Stungið upp á af J. J. Bíldfell en Mrs. B. E. Johnson studdi, að forseti skipi þriggja manna kjörbréfa þingnefnd. Till. samþykt.

Þessir skipaðir í nefndina: Guðmann Levy, Gunnar Erlendsson, Hjálmar Gíslason.

Þá las gjaldkerinn, Mr. G. L. Jóhannson sína skýrslu.

**Reikningur féhirðis**

yfir tekjur og útgjöld Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi frá 15. febr. 1947 til 18. febr. 1948

TEKJUR:

| | | |
|---|---|---|
| 17. febr. 1947: | | |
| Á Landsbanka Íslands | $ 1.80 | |
| Á Royal Bank of Canada | 1,217.95 | |
| Frá fjármálaritara | 496.51 | |
| Fyrir auglýsingar XXVIII árg. Tímaritsins | 1,770.75 | |
| Fyrir skólabækur | 4.50 | |
| Ágóði af Laugardagsskólasamkomu | 48.01 | |
| Vextir | 61.11 | |
| 652 Home Street | 299.01 | |
| Arfleifð úr dánarbúi Elíasar Jóhannson, Gimli | 182.40 | |
| | ——— | |
| Samtals | $4,082.04 | |

ÚTGJÖLD:

| | | |
|---|---|---|
| Ársþingskostnaður | | $ 207.51 |
| Kostnaður við Tímaritið: | | |
| Ritstj. og ritlaun XXVIII. árg. | $305.91 | |
| Prentun, XXVIII. árg. eftirstöðvar | 669.58 | |
| Umboðsþóknun | 464.25 | |
| Frakt og vátrygging | 22.84 | |
| | ——— | 1,462.58 |
| Til kenslumála | | 425.70 |
| Ferða- og útbreiðslukostnaður | | 44.53 |
| Banka-, síma- og annar kostn. | | 19.61 |
| Prentun og skriffföng | | 46.27 |
| Viðgerð á bókahlöðu | | 107.87 |
| Gjöf í Agnes Sigurdson sjóðinn | | 200.00 |
| Heillaóskir í tilefni af afmælum | | 37.00 |
| Þóknun fjármálaritara | | 52.05 |
| Á Landsbanka Íslands | | 1.80 |
| Á Royal Bank of Canada | | 1,477.12 |
| | | ——— |
| Samtals | | $4,082.04 |
| C.N.R. Bonds, Dom. of Canada, par 2,000.00 | | $2,044.43 |

Grettir Leo Jóhannson, féhirðir

Framanritaðan reikning höfum við endurskoðað og höfum ekkert við hann að athuga.

Winnipeg, Canada, 18. febrúar, 1948.

J. Th. Beck
Steindór Jakobsson

**Reikningur féhirðis Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**

17. febrúar, 1948:

Innstæður á Íslandi:

| | | |
|---|---|---|
| Á Landsbanka Íslands, Reykjavík, Sparisjóðsbók nr. 34057 um | | Kr. 350.00 |
| Hjá Þjóðræknisfélagi Íslendinga, Rvík. 750 eint. 28. árg. Tímaritsins á $1.50 eintakið | $1,125.00 | |
| Fragt og umbúðir | 22.85 | |
| Greiðist í íslenskum krónum samkvæmt samningi 20. júní 1947. Gengi kr. 6.50—$1.00 | | Kr. 7,461,00 |
| | | ——— |
| | | Kr. 7,811.00 |

Grettir Leo Jóhannson, féhirðir

**Yfirlit yfir námssjóð Miss Agnes Sigurdson**

| | |
|---|---|
| Tillög í sjóðinn, 2. okt. '45 til 17. febr. '48 | $3,044.32 |
| Bankavextir | 4.16 |
| | ——— |
| Samtals | $3,048.48 |

| | | |
|---|---|---|
| Afhent Miss Agnesi Sigurdson | $3,017.69 | |
| Bankagjöld | 1.05 | |
| Í Sparisjóðsreikningi við Royal Bank of Canada | 29.74 | |
| | $3,048.48 | $3,048.48 |

Grettir Leo Jóhannson, féhirðir

Lagði gjaldkeri til og ritari studdi, að skýrslunni sé vísað til væntanlegrar fjármálanefndar. Samþykt.

Skýrsla fjármálaritara lesin af G. L. Jóhannson.

**Skýrsla fjármálaritara**
**yfir árið 1947**

INNTEKTIR

| | |
|---|---|
| Frá meðlimum aðalfélagsins | $ 118.00 |
| Frá deildum | 381.50 |
| Frá sambandsdeildum | 21.00 |
| | $ 520.00 |

ÚTGJÖLD

| | |
|---|---|
| Póstgjöld undir bréf og Tímarit | $ 23.99 |
| Afhent féhirði | 496.51 |
| | $ 520.00 |

Guðmann Levy, fjármálaritari

Yfirskoðað og rétt fundið, 18. ferb. 1948.
Jóhann Th. Beck
Steindór Jakobsson

Skýrslunni vísað til fjármálanefndar samkvæmt tillögu Einars Magnússonar sem margir studdu og þingið samþykti.

**652 Home Street yfir árið 1947**

| | |
|---|---|
| Bygging 652 Home St., borguð að fullu | $11,506.10 |
| Stoker borgað að fullu á árinu | 775.00 |
| Eignin | $12,281.10 |

| | Dr. | Cr. |
|---|---|---|
| Rents collected | | $2,878.60 |
| Wellington Fire Ins. Co. | | 25.00 |
| McCurdy Supply Co. Cr. | | 4.00 |
| Icelandic Celebration Committee | | 15.00 |
| City of Winnipeg—Taxes | $ 436.27 | |
| Insurance | 35.00 | |
| Decorations, repairs, supplies | 388.32 | |
| Stoker | 775.00 | |
| Rebuilding roof | 183.63 | |
| Fuel | 342.20 | |
| Light og Power | 174.53 | |
| Water og Sewer | 125.16 | |
| Expenses on a/c books sent to Iceland and on a/c library | 166.46 | |
| Icelandic National League on a/c books | | 132.21 |
| Management | 120.00 | |
| Sundry Boiler inspection and Xmas turkey for caretaker | 9.23 | |
| Ieclandic National League | 299.01 | |
| | $3,054.81 | $3,054.81 |

Jóhann Th. Beck
Steindór Jakobsson

Skýrsla skjalavarðar Ólafs Péturssonar lesin af skjalaverði.

**Ársskýrsla skjalavarðar yfir árið 1947**

| | | |
|---|---|---|
| Tímarit, óseld í Winnipeg: | | |
| I—XXVIII árg. hjá skjalaverði, um eint. | | 6,000 |
| Skýrsla yfir XXVIII árg. Tímaritsins: | | |
| Til heiðursfélaga, rithöfunda, o. fl. | 63 | |
| Til Þjóðræknisfélags Íslendinga, Reykjavík | 750 | |
| Til auglýsenda Tímaritsins | 175 | |
| Til fjármálaritara | 1,020 | |
| Hjá skjalaverði og fjármálaritara | 192 | |
| | ——— | 2,200 |
| Þjóðréttarstaða Íslands, sérprentun | | 300 |
| Svipleiftur samtíðarmanna | | 114 |

Baldursbrá:

281 intök af innheftri Baldursbrá eru í umsjá Mr. B. E. Johnson, ráðsm. Baldursbrá.

Bókasafn:

Deildin "Frón" hefir umsjón yfir aðal bókasafni félagsins og mun hún leggja fram skýrslu því viðvíkjandi.

Winnipeg, Man., 18. febrúar, 1948
Ó. Pétursson, skjalavörður

Tillaga J. J. Bíldfell að skýrslan sé viðtekin. Tillagan studd af Trausta Ísfeld og samþykt.

Þá las ritarinn, H. E. Johnson, sína skýrslu.

**Ritara skýrsla**

Átta stjórnarnefndarfundir voru haldnir á árinu og eru það nokkuð færri en tvö síðast liðin ár.

Eins og öllum er kunnugt vék hinn ötuli og vinsæli forseti vor, séra Valdimar J. Eylands, til Íslands í júlí síðast liðinn. Tók þá varaforsetinn, séra Philip M. Pétursson, við formensku og hefir stjórnað fundum og félagsmálum vorum síðan, með sinni alkunnu lipurð og ljúfmensku.

Einnig dvaldi féhirðir vor, Mr. Grettir L. Jóhannson, um tíma heima í boði flugfélags þess er ferðir annast frá þessari álfu til Íslands.

Fundir hafa því verið stundum fámennari en ella þar sem einn nefndarmaður hefir mjög sjaldan sótt fundi vegna fjarlægðar og annara orsaka.

Samvinna í nefndinni hefir verið hin besta, en að öðru leyti vísast til skýrslu vara-forsetans að því er framgang félagsmála áhrærir.

H. E. Johnson,
ritari Þjóðræknisfélagsins

Till. Trausta Ísfeld studd af G. L. Jóhannson að skýrslan sé viðtekin. Till. samþykt.

Þá skipaði forsetinn þessa í fjármálanefnd: J. J. Bíldfell, B. Stefánsson, Ó. Pétursson.

Þá lagði dagskrárnefndin fram sína skýrslu, lesin af prófessor R. Beck.

**Skýrsla dagskrárnefndar**

Dagskrárnefnd leyfir sér að leggja til að eftirfarandi mál verði tekin til meðferðar á 29. ársþingi Þjóðræknisfélagsins:

1. Þingsetning
2. Ávarp forseta
3. Kosning kjörbréfanefndar
4. Kosning dagskrárnefndar
5. Kosning þingmálanefndar
6. Skýrslur embættismanna
7. Skýrslur deilda
8. Skýrslur milliþinganefnda
9. Útbreiðslumál
10. Fræðslumál
11. Kennaraembættið í íslensku við Manitoba háskóla
12. Fjármál
13. Samvinnumál við Ísland
14. Útgáfumál
15. Minnisvarði J. M. Bjarnasonar
16. Styrktarsjóður ungfrú Agnesar Sigurdsson
17. Kosning embættismanna
18. Ný mál (Lagamálið, að yfirfara fundargerningana og safna breytingum á lögum)
19. Ólokin störf og þingslit

Winnipeg, 23. febrúar 1948.

Richard Beck
Ólína Pálsson
G. Fjeldsted

Lagði R. Beck til að skýrslan sé samþykt og studdi Sigurður Baldvinson tillöguna og var hún samþykt.

Tillaga J. J. Bíldfell að forseti skipi fimm manna þingnefnd í málinu um háskólastól við The University of Manitoba. Till. studd af Miss E. Hall og var hún samþykt.

Þessir skipaðir í nefndina: Prófessor Tryggvi Oleson, dr. R. Beck, Mrs. E. P. Johnson, séra Egill Fáfnis og J. J. Bíldfell.

Þá var skýrsla deildarinnar Frón lesin af ritara deildarinnar, Heimir Thorgrímssyni.

**Ársskýrsla deildarinnar "Frón" fyrir árið 1947**

Starf deildarinnar á síðasta ári var að mestu leyti fólgið í því að halda uppi íslenskum skemtifundum fyrir meðlimi og það utanfélagsfólk, sem vill sækja íslenskar samkomur og var stofnað til fimm slíkra skemtana.

Fyrst er að telja Íslendingamótið sem haldið var í kirkju Fyrsta lút. safnaðar, 25. febrúar s. l. Við það tækifæri flutti Valdimar Björnson frá Minneapolis aðal ræðuna. Um 450 manns sóttu mótið, sem tókst hið besta í alla staði.

Næst var efni til skemtifundar 31. marz s. l. Sá fundur var helgaður minningu skáldsins góða, Jóhanns M. Bjarnasonar. G. J. Oleson flutti minningarræðuna, sem síðan hefir verið prentuð í Lögbergi.

Þann 14. maí var samkoma haldin til arðs fyrir Agnesar-sjóðinn. Þar kappræddu þeir próf. T. J. Oleson og H. Thorgrímson og Karlakór Ísl. í Winnipeg skemti með söng.

Samskot á þessum fundi náðu $50.00 og var sú upphæð afhent stjórnarnefnd Þjóðræknisfél.

Deildin starfaði ekkert yfir sumarmánuðina en þriðji fundurinn var haldinn 29. sept. Þar flutti Hjálmar Gíslason ræðu um dvöl sína á Íslandi.

Fjórði fundurinn var haldinn 3. nóv. Þar talaði séra Eiríkur Brynjólfsson frá Útskálum á Íslandi, nú þjónandi prestur við Fyrsta lút. söfnuð.

Auk þeirra, sem þegar hafa verið nefndir, hefir þetta fólk skemt á félagsfundum á árinu: Mrs. Esther Ingaldson, Miss Inga Bjarnason, Miss Thora Ásgeirson, Miss June Alliston, Harold Lupton, Páll S. Pálsson, Ragnar Stefánsson, Elmer Nordal og Allan Beck. Öllu þessu fólki er hér með innilega þakkað.

Allir þessir fundir okkar hafa verið sæmilega sóttir og sumir ágætlega. Samskot hafa jafnan verið tekin og hafa þau meira en hrokkið til að mæta kostnaði við fundarhöld.

Deildin hefir starfrækt bókasafn Þjóðræknisfélagsins eins og að undanförnu, en í þessu sambandi vísast til skýrslu bókavarðar. Þó vil eg geta þess hér að Vigfús J. Guttormsson sendi safninu eintak af kvæðabók sinni "Eldflugur" sem gefin var út s. l. sumar, en Grettir Jóhannson ræðismaður, afhenti safninu verðmæta bókagjöf frá Háskólaráði Íslands. Í haust ákvað stjórnarnefnd deildarinnar að fara þess á leit við Þjóðræknisfélagið, að það legði eitthvað til bókakaupa fyrir safnið á yfirstandandi ári. Munnlegt svar við þessari umleitun hefir okkur borist þess efnis að Þjóðræknisfélagið væri reiðubúið að leggja fram sem svaraði $100.00 í íslenskum krónum til bókakaupa. Þessar ágætu undirtektir aðalfélagsins eru hér með vinsamlega þakkaðar.

Stjórnarnefnd deildarinnar hélt níu fundi á árinu, aðallega til að ráðstafa og undirbúa félagsfundi. Einnig gekst hún fyrir samsæti, sem Valdimar Björnson og konu hans var haldið í sambandi við komu þeirra á Íslendingamótið. Þá sendi nefndin einnig heillaóskaskeyti til dr. R. Beck á fimtugsafmæli hans, 9. júní s. l.

Deildin telur um 180 skuldlausa meðlimi og mun það svipað og verið hefir nokkur undanfarin ár.

Fjárhagur deildarinnar er ekki sem bestur því hún er nú í bókaskuld sem nemur um $100.00 en úr þessu verður bætt á næstunni.

Starfsvið deildarinnar er ekki víðtækt en stefna, eins og ofanskráð skýrsla ber með sér, aðallega að þessu tvennu, að halda uppi íslenskum skemtunum og íslensku bókasafni fyrir það af fólki okkar, sem íslensk tunga er tömust.

Hvað þetta tvent snertir, þá hafa menn ekki í annað hús að venda og á meðan svo er, á "Frón" fylsta rétt á tilveru sinni, enda má gera ráð fyrir að það standi föstum fótum, um mörg ókomin ár.

Virðingarfylst,

Heimir Thorgrímson

Till. Haraldar Ólafssonar, að skýrslan sé viðtekin. Stutt af P. S. Pálsson og samþykt.

Var þá skýrsla The Icelandic Canadian Club lesin af Mrs. Hólmfríði Danielson.

**Ársskýrsla forseta, Icelandic Canadian Club**

Því miður get eg ekki sótt þetta yfirstandandi þjóðræknisþing, og er eg því þakklátur Hólmfríði Danielson fyrir að hafa góðfúslega samþykt að mæta á þinginu sem fulltrúi Icelandic Canadian Club og lesa skýrslu forsetans. Fyrir hönd félagsins vil eg senda samkomu þessari heillaóskir. Þjóðræknisfélagið getur reitt sig á samvinnu Icelandic Canadian Club í öllum efnum sem snerta viðhald og eflingu íslenskra menningarmála og velferð þjóðarbrotsins hér í Vesturheimi.

Sjö almennir fundir voru haldnir á árinu, vel sóttir. Hin árlega samkoma félagsins var haldin í febrúar í Fyrstu lútersku kirkju. Þáverandi forseti, Carl Hallson, stýrði samkomunni, en aðal ræðumaður var Capt. Carl J. Freeman frá Fargo, N. D. Sýndi hann stórar litmyndir af hinu mikilfenglega íslenska landslagi. Daniel McIntyre Collegiate Operatic Society söng úrval úr söngleiknum "Mikado". Um 500 manns sóttu samkomuna.

Lokasamkoma "Icelandic Canadian Evening School" fór fram 14. maí í I.O.G.T. hall. Guttormur J. Guttormsson, skáld, flutti hrífandi erindi um frumbyggja norður Nýja Íslands. Einnig var söngskrá og upplestur á íslensku. Mrs. Hólmfríður Danielson gaf skýrslu sem sýndi að 32 erindi hafa verið flutt um Ísland og um íslenska frumherja hér í álfu. Íslenskukensla fór fram í Daniel McIntyre Collegiate.

Flest af erindunum hafa verið prentuð í bókinni "Iceland's Thousand Year's" og í tímaritinu "The Icelandic Canadian". Með haustinu hófst á ný fræðslustarf í íslensku og hefir hópur manna og kvenna, undir leiðsögn Wilhelm Kristjánson, lesið í vetur ritverk vestur-íslenskra höfunda.

Bókin, Iceland's Thousand Years, hefir náð til fjölda bókasafna víðsvegar um heim, meðal annars til Suður Ameríku, Ástralíu, Svíþjóðar og Suður Afríku. Nú nýlega hefir stjórn Íslands beðið um 50 eintök sem nota á við kynningarstarfsemi fyrir Ísland. Er nú verið að skipuleggja þetta í sambandi við Keflavíkur flugvöllinn, en þar er mikill ferðafólksstraumur. Munu þessi 50 eintök bókarinnar verða notuð til reynslu að sinni.

Tímarit félagsins, The Icelandic Canadian, er nú fimm og hálfs árs gamalt. Það hefir vaxið mikið að stærð og kostnaði. Ritið hefir náð miklum vinsældum meðal almennings, og ritgerðir úr því hafa verið endurprentaðar í blöðum og tímaritum. Eimreiðin (október, 1947) birtir greinina "Folk Festivals" (í ísl. þýðingu) með myndum, og fylgir henni ritstjórnargrein sem nefnist "Íslensk landkynning í Vesturheimi". Í sambandi við starf Icelandic Canadian Club kemst ritstjórinn svo að orði:

"Við höfum að sjálfsögðu ekki efni á að verja miklu fé til slíkra hluta (kynningu á landi og þjóð), enda er engan veginn víst að vel takist það starf, þó að fé sé fyrir hendi. Miklu máli skiftir að eiga sjálfboðaliða erlendis, sem eru sjálfir sómi sinnar stéttar og njóta álits og trausts þar sem þeir eiga aðsetur. Slíkir menn geta orðið og verða oft með starfi sínu og framkomu ættlandi sínu til meira gagns og sæmdar en kostnaðarsamir sendiherrar."

Fyrir bréfaviðskifti sem urðu milli W. J. Lindal dómara og sr. Friðriks Hallgrímssonar í Reykjavík, hefir gerst sú nýbreytni að vestur- og austur Íslendingar hafa skifst á nokkrum blaðagreinum. Íslendingar heima hafa sent Icelandic Canadian ritgerðir til birtingar og héðan hafa sömuleiðis farið greinar um áhugamál og afstöðu Vestur-Íslendinga og verið birtar í tímaritum á Íslandi. Þetta getur orðið til eflingar menningarsambandi þjóðarbrotanna beggja megin hafsins. Þjóðræknisfélagið í Reykjavík hefir einnig boðist til að annast um útsölu Icelandic Canadian á Íslandi.

Ritstjórnarnefndin undir forystu Hólmfríðar Danielson samanstendur af þessum: W. J. Lindal dómari, próf. T. J. Oleson, Heimir Thorgrimson, og Axel Vopnfjörð. Fréttaritarar eru Stefanía Eydal og Caroline Gunnarson; Mattie Halldorson hefir umsjón með "Our War Effort" dálknum, en kaupsýslu annast Grace Thorsteinson. Hjálmur F. Danielson er útbreiðslustjóri.

Nýjasta fyrirtæki félagsins, að safna og gefa út úrval af tónsmíðum íslenskra manna og afkomenda þeirra í Norður Ameríku, hefir fengið ágæta byrjun. Nefndin, en hana skipa Mrs. Louise Gudmunds, Mrs. Lena Richardson og Mrs. Kay Palmer, hefir starfað með mikilli elju, og henni hafa borist milli 20—30 tónsmíði. Til skemtunar á félagsfundum í vetur hafa verið sungin lög eftir nokkra af tónskáldunum og lesið upp stutt æviágrip þeirra. Það er ætlun klúbbsins að efna til hljómleika í vor þar sem verða sungin og spiluð tónverk eftir vestur-íslenska höfunda. Ágóði af samkomunni gengur í sjóð til þess að hægt verði seinna meir að gefa út bókina.

Þetta framtak klúbbsins hefir notið vinsælda og fengið fylgi þeirra sem hafa áhuga fyrir viðhaldi íslenskrar menningar hér. Fjölda af bréfum hefir félagið fengið til uppörfunar þessu starfi. Þar á meðal frá tónskáldinu S. K. Hall og Dr. Stefáni Einarssyni, John Hopkins University, Baltimore. Dr. Einarsson segir m. a.:

"It made me very happy to read the letter in the Icelandic Canadian, soliciting the collection of original musical compositions among American Icelanders. I quite agree with the members, on the cultural value of such a collection, and it would not surprise me if it were found that the American Icelander had developed special traits characteristic of their community only. . . . I see no reason why the time should not come when Icelandic composers will turn to these old dour songs (the **rímnalög** and **tvísöngur**) and fashion them into a new musical language, which might very well become the envy and the wonder of the world."

Að endingu finst mér það nauðsyn að minnast á eitt áhugamál sem að allur íslenskur félagsskapur þarf að athuga og koma í framkvæmd, ef að félagslíf meðal okkar á að geta haldið áfram. Það hefir verið þrándur í götu

okkar allra, Icelandic Canadian Club og annara félaga einnig, að hafa hvergi húspláss þar sem hægt er að halda fundi eða samkomur. Og ef allir Íslendingar vinna að því í einingu þá þarf ekki að verða mjög langt þangað til samkomuhúsið sem svo lengi er búið að tala um, verður virkileiki.

Eg vil þakka öllum samverkamönnum mínum þeirra ágæta starf, og öðrum sem hafa stuðlað að því að starf okkar hefir blessast.

Svo árna eg þjóðræknisþinginu farsælla málalykta í störfum þess.

Axel Vopnfjörð

Var skýrslan viðtekin.

Þá bar kjörbréfanefndin fram sína skýrslu.

**Skýrsla kjörbréfanefndar**

Kjörbréfanefndin hefir meðtekið umboð frá eftirtöldum fulltrúum deilda:

"BÁRAN", Mountain, N. Dak.

Séra Egill H. Fáfnis ........ 20 atkvæði
Björn Stefánsson ........ 20 "
Haraldur Ólafsson ........ 20 "
G. J. Jónasson ........ 20 "
Jón Ólason ........ 20 "
Joe Peterson ........ 20 "

"BRÚIN", Selkirk, Man.

Einar Magnússon ........ 13 atkvæði
Mrs. Ingibjörg Pálsson ........ 13 "
Trausti G. Ísfeld ........ 12 "

"ESJAN", Árborg, Man.

Magnús Gíslason ........ 20 atkvæði
Sigurður Finnsson ........ 20 "
Böðvar H. Jakobsson ........ 20 "

"GIMLI", Gimli, Man.

Guðmundur Fjeldsted ........ 20 atkvæði
Mrs. Sigríður Sigurðsson ........ 20 "
Sigurður Baldvinsson ........ 20 "

"FJALLKONAN", Wynyard, Sask.

Mrs. Hákon Kristjánsson ........ 20 atkvæði

Deildin á Lundar, Man.

Mrs. L. Sveinsson ........ 16 atkvæði
Torfi Torfason ........ 16 "

"ÍSLAND", Brown, Man.

Th. J. Gíslason ........ 20 atkvæði

Sambandsdeildin "STRÖNDIN", Vancouver, B. C.

Magnús Elíasson ........ 7 atkvæði

"ÍSAFOLD", Riverton, Man.

Mrs. Anna H. Árnason ........ 9 atkvæði
Mrs. Valgerður Coghill ........ 9 "

"GRUND", Glenboro, Man.

G. J. Oleson ........ 10 atkvæði
Mrs. Margrét Josephson ........ 10 "
A. E. Johnson ........ 10 "

Auk þessara fulltrúa eru hér á þingi Mr. Rósmundur Árnason og hr. Páll Guðmundsson frá deildinni "Iðunn" í Leslie, en hafa ekki skrifleg umboð. Nefndin leggur til að þeim séu gefin fulltrúa réttindi með eftirfylgjandi atkvæðum.

Rósmundur Árnason ........ 8 atkvæði
Páll Guðmundsson ........ 7 "

Auk ofantaldra fulltrúa hafa allir skuldlausir meðlimir deildarinnar "Frón" í Winnipeg og meðlimir aðalfélagsins atkvæðisrétt.

Guðmann Levy
Gunnar Erlendsson
Hjálmar Gíslason

Skýrslan viðtekin samkvæmt atkvæðum.

Páll Guðmundsson, erindsreki deildarinnar Iðunn á Leslie, gaf stutta munnlega skýrslu um hag sinnar deildar en gat þess að ritari deildarinnar myndi síðar vitja þingsins og lesa skýrslu. Var samþykt að bíða þess tíma um frekari afgreiðslu.

Las nú séra Fáfnis skýrslu deildarinnar Báran á Mountain.

**Skýrsla þjóðræknisdeildarinnar "Báran" í N. Dakota, fyrir árið 1947-48**

Deildin Báran í N. Dakota hefir hinar alúðarfylstu kveðjur að flytja þessu hinu 29. þingi Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi.

Deildin hefir verið vel vakandi á árinu og vakað yfir heill íslenskra menningarerfða eftir bestu getu og aðstæður leyfðu.

**Meðlimatala:** Í byrjun ársins í deildinni, 123 skráðir meðlimir og heiðursfélagar. En Guðmundur Grímson er heiðursmeðlimur deildarinnar. Í lok ársins voru skráðir meðlimir 122 og auk þess fjórir heiðursfélagar, því á þessu ári voru þau hjónin Svanfríður og Kristján Kristjánsson og Kristján Indriðason kosin heiðursfélagar í viðurkenningaskyni fyrir störf sín í þágu deildarinnar og íslenskra málefna. Á árinu dóu þessir félagar: Haraldur Gíslason, Sigurbjörn Eastman, Vilhjálmur Benediktsson, Þorbergur Þorvarðsson og Tómas Þorleifsson. Deildinni bættust fjórir nýir félagar á árinu.

**Íslensku og söngkensla.** Að Garðar nutu 24 börn og unglingar tilsagnar í íslensku um 10 vikna tíma. Þessir voru kennarar: Miss Lauga Geir, Mrs. M. S. Guðmundson, Mrs. R. H. Ragnar, Mrs. J. W. Hall, Miss Þórdís Davíðsson, Miss Marvel Kristjánsson, Miss Marvel Sigfússon.

Nær sextíu börn að Garðar og Mountain nutu tilsagnar í íslenskum söng um þriggja mánaða skeið tvisvar í viku undir stjórn R. H. Ragnar.

**Fundarhöld og samkomur:** Þrír félagsfundir voru haldnir á árinu, til að ræða hag og málefni deildarinnar. Á sumardaginn fyrsta stofnaði deildin til samkomu að Garðar til að fagna sumri að íslenskum sið. Var húsfyllir, og skemtu börn og unglingar bygðarinnar með íslenskum leik, undir stjórn Theo. Thorleifssonar. Einnig voru ræður og upplestrar unglinga, og fór alt fram á íslensku. Þann 7. júní tók deildin þátt í heiðurssamsæti er þeim hjónunum Svanfríði og Kristjáni Kristjánssyni var haldið í tilefni af 70 ára hjúskaparafmæli þeirra. Islendingadagurinn var haldinn af deildinni með hátíðlegri samkomu að Mountain. Tókst hátíðin ágætlega og mintust menn íslenskra erfða og bygðarinnar með íslenskum kvæðum, ræðum og söng. Einnig mintist deildin og bygðarfólk Dr. R. Beck með að færa honum heillaóskir og heiðursgjöf í tilefni af 50 ára afmæli hans.

Ársfund sinn hélt deildin að Mountain, N. Dakota, 8. febrúar 1948. Lásu embættismenn skýrslur sínar yfir störf og fjárhag félagsins. Báru skýrslurnar vott um að störf deildarinnar höfðu tekist með ágætum og að fjárhagur deildarinnar, þrátt fyrir mikinn kostnað, hafði heldur batnað og eru nú í sjóði $601.57.

Þessir voru kosnir í stjórn fyrir næsta ár:

Forseti: séra E. H. Fáfnis
Vara-forseti: Haraldur Ólafson
Ritari: H. B. Grímson
Vara-ritari: Óli Johnson
Fjármálaritari: Stefán Indriðason
Vara-fjármálaritari: S. Bjornson
Féhirðir: Kristján Indriðason
Vara-féhirðir: Björn Stefánsson
Skjalavörður: Guðm. Jónsson

Með bestu kveðjum,
E. H. Fáfnis, forseti
H. B. Grímsson, skrifari

Skýrslan viðtekin.

Skýrsla Mrs. H. Daníelsson fræðslustjóra, lesin af henni sjálfri.

**Skýrsla umboðsmanns Þjóðræknisfélagsins frá 9. febrúar til 26. apríl**

9. feb. — Eg fór til Gimli og kendi söng í skólanum, og hafði fund með kennurum, útvegaði einn nýjan kennara (Mrs. Helgu Johnson).

10. feb. — Fór til Riverton, og kendi söng, o. s. frv., á skólanum tvo daga í röð, þar sem eg hafði verið beðin að bíða að sitja ársfund deildarinnar, þann 11. feb. Eg heimsótti nokkur heimili til þess að örfa fólk til að koma á fundinn. Hann var fámennur, en kosningar fóru fram, og gekk eg í deildina henni til stuðnings. Einnig hafði eg fund seinna um kveldið með meðlimum "Study Group", og er þar mikill áhugi ríkjandi.

12. feb. — Kom aftur til Winnipeg.

16. feb. — Samdi skýrslu yfir starfið fyrir þjóðræknisþingið. Skrifaði forstöðukonum skólanna og eggjaði þær á að koma á þing.

23., 24., 25. feb. — Sat þing Þjóðræknisfélagsins.

1. mars — Fjölritaði 70 eintök af fjórum nýjum söngvum fyrir Lundar.

15. mars — Skrifaði 4 bréf til Glenboro og Baldur í sambandi við stofnun barnasöngflokkanna. (Hef fengið svör — og mun starfið hefjast í Glenboro í byrjun maí. Ef til vill fer eg til Baldur til þess að hjálpa til með byrjun starfsins). Skrifaði 2 bréf til Vancouver.

8. apríl — Valdi og fjölritaði nokkur kvæði og vísur til notkunar á lokasamkomum skólanna, og sendi til Riverton og Gimli.

12. apríl — Fór til Gimli. Kendi söng og lexíur við skólann. Hafði langan fund með kennurum. Í ráði er að hafa opinn fund í deildinni og láta börnin koma fram á skemtiskrá. (Þar sem svo er mikið um samkomur nú í bili að erfitt er að komast að með opinbera samkomu). Einnig var ákveðið að hafa "party" og ofurlitla prísa fyrir börnin, og gefa þeim aðgöngumiða að myndasýningu (movie).

13. apríl — Fór til Riverton. Kendi á skólanum og hafði fund með kennurum. Það er ákveðið að hafa samkomu um miðjan maí, og munu meðlimir "study group" einnig taka þátt í henni. Eg hafði samtal með nokkrum af meðlimum "study group" og létu þær í ljósi ásetning sinn að halda áfram með starfið næsta haust. Og var nokkuð ráðgert með efnisval fyrir næsta ár.

22. apríl — Eg samdi skrá yfir efni sem nota mætti á fundum "fræðslu klúbbsins" næsta ár með skýringum hvar hægt væri að afla sér þess efnis, sem lagt var fram.

26. apríl — Eg fer til Gimli.

Starf þessa árs er nú svo að segja að lokum komið. Samt er líklegt að eg fari til Brown í vor. Einnig talaði forseti deildarinnar í Selkirk við mig á þinginu og bað mig að koma, ef þeir gætu komið því við að hafa opinn fund.

Eg hefi haft mikil bréfaviðskifti við deildina "Ströndin" í Vancouver og er þeim afar mikið áhugamál að eg geti komið þangað vestur, og helst heimsótt allar deildirnar vestur frá, en það er nokkuð erfitt að gera samninga hvað tímanum viðvíkur, sem allir eru ánægðir með.

Eg ætla mér að fara til Riverton, þegar loka samkoma skólans verður haldin, ef hægt er.

Eg hefi einnig mætt á laugardagsskólanum hér hvern laugardag í vetur og erum við nú að hafa auka æfingar og búa til búninga fyrir börnin.

Með vinsemd og þakklæti fyrir samstrafið,

Hólmfríður Danielson

P.S. — Eg var beðin að flytja erindi fyrir "Young People's Club", Fort Garry United Church, um "Iceland and Its Culture" og gerði eg það á fundi félagsins eftir messu á páskadagskveldið.

Einnig hefi eg kent þremur "prívat" nemendum einu sinni í viku í vetur. Eru það Randolph Johnson, ungur drengur íslenskur; Mrs. Helgi Johnson og Miss Iris Reid, (ekki íslenskar) og mun eg halda áfram að kenna þeim fram í maí lok. Þetta starf nemur alt að fjórum klukkustundum á viku.

Eg hefi haft bréfaviðskifti við, og sent lexíur til Misses Frances og Joan Magnusson, Bissett, Man., og Miss Lottie Gillis, Seattle, Wash.

Skýrslan viðtekin. Var svo fundi frestað til kl 2 e. h.

## ANNAR FUNDUR

þingsins settur kl. 2 e. h.

Fundargerð síðasta fundar lesin og samþykt.

Voru þá kveðjur félagsins fluttar. Ritari las kveðju frá dr. Helga Briem ræðismanni í New York.

7149 Ingram Street,
Forest Hills, N. Y.,
18. febrúar 1948

Séra Philip M. Pétursson
Vara-forseti Þjóðræknisfélagsins,
Winnipeg.

Kæri vinur,

Um leið og eg sendi Þjóðræknisþinginu mínar bestu óskir um gott starf og gagnlegt, sem að undanförnu, vil eg nota tækifærið, þar sem eg er nú á förum héðan, til að senda þér, stjórnarnefnd, þingmönnum og meðlimum Þjóðræknisfélagsins kæra kveðju mína og hugheilar óskir um bjarta framtíð og ánægjulegt starf.

Þinn einlægur,
Helgi P. Briem

Lagði prófessor R. Beck til að ritara sé falið að þakka dr. Briem fyrir kveðjuna. Margir studdu tillöguna og var hún samþykt.

Las þá ritari árnaðarósk deildarinnar "Aldan" í Blaine til þingsins.

Þjóðræknisdeildin "Aldan" í Blaine, Wash., sendir hinu tuttugasta og níunda ársþingi Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi sínar alúðarfylstu heillaóskir.

Einar Simonarson, vara-forseti
Dagbjört Vopnfjörð, ritari

J. J. Bíldfell lagði til að ritara sé falið að kvitta fyrir þessa heillaósk með þakklæti. Stutt af J. Oleson og samþykt.

Ennfremur gerðu sömu menn þá tillögu að ritara sé falið að senda fjölskyldu séra Alberts Kristjánssonar og honum sjálfum samúðar skeyti í tilefni af veikindum þessa ágæta samverkamanns.

Það hryggir oss að frétta um vanheilsu séra Alberts Kristjánssonar, hins ágæta starfsmanns félags vors og vottum honum og fjölskyldu hans einlæga samúð vora og innilega ósk um endurbata og vellíðan.

Þá bar dr. Beck fram þessar munnlegu kveðjur: frá Right Reverend C. Venn Pilcher biskupi í Melbourne, Ástralíu, dr. John West, forseta ríkisháskólans í Norður Dakota og frá fræðafélaginu "The Society for the Advancement of Scandinavian Study".

Tillaga dr. Becks að ritara sé falið að svara þessum kveðjum, studd af J. Oleson og samþykt.

Voru þá þessar þingnefndir settar af forsetanum:

Fræðslumálanefnd:
Egill Fáfnis
Guðmundur Féldsted
Mrs. Hólmfríður Danielsson
Mrs. L. Sveinson
Mrs. Ingibjörg Pálsson

Útbreiðslumálanefnd:
Heimir Thorgrímsson
Magnús Elíasson
Trausti Ísfeld
Páll Guðmundsson
Magnús Gíslason

Styrktarsjóðsnefnd Agnesar Sigurðsonar:
Grettir L. Jóhannson
Mrs. L. Sveinson
Halldór Swan
Mrs. Anna Árnason
John Ólason

Samvinnumálanefnd við Ísland:
Dr. R. Beck
G. L. Jóhannson
Haraldur Ólafsson
Mrs. Sigríður Sigurðsson
Dr. Árni Helgason

Þingmálanefnd:
Heimir Thorgrímsson
Egill Fáfnis
Magnús Elíasson

Að því búnu var aftur tekið til við lestur skýrslanna frá hinum ýmsu deildum.

Skýrsla deildarinnar "Esjan", Árborg, lesin af ritara.

**Ársskýrsla þjóðræknisdeildarinnar "Esjan" í Árborg, er sem fylgir:**

1. Fundarhöld:

Fimm fundir hafa verið haldnir á árinu 1947. Bæði skemtifundir og starfsfundir. Ágæt aðsókn á flestum fundum, og skemtun fjölbreytt og ánægjulegar samkomur.

2 Samkomuhöld:

Leikfélag sem var myndað undir umsjón Esjunnar sýndi leiksýningu, "Malakonan frá Marley"; voru samkomur haldnar í Árborg, Riverton og Víðir og var góð aðsókn á öllum stöðum og leikurinn vel rómaður hvevetna.

Arður af leiksýningunum var, afgangs öllum kostnaði $155.00.

3. Bókasafnið:

Bækur keyptar á árinu að upphæð $150.00, og bækur lánaðar út og lesnar fyllilega eins mikið og á undanförnum árum. Nokkrar bækur hafa verið gefnar félaginu á síðastliðnu ári:

Bók frá Davíð Björnsson, Minningar um Mentaskólann, mjög vönduð og verðmæt bók.

Sömuleiðis gaf Gunnar Simundson hina nýju útgáfu af Heimskringlu "Snorra Sturlusonar" (2 bækur), mjög vönduð útgáfa.

Og síðan gaf Vigfús Guttormson félaginu ljóðabók sína "Eldflugur", sem er líka kærkominn gestur.

Þá gaf Swain Swainson félaginu enskar bækur, Book of the Month. Hann gerði það í þeim tilgangi að glæða lestrarfýsn hjá yngra fólkinu og tilraun að innlima það í vorn félagsskap.

Fyrir allar þessar gjafir vottar deildin hluthöfum innilegt þakklæti.

4 Fjárhagsmál og meðlimir:

Á árinu greiddu 81 meðlimir gjald til félagsins og er það einna mest sem hefir verið. Inntektir voru á árinu:

| | |
|---|---|
| Gjöld meðlima | $ 81.00 |
| Samkoma — tekju afgangur | 155.55 |
| Gjöf frá Baldvin Jónson | 10.00 |
| Í sjóði frá fyrra ári | 14.83 |
| Alls | $261.38 |

| | |
|---|---|
| Útgjöld á árinu — bækur | $150.00 |
| G. Simundson (lukkuóskir) | 12.00 |
| Eldsábyrgð | 12.00 |
| Josephine (minningar starfsemi) | 10.15 |
| Smávegis | 5.53 |
| Nú í sjóði | 71.70 |
| Alls | $261.38 |

Vér leyfum oss ennfremur að benda á, sem viðbót í þessa skýrslu, að Esjan hefir nú í undirbúningi aðrar leiksýningar sem hún ætlar að koma á framfæri á þessu ári. Í þessum sýningum verða meir en helmingur ungir íslenskir leikendur og vonumst til þess að það verði til aðstoðar og hvatningar íslenskunni í þessu umhverfi.

Með árnaðaróskum til þjóðræknisþingsins frá Esjunni.

G. O. Einarsson, ritari

Var skýrslan viðtekin samkvæmt atkvæðum.

Skýrsla "Fjallkonunnar", Wynyard, lesin af ritara og viðtekin.

**Ársskýrsla þjóðræknisdeildarinnar "Fjallkonan", Wynyard, Sask.**

Þjóðræknisdeildin "Fjallkonan" hefir lítið aðhafst, tveir fundir voru haldnir á árinu. Einnig var Íslendingadagshátíð haldin í Wynyard þann 6. ágúst, sem deildin stóð fyrir. Var þar til nýungar að séra Eiríkur Brynjólfsson, sem þá var nýlega kominn til þessa lands frá Íslandi, hélt aðal ræðuna. Dagurinn tókst vel, en áberandi er það hve mjög fækkar hér þeim mönnum og konum, sem virkan þátt taka í íslenskum málum, eru nú fundir og samkomur deildarinnar aðallega sóttar af gamla fólkinu, einu verðmætin sem þær hafa, er það að eldra fólkið hefir tækifæri, svo sem 3 á ári, til þess að tala íslensku, skreppa um stund inn á minningalandið, lifa örlitla stund í íslensku andrúmslofti. Geti þetta verið hressing þeim sem þátt taka, er sjálfsagt að halda því uppi, þó sýnt sé að alt snýr í vestur átt og hverfur seinast með einhverju sólsetrinu. En meðan sólskins blettir eru í heiði, setjumst vér þar og gleðjum oss.

H. S. Axdal

Ársskýrsla deildarinnar "Brúin", Selkirk, lesin af Einari Magnússyni og viðtekin.

**Skýrsla þjóðræknisdeildarinnar "Brúin" í Selkirk, Man.**

Að ýmsu leiti má segja að liðið ár sé oss meðlimum deildarinnar "Brúin" með öllu ógleymanlegt ár. Á árinu átti deildin á bak að sjá ágætum og tryggum meðlimum og leiðtogum, þeim Ólafi Ólafssyni, forseta deildarinnar; Kristján S. Pálssyni skáldi, vara-forseta deildarinnar og Hinrik Jónsyni, tryggum meðlim deildarinnar. Þess utan hafa flutt burt á árinu þeir Bjarni Árnason og Magnús Hjörleifson og kona hans, er voru góðir meðlimir í félagsskap vorum.

Hr. Bjarni Árnason var kvaddur af 40 manns á prestssetrinu. Þá afhenti forseti deildarinnar hr. Einar Magnússon, honum göngustaf áletraðann og mælti til hans viðeigandi kveðjuorðum. Síðar að haustinu voru þau Magnús og Guðný Hjörleifsson heimsótt og þeim færðar gjafir, honum göngustafur með áletrun, en henni brjóstnæla. Þessar breytingar í hópi vorum hafa gengið all-nærri deildinni, sem er fáliðuð af starfandi meðlimum. Tvær fjölskyldur er burtu fluttu, og voru meðlimir í deild vorri eru með oss á ný og er það mikil hjálp.

Á árinu hefir deildin haft alls 5 reglulega fundi, 5 nefndarfundi, og þess utan gert 2 heimsóknir sem um er getið hér að framan. Þótt ekki hafi verið hægt að kaupa mikið af bókum, hefir deildin þó reynt að hlynna að bókasafni sínu eftir því sem auðið var.

Ný skráning á bókum deildarinnar var gerð á árinu. Nýir bókaskápar smíðaðir. Þarf deildin að gera sitt ítrasta til á þessu nýja ári, bæði til bókakaupa og viðhalds bóka, sem er mjög svo aðkallandi mál. Deildin hefir gert tilraun til þess að hver fundur hafi eitthvert

sérstakt verkefni til skemtunar og fróðleiks, auk starfa er fyrir fundi liggja venjulega til meðferðar, þannig má í litlum hópi íslensks fólks oft skapa kvöldskemtun er orðið geti til stundargleði og ýmsir meðlimir taka þátt í til skiftis.

Meðlimir deildarinnar teljast nú að vera 41.

| | |
|---|---|
| Inntektir á árinu voru | $194.61 |
| Útborganir á árinu | 168.52 |
| Í sjóði um áramót | 26.09 |

E. Magnússon, forseti
S. Ólafson, ritari

Skýrsla deildarinnar "Aldan", Blaine, lesin af ritara og viðtekin.

**Skýrsla "Öldunnar" yfir árið 1947**

Árið 1947 hefir þjóðræknisdeildin "Aldan" í Blaine, Wash., haft fjóra aðal fundi og tvo stjórnarnefndar fundi.

Almenna skemtisamkomu hélt deildin 17. júní s. l. Var hún vel sótt og góður rómur að henni gerður.

Stærsta málið sem deildin er frumkvöðull að og beitir sér fyrir, er elliheimilismálið, hefir nefnd þess máls sýnt lofsverðan áhuga þrátt fyrir margfalda erfiðleika og hefir nú í samráðum við nefnd þá sem lestrarfélagið "Vestri" í Seattle hefir kjörið því máli til framkvæmdar, gengist fyrir því að það er nú löggilt félagsstofnun í samræmi við lög Washington ríkis, undir nafninu "The Icelandic Old Folks Home, Inc."

Í sjóði eru nú um $30,000.00 (þrjátíu þúsund dalir), og horfur eru á að hægt verði að byrja á elliheimilis byggingu á komandi vori.

Meðlima tala er nú 56, af þeim eru 38 fullgildir meðlimir, eða þeir sem hafa borgað $1.00 og eiga tilkall til eintaks af þjóðræknis ritinu.

Einar Simonarson, vara-forseti
Dagbjört Vopnfjörð, ritari

Skýrsla deildarinnar "Vestri", Seattle, lesin af ritara og viðtekin.

**Skýrsla deildarinnar "Vestri" yfir árið 1947**

Þjóðræknisfélags deildin "Vestri" í Seattle, Washington, U.S.A., færir tuttugasta og níunda ársþingi Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi hugheilar kveðjur með ósk um blessunarríka framtíð, megi störf félagsins ávalt vera þjóðflokki vorum til heilla og farsældar.

Félagið "Vestri", sem var stofnað fyrir hart nær hálfri öld síðan, á mjög svo stórmerkilega sögu að baki sér, heldur enn vel í horfinu. Það hefir haft 10 starfsfundi á árinu, og hafa þeir verið mjög vel sóttir, að meðaltali 42 á fundi. Félagið telur nú um 100 meðlimi.

Mánaðarblaðið "Geysir", undir stjórn Jóns Magnússonar, hefir verið lesið á hverjum fundi af ritstjóranum sjálfum, og bæði skemt og frætt unga sem aldna.

Jón Magnúss, sem er fæddur og uppalinn í héraði Egils Skallagrímssonar, og er að líkindum einn af afkomendum hans, er prýðilega vel ritfær og skáldmæltur. Hann hefir verið ritstjóri "Geysirs" um margra ára skeið og ritað að mestu leiti í blaðið sjálfur, ekki svo að skilja að hann vanti að vera einráður um blaðið, heldur er það pennaleti margra um að kenna að þeir hjálpa honum ekki að skrifa í blaðið.

Blaðið "Geysir" hefir verið mikið aðdráttarafl fyrir "Vestri", einkanlega síðan Jón Magnúrsson tók að sér umsjón þess.

Eg efast ekki um þegar við hinir eldri erum horfnir af sjónarsviðinu, að fræðimenn af okkar kynstofni munu finna margt fróðlegt og læsilegt í "Geysir".

Skemtiskrá undir stjórn séra H. Sigmars hefir farið fram á hverjum fundi og skemt vel.

Geta má þess að "Vestri" hafði umsjón með Íslendingadags samkomunni síðast liðið sumar, sem var mjög fjölsótt og hin ánægjulegasta í alla staði.

Ennfremur má geta þess að félagið hafði tvær skemtisamkomur, áramóta og 17. júní samkomur, með góðri aðsókn og fjárhagslegum hagnaði.

Einnig hefir "Vestri" beitt sér fyrir einu hinu mikilvægasta og þýðingarmesta máli, sem er nú á dagskrá víða á meðal Íslendinga hér vestan hafs, elliheimilismálinu. Félagið hefir nú starfandi nefnd sem hefir safnað álitlegri fjárupphæð í Blaine elliheimilissjóðinn og mun halda áfram í sömu átt þar til gamalmennaheimilið er komið á stofn. Þar sem hinir aldurhnignu af þjóðflokki vorum geta hvílt sig eftir hita og þunga dagsins — ef þeir óska þess.

Í umboði félagsins "Vestri" með einlægum bróðurhug. J. J. Middal, ritari

Skýrsla deildarinnar "Ísafold", Riverton, lesin af ritara og viðtekin.

**Skýrsla deildarinnar "Ísafold", Riverton**

Deildin "Ísafold" hefir ekki haft hátt um sig síðast liðin tvö ár. Árið 1946, var aðeins haldinn ársfundur, og erindsrekar sendir á þing, en 1947 var enginn fundur fyrri part ársins, og enginn erindreki sendur á þing. Deildin var í nokkurskonar logni, með lamaða starfskrafta; fyrst og fremst voru það: (1) afleiðingar heimsstyrjaldarinanr, sem svo víða skildu eftir ólæknandi sár á meðal okkar; (2) annríki og dreifðir starfskraftar meðal embættismanna; (3) ekki nægur áhugi, styrkur og samvinna með Þjóðræknisfélaginu sjálfu.

Svona var ástandið þegar Þjóðræknisfélagið sendi út umboðsmann sinn, Mrs. H. Danielson, í haust. Hún kom til Riverton 27. september, og á fámennum fundi voru gerðar þessar ákvarðanir.

(1) Að kalla saman starfsnefndina.

(2) Gera tilraun til að stofna íslenska skólann á ný.

(3) Að mynda "Study Group", sem Mrs. Danielson hafði útskýrt fyrir fundinum.

Nefndin, nema einn meðlimur, sem er fluttur í burtu, kom saman 7. október 1948. Var ákveðið að byrja íslensku skólann strax og kennarar væru fáanlegir (við höfum sjaldan haft nógu marga eða stöðuga kennara). Einnig var ákveðið að kalla skyldi ársfund deildarinnar 11. nóvember. Gekk fundurinn ágætlega.

Þann 11. nóvember komu þau Mrs. H. Danielson og séra Philip Pétursson hingað og sýndu skólabörnum íslenskar myndir að deginum til, ávörpuðu börnin og útskýrðu myndirnar. Var það góð skemtun fyrir börnin. Að kveldinu var almennur fundur haldinn eins og til stóð. Lét fundurinn eindregið í ljósi vilja sinn að endurreisa deildina og stuðla að viðhaldi íslenskrar menningar. Töluðu margir, auk forseti, þessu viðvíkjandi. Voru sýndar sömu myndirnar og að deginum og síðan framreiddar veitingar.

Þann 11. febrúar 1948 var haldinn fundur og erindsrekar kosnir til að senda á þjóðræknisþingið. Einnig var starfsnefnd deildarinnar endurkosin nema vara-forseti, sem áður var getið. Þessir eru embættismenn fyrir árið 1948:

Forseti — S. Thorvaldson, M.B.E.
Vara-forseti — Mrs. Arnheiður Eyjólfson
Ritari — Mrs. Kristín S. Benedictson
Vara-ritari — Mrs. Anna Árnason
Fjármálaritari — Einar A. Johnson
Vara-fjármálaritari — F. V. Benedictson
Skjalavörður — Árni Brandson
Meðlimatala er 18 fullorðnir meðlimir.

Skólaskýrsla

Skólinn byrjaði 15. október 1947 og var haldið uppi í sex daga fyrir jól. Hann er hafður á miðvikudögum eftir kl. 4. Aðsókn var afar mikil í fyrstu (70—80 börn) en of fáir kennarar til að sinna verkinu sem skyldi.

Þegar skólinn byrjaði aftur 10. febrúar voru á milli 50 og 60 börn, en þau verða fleiri, því mörg eldri börnin taka þátt í "Curling" núna sem stendur.

Mrs. Danielson var hér 10. og 11. febrúar. Hún hefir sent okkur mikið af lexíum, sem hún hefir útbúið, og er það mikil hjálp, þar sem engin nothæf kenslubók er til í þessu landi. Væri mjög æskilegt, að hægt yrði að bæta úr þeirri þörf í nálægri framtíð. Börnin sýna mikinn áhuga fyrir að læra að lesa og syngja.

Kennarar fyrir jól voru þessir:

Miss Skúlason
Miss Brynjólfson
Mrs. Valgerður Coghill
Mrs. Kristín Benedictson
Miss E. Johnson

Miss N. Cuddy ætlar að spila fyrir söngnum.

Mrs. Danielson hefir heimsótt okkur fjórum sinnum.

"Study Group"

Framkvæmdar fundur fyrir "Study Group" var haldinn á heimili Mrs. Benedictson 9. október 1947. Mrs. Danielson stýrði fundi og útskýrði þetta málefni. Gerðust 8 konur meðlimir til að byrja með. Var ákveðið að halda fundi fyrsta og þriðja þriðjudag í hverjum mánuði, og lesa og íhuga bókina "Iceland's Thousand Years".

Nú eru 18 konur og stúlkur meðlimir í þessu "Study Group", sem allar hafa látið í ljósi ánægju yfir að hafa tækifæri til að kynnast eða rifja upp sögu Íslands. Hafa sumar konurnar lesið mikið í sambandi við fyrirlestr-

ana, og oft hafa orðið nokkrar umræður á eftir. — Þó að þátttaka sé misjafnlega mikil.

Aðsókn hefir verið góð og fundir byrjað a tíma, kl. 8, þó hafa tvær af þessum konum um tvær mílur að fara og er það langur vegur í kulda og snjó, en þær láta sig aldrei vanta.

Á eftir fundum eru vanalega sungnir bæði enskir og íslenskir söngvar og oft hefir Miss Cuddy, sem spilar fyrir okkur, sungið einsöngva. Hún er eini annara þjóða (Írsk) meðlimurinn í þessum "Group", en hefir tekið góðan þátt í starfseminni. Íslenskar veitingar á eftir.

Við viljum óska Þjóðræknisfélaginu allra heilla með þessa hugmynd, sem eg er viss um að mun verða styrkur fyrir íslenska menning. Við viljum þakka Mrs. Danielson fyrir alt það starf sem hún hefir svo vel af hendi leyst fyrir hönd Þjóðræknisfélagsins.

K. Benedictson, ritari

Mr. Magnús Elíasson frá Vancouver gaf munnlega skýrslu frá deildinni þar, gat um líflegan félagsskap og góðan framgang elliheimilisins.

Skýrslan viðtekin samkvæmt till. Mrs. P. S Pálsson, sem margir studdu.

Skýrsla deildarinnar á Gimli lesin af Mr. Guðmundi Féldsted og viðtekin.

**Skýrsla þjóðræknisdeildarinnar "Gimli" 1947**

Gimli deildin hefir starfað svipað og að undanförnu. Fjórir starfs- og skemtifundir hafa verið haldnir á árinu með góðri aðsókn. Engin samkoma haldin þetta síðast liðið ár, þar af leiðandi litlar tekjur.

Íslensku kensla starfrækt, 50—60 börn sækja skólann, 6 kenslukonur. Deildin og skólinn þakka Mrs. H. Danielson fyrir þær ferðir, er hún hefir gert hingað til okkar. Þær hafa verið sex í alt. Ábyggilega hafa ferðir hennar fært gróður og líf í starf okkar.

Kær kveðja til þingsins.

G. Fjeldsted, forseti
J. N. Bjarnason, skrifari

Þá las ritari Lundar-deildarinnar, Mrs. L. Sveinson, skýrslu þeirrar deildar og var hún viðtekin.

**Ársskýrsla deildarinnar "Lundar"**

Þetta liðna ár mun að öllum líkindum lifa í minni okkar sem tilheyrum þjóðræknisdeildinni "Lundar", sem okkar stærsta ár.

Á fyrsta fundi okkar, afréðum við, að gangast fyrir 60 ára afmælishátíð Álftavatns- og Grunnavatns-bygða, sem haldin var 6. júlí s. l. Þar sem það var litlu félagi langt um megn, að standa fyrir svo stórkostlegu fyrirtæki, kvaddi deildin hin ýmsu félög og fólk bygðarinnar til samvinnu og var það fúslega veitt.

Annað stórfyrirtæki deildarinnar var, að stofna íslensku námsskeið. Nutum við þar ágætrar aðstoðar Mrs. H. Danielsonar. Gerði hún tvær ferðir til Lundar, og vann að útvegun kennara og nemenda með sínum alkunna dugnaði. Auk þess hefir hún unnið mikið starf við vélritun og fleira, og til hennar leita kennarar skólans, ef þeim ber einhvern vanda að höndum, það er gott að leita til hennar, hún verður vel við hverri bón.

Við höfum haft fjóra fundi á árinu, og eina samkomu. Ársfund höfðum við 20. janúar. Voru þá kosnir embættismenn fyrir þetta ár, séra H. E. Johnson, forseti; Mrs. L. Sveinson, ritari; Mr. S. Sigfússon, féhirðir; til vara: Ágúst Eyjólfson, vara-forseti; Mrs. T. Ganton, vara-ritari; Mrs. S. Hofteig, vara-féhirðir. — Einnig voru kosnir erindsrekar á þing: Mrs. L. Sveinson og Torfi Torfason.

L. Sveinson, ritari

Ársskýrsla deildarinnar "Iðunn" lesin af ritara deildarinnar, Rósmundi Árnasyni, og viðtekin.

**Ársskýrsla "Iðunnar" að Leslie**

Inntektir deildarinnar síðast liðið ár, að fyrra árs sjóði viðlögðum, $44.82. Útgjöld á árinu $20.99. Í sjóði hjá gjaldkera um síðustu áramót $23.83.

Það hefir verið lítið um skipulagða starfsemi eða fundahöld í okkar deild s. l. ár. Þó hefir bókasafnið verið starfrækt og nokkuð af bókum verið í útláni, meðal þeirra fáu, sem eftir eru og teljast meðlimir deildarinnar. Þá vill deildin hér með þakka hr. Vigfúsi J. Guttormssyni fyrir ljóðabók hans "Eldflugur", er hann sendi deildinni að gjöf.

Íslendingum fækkar árlega í okkar bygð og

er komið að því síðasta með skipulagðan íslenskan félagsskap. En þeir fáu, sem eftir eru kjósa þó enn að halda við okkar þjóðræknis félagsskap, því enn rennur þeim íslenskt blóð í æðum.

Enn er það sólskinsgjafi í hjörtum vorum. "rétt að nefna nafnið þitt". Enn er vonin glæðandi lífsneisti stríðandi hjörtum að auðnast megi að líta fornar bernskustöðvar, áður ævi lýkur.

Ennþá má glæða ættjarðarástina; enn má styrkja böndin.

Megi Þjóðræknisfélaginu vegna vel í því víðtæka starfi.

Með bestu kveðju og árnaðaróskum til þingsins og allra Íslendinga heima og hér.

Virðingarfylst,

R. Árnason, ritari

Próf R. Beck skýrði frá þeirri höfðinglegu gjöf sem ungmennafélag Íslands sendi Þjóðræknisfélaginu að gjöf í tilefni af heimsókn dr. Becks á alþingishátíðina. Gjöfin er ljósastjaki fagurlega útskorinn af Ríkaði Jónssyni.

Nú kvaddi forsetinn séra Eirík Brynjólfsson frá Útskálum á Íslandi til að ávarpa þingið og varð séra Eiríkur við þeirri kvöð. Létti það okkur öllum þreytu dagsins að hlusta á hið hjarta hlýja erindi gestsins frá Fróni.

Las nú Grettir L. Jóhannson bréf með kveðju frá Þjóðræknisfélaginu í Reykjavík á Íslandi og var séra Friðrik Hallgrímsson bréfritarinn.

Reykjavík, 18. febrúar 1948

Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi,
Ræðismaður G. L. Jóhannson,
910 Palmerston Ave.,
Winnipeg

Kæri vinur:

Bestu þakkir fyrir bréf þitt 3. þ. m. sem kom 11. þ. m.

Samkvæmt hjálögðu vottorði var innieign ykkar í sparisjóðsbók nr. 34057 í Landsbankanum um áramót, að meðtöldum öllum vöxtum, kr. 333.84. Í dag lagði eg inn í bankann kr. 7348.15, sem er greiðsla fyrir Tímarit XXVIII, að frádregnu burðargjaldi fyrir eintök sem við sendum út fyrir ykkur svo að í bókinni er nú kr. 7771.99. Bókin er geymd í geymslu minni í Landsbankanum.

Eg legg hér með skrá yfir þau Tímarit, sem við þurfum að fá frá ykkur, og vona eg að þið getið látið okkur fá þau, því að einn eða tveir hafa þegar beðið okkur um ritið frá upphafi, og fleiri geta komið, sem langar til að fá það. Þú gerir svo vel að láta senda okkur það ásamt reikningi við fyrstu hentugleika.

Umslögin, sem þú sendir sýnishorn af, er ágætt að fá því að þau spara okkur vinnu við umbúðir. Það væri gott að hafa þau 600, því að við erum að reyna að fjölga félagsmönnum.

Við erum nú byrjaðir að útvarpa til Íslendinga erlendis einu sinni á viku, og vona eg að einhverjir ykkar hafið heyrt kveðjuna sem eg flutti frá félaginu okkar 1. þ. m.

Kemur enn út ritið Baldursbrá, sem var gefið út handa börnum? Mér þætti vænt um að fá sem sýnishorn eintak af því sem út er komið, ef hægt er.

Eg sá í síðasta hefti Tímaritsins, bls. 141, að Hálfdán Eiríksson er þar talinn "forseti Þjóðræknisfélagsins í Reykjavík á Íslandi". Þetta er ekki rétt. Hann er ekki einu sinni í Þjóðræknisfélaginu okkar. En hann er formaður í litlu skemtifélagi fólks sem vestra hefir verið, og nefnist Félag Vestur-Íslendinga. Eg hefi árangurslaust reynt að fá það félag til samvinnu við okkur. Í stjórn Þjóðræknisfélagsins eru nú, kosnir á aðalfundi í síðastliðnum mánuði, auk míns, biskupinn, forseti, og þeir Ófeigur J. Ófeigsson, læknir, Kristján Guðlaugsson, ritstjóri og Ingvar Pálsson, gjaldkeri.

Eg skil vel erfiðleika ykkar við útgáfu rita á íslensku vestan hafs. Sýnilegt tákn þess er Sameiningin. Og þetta er eðlilegt, — og í raun og veru merkilegt hve lífseig íslenskan hefir reynst sem talað og ritað mál hjá ykkur. En þá er að reyna að finna smátt og smátt nýjar aðferðir til að varðveita þjóðernisarfinn, og hefi eg eins og nú stendur helst trú á gagnsemi stúdentaskifta og gagnkvæmum heimsóknum mætra manna, og líka góðum útgáfum á ensku af bestu bókmentum okkar að fornu og nýju. En það yrði of langt mál að fara út í þær hugleiðingar í þetta sinn. Það get eg samt sagt þér, að við í stjórnarnefndinni hér höfum nýlega verið að ræða þetta atriði og hugsa um að hverju leyti við gætum orðið að liði; því að við metum mikils þjóðræknisáhuga ykkar.

Að endingu bestu kveðjur okkar til Þjóð-

ræknisfélagsins og stjórnar þess, og eins frá okkur hjónunum til þín og konunnar þinnar með bestu óskum okkar um gæfu og blessun ykkur til handa.

Þinn einlægur,

Friðrik Hallgrímsson

Fundi frestað til klukkan 9.30 næsta dag.

Samkoma Icelandic Canadian Club um kvöldið var með ágætum góð. Það er ekki með öllum jafnaði, að mönnum bjóðist skemtiskrá þar sem hvert atriði má teljast ágætt. Mun það öllum góðum Íslendingum vera ánægjuefni að vort unga kyn sýnir góða hæfileika. Þar sem um þetta hefir verið áður af mér skrifað í blöðunum, skal ekki út í það frekar farið hér.

ÞRIÐJI FUNDUR

settur kl. 9.30 f. h. næsta dag

Fundargerð síðasta fundar lesin og samþykt. Lausleg og munnleg skýrsla Ásmundar Jóhannsonar um myndastyttu Leifs heppna gat þess að engar breytingar hefðu orðið í þessu máli á árinu.

Dr. Beck gat þess til viðbótar að frumvarp myndi liggja fyrir þingi Bandaríkjanna, sem færi fram á fjárveitingu til uppsetningar styttunni. Skýrsla viðtekin samkvæmt atkvæðum þingsins.

Þá gaf Páll Bardal ítarlega skýrslu fyrir hönd þeirrar milliþinganefndar, sem hafði húsbyggingarmálið til meðferðar, (hér átt við samkomuhús fyrir Íslendinga). Benti hann á nauðsyn þess að Íslendingar eignuðust samkomuhús eftir sínum þörfum. Áætlaður kostnaður 50,000 dollarar. Sýndi hann bráðabirgðar uppdrátt um hugsanlegt fyrirkomulag þessa húss.

Gerði Guðmann Levy það að tillögu, sem Mrs. B. E. Johnson studdi, að skýrslan sé viðtekin að því viðbættu að fimm manna þingnefnd sé skipuð í málið. Tillagan samþykt og þessir skipaðir í nefndina:

H. Thorgrímsson
Jón Ásgeirsson
Jón Jónsson
Ó. Pétursson
Guðmann Levy

Till. Jóns Jónssonar, að forseta og ritara sé falið að votta þeim þakklæti sem gerðu bráðabirgðar uppdráttinn af hugsanlegu samkomuhúsi Íslendinga í Winnipeg. Stutt og samþykt. Þeir sem uppdráttinn gerðu voru Pratt & Ross, Winnipeg Electric Chambers.

Þá var lesin skýrsla deildarinnar "Grund" í Argyle, af ritara deildarinnar G. J. Oleson.

**Skýrsla deildarinnar "Grund" í Argyle**

Deildin "Grund" hefir ekki verið athafnamikil á árinu, hún hafði 3 almenna fundi og einn nefndarfund. Almennu fundirnir Glenboro 2. júní, Baldur 8. des. og Glenboro 16. jan. Allir fundirnir voru fámennir en góðir og all fjörugir. Á síðasta fundinum var Mrs. Hólmfríður Danielson, fræðsluráðanautur og útbreiðslustjóri Þjóðræknisfélagsins. Talaði hún á fundinum og flutti mál sitt með eldmóð, lipurð og áhuga, hún heimsótti mörg heimili í Glenboro, fór líka til Baldur og átti tal við fólk þar. Lagði hún grundvöllinn að stofnun unglinga söngflokka bæði í Glenboro og Baldur, með fulltingi þeirra séra Eric H. Sigmar, Árna Sveinssonar, Maríu Sigmar og fleiri, er stofnað til þess á íslenska vísu. Ómögulegt er annað en Mrs. Danielson veki til lífs anda fólksins hvar sem hún fer. Hefir hún á þessum s. l. árum unnið meira að virkilegu þjóðræknisstarfi en máske nokkrir aðrir. Koma hennar til okkar var sérstaklega kærkomin.

20. okt. s. l. hafði deildin skemtisamkomu. Höfuðskáld okkar V.-Ísl., hr. Guttormur J. Guttormsson frá Riverton, var svo góður að koma til okkar og flytja erindi, sem var snjalt og skemtilegt, einnig fór hann með frumsamin ljóð.

Ísl. skóli hefir enginn verið hér og mun ekki verða. Kennara er ekki hægt að fá, og allir heilvita menn sjá að ekki er til neins að berja höfðinu við steininn. Slík kensla getur hvergi komið að neinu gagni. Íslenska er brátt dauðadæmd, hún getur ekki lifað hér eftir að hin yngri kynslóð er horfin. Maður verður að segja eins og er, hvað vænt sem okkur þykir um ísl. Okkar hlutverk er að byggja þjóðstofninum minnisvarða. Icelandic Canadian Club virðist vera vel á vegi að lesa letrið á veggnum og er að gera mjög þýðingarmikið verk í þá átt. "Icland's Thousand Years" og "The Icelandic Canadian" skilja eftir spor í

sandi tímans sem ekki fýkur í, og er það ekkert leyndarmál að Mrs. Danielson er driffjöðrin í því starfi.

Þá skal minnast á áskorun sem deild okkar fékk frá ellihælisnefndinni í Vancouver um fjárstyrk. Mun hún hafa skrifað fleiri deildum og félagsstofnunum hér eystra. Lagði eg þetta bréf fyrir almennan fund í Baldur 8. des., og var málið rætt og síðan eftirfylgjandi tillaga samþykt.

"Fundurinn felur erindsrekum á þjóðræknisþingið að hreyfa þessu máli á þinginu og mæla með því að Þjóðræknisfélagið sem heild taki að sér að styrkja elliheimilið að einhverju leyti í gegnum deildir sínar, þykir það rýmilegt þar sem fólk úr öllum bygðum Íslendinga hér eystra mun hafa not af hælinu."

Vildi eg mælast til þess að þessi tillaga væri tekin til athugunar og á dagskrá þingsins.

Deild okkar taldi í ár sem leið 40 meðlimi, má ef til vill saka framkvæmdarnefnd um það að svo fáir voru í deildinni. Var reynt að ráða bót á þessu fyrir næsta ár með því að kosnir voru 4 til útbreiðslustarfs fyrir næsta ár. Einn úr hverjum bygðarparti.

Embættismenn deildarinnar eru nú:
Forseti: G. S. Johnson, Glenboro
Skrifari: G. J. Oleson, Glenboro
Féhirðir: Ingi Swainson, Glenboro

Dagsett að Glenboro, Manitoba, 21. febr. 1948.

G. J. Oleson, skrifari

Var skýrslan viðtekin samkvæmt atkvæðum.

Nú var dr. Árni Helgason frá Chicago kominn til þings og gaf hann munnlega skýrslu frá sambandsdeildinni í sinni borg.

Var sú skýrsla viðtekin.

Þá kynti ritarinn séra Björn Jóhannson frá Buffalo, þinginu, en hann hafði heimsótt það. Ávarpaði séra Björn þingheim með fáeinum orðum.

Lagði nú G. L. Jóhannson fram skýrslu þingnefndarinnar í málinu varðandi námssjóð Agnesar Sigurðsonar.

**Nefndarálit varðandi námssjóð Agnesar Sigurdson**

1. Nefndin telur að mjög sé æskilegt að fjársöfnun til styrktar námi Miss Agnesar Sigurdson sé haldið áfram af nefndinni til n. k. júní loka.

2. Þingið þakkar öllum þeim félögum og einstaklingum fyrir þann mikla styrk sem hefir verið léð þessu máli Þjóðræknisfélagsins; en æskir þess jafnframt, að deildir og einstaklingar innan vébanda félagsins athugi hvort að frekari fjárframlög gætu ekki verið lögð fram.

3. Nefndin telur æskilegt að gjafalistar séu birtir í íslensku vikublöðunum.

4. Nefndin álítur að æskilegt væri að samskota væri leitað á þinginu.

Nefndin:
Mrs. H. F. Danielson
Mrs. L. Sveinson
Mrs. Anna H. Árnason
Mr. H. M. Swan
Mr. Grettir Leo Jóhannson, formaður

Einnig las hann bréf frá Agnesi.

605 West 115th St.,
New York 25, N. Y.,
Febr. 20th, 1948

The Vice-President,
The Icelandic National League,
Winnipeg, Canada.

Dear Rev. Petursson:

This is now my third year in New York, and I realize, as always, what you have all done for me. May I take this opportunity to greet my many friends and to thank you all again.

I am now preparing my program for Iceland, and I feel very inspired in my work. As you know, I am studying now with Emma Boynet, the famous French pianist. It is a rare privilege to study with such an artist! She has invited me to go to France to study with her this summer, after I have been in Iceland. She has her studio up in the mountains in Mégéve. I can hardly believe I have such a wonderful thing offered to me, and I hope I can make arrangements to go there. It would be such a tremendous opportunity to study with her constantly during the summer. It is very seldom that Miss Boynet invites her pupils to study with her in the summer months. I am so grateful to her for all that she does for me.

If I go to France, as I hope to, I will be in Winnipeg in September to give my recital in the Auditorium. Then I will come to New

York again, to give my Town Hall recital. I should know soon what date I am given for my debut in New York. I made application long ago for my date, but, like everyone else, I have to wait to be notified. Miss Boynet is arranging for me to go under management, which will make all those things easier.

Next month I am to give a recital in Tarrytown, New York.

I am working hard, and I hope that some day I will be a credit to all who have done so much for me. May I thank you all again for everything, and send you my best wishes.

Sincerely,

Agnes Sigurdson

Tillaga að nefndarálitið sé rætt lið fyrir lið, gerð af Miss Sigurrósu Vidal, stutt af G. Erlendssyni, till. samþykt.

Fyrsti liður lesinn og samþykt. Tillaga dr. Becks stutt af G. J. Oleson.

Annar liður samþyktur. Tillaga Magnúsar Elíassnoar stutt af Guðm. Féldsted.

Þrðiji liður samþykt. Till. J. Olasonar sem Páll Guðmundsson studdi.

Fjórði liður lesinn og gerði ritari þá tillögu að honum sé vísað aftur til nefndarinnar. Var tillagan studd af Vidal. Var tillaga samþykt. Nefndin gerði það að tillögu að liðurinn sé dreginn til baka.

Dr. R. Beck gerði þá tillögu, að nefndarálitið sé samþykt með áorðnum breytingum í heild sinni. Sutt af Miss Vidal og samþykt.

Þá las Rósmundur Árnason tillögur þingnefndarinnar í útgáfumálinu.

**Útgáfumála nefndar álit**

1. Nefndin í útgáfumálum leyfir sér að leggja fram eftirfylgjandi tillögur: Þingið þakkar ritstjóra Tímaritsins, Gísla Jónssyni, fyrir hans fórnfúsa og ágæta starf, sem hefir borið ávöxt í hinu merkilega, fróðlega og fjölbreytta riti Þjóðræknisfélagsins.

2. Þingið þakkar Mrs. P. S. Pálsson hennar ágæta verk við auglýsingasöfnun og eins öllum sem stutt hafa ritið með auglýsingum.

3. Þingið felur stjórnarnefnd sinni að gefa út ritið á næsta ári í svipuðu formi og stærð, ráða ritstjóra og sjá að öðru leyti um framkvæmdir í því máli.

4. Að fréttir af þinginu verði höndlað eins og að undanförnu og komi út í íslensku vikublöðunum eins fljótt og unt er.

Ó. Pétursson
E. Magnússon
Rósm. Árnason

Tillaga Miss Vidals að nefndarálitið sé rætt lið fyrir lið. Stutt af Guðm. Jónassyni og samþykt.

Fyrsti liður lesinn og samþyktur. Till Miss Vidal sem Guðm. Jónasson studdi.

Annar liður lesinn og samþyktur. Tillögumaður dr. Beck, stutt af Guðmund Féldsted.

Þriðji liður lesinn og samþyktur. Tillaga Guðmundar Jónassonar, studd af Miss Vidal.

Fjórði liður lesinn. Við hann gerði Eldjárn Johnson þessa breytingar tillögu: Að Tímarit Þjóðræknisfélagsins komi út, ef þess er kostur, fyrir jól. Breytingar tillagan nokkuð rædd og síðan borin upp til atkvæða og feld.

Þá gerði ritari það að tillögu að fjórða lið sé vísað aftur til nefndarinnar til frekari athugunar. Tillagan studd af J. Olasyni og samþykt.

Var svo fundi frestað til 1.30 eftir hádegi.

FJÓRÐI FUNDUR
settur kl. 1.30 e. h.

Fundargerð síðasta fundar lesin og samþykt. Aukaskýrsla kjörbréfanefndar borin fram, er lagði til að eftirgreindum fulltrúum yrði veitt full þingréttindi: Trausta Ísfeld frá deildinni "Brúin", Selkirk og Th. Gíslason frá deildinni "Ísland", Brown, Man. Formaður kjörbréfanefndarinnar, Guðmann Levy, lagði till. fram og var hún samþykt eftir stuðning Eldjárns Johnsonar.

Þá var háskólamálið tekið til umræðu og var það innleitt með ítarlegri ræðu, sem dr. Thorláksson flutti.

St. Mary's and Vaughan St.
Winnipeg, Manitoba,
February 28th, 1948

Dear Sir:

The establishment of a Chair in Icelandic Language and Literature at the University of Manitoba has been under consideration and a subject of discussion for a number of years.

It is my conviction, after attending numerous meetings and interviewing numbers of individuals, that people of Icelandic extraction have a strong desire to create something of value and significance. In 1944 while President of the University of Manitoba, Dr. Sidney Smith stated that Icelandic Literature contains unusually rich material in poetry and prose and that the study of this Literature would open an field of investigation in comparative Philology, particularly in old English and old German. Dr. Smith added that the University of Manitoba has the best collection of Icelandic books of any Canadian University and that with the single exception of Reykjavík, Winnipeg has the largest Icelandic population of any city and therefore is strategically situated to readily become the leading institution of higher learning in Canada for the study of Icelandic.

The time has now come when definite decisions must be made, policies established and action taken if the Chair is to become a reality. It is of the utmost importance that the element of uncertainty and possible disappointment should be eliminated at the start.

For some months past, representatives of various Icelandic organizations have been meeting for the purpose of consolidating plans which would ensure the success of such an undertaking. A final meeting of this temporary committee was held on June the 6th last. It was unanimously agreed that immediate steps should be taken to organize a campaign to collect funds to establish the Chair and I was asked to accept the responsibility of setting up a permanent committee to be constituted of men and women who are now prepared to support the project with financial contributions of $1000.00 or more.

I invite you to become a charter member of this committee which will be known and recorded as the Founders of the Chair in Icelandic Language and Literature at the University of Manitoba. The first $100,000.00 is to be donated by the Founders. To reach that objective, it is necessary that contributions from one to ten thousand dollars or more be made now. When this objective of $100,000.00 has been reached, or exceeded if possible, the Founders will make such arrangements as are deemed necessary and proper to invite public subscriptions to the end that the fund would eventually reach at least $150,000.00.

You will be interested to know that at this time there is already on deposit with the University of Manitoba, bonds or cash to the value of $65,000.00. This money has been donated or placed in the fund with the explicit understanding that if the sum reaches $100,000.00 on or before January 10th, 1949, it will be available for the purpose of establishing the said Chair, otherwise it is to be returned to the donors, or disposed of as they may direct. I have received a letter from Dr. A. W. Trueman, President of the University of Manitoba, in which he assures me that he will recommend to the Board of Governors, the establishment of the Chair as soon as adequate financial support is assured.

Our hope is that before the end of the year the Founders will be able to announce that the first objective has been reached.

We would consider it an honor if you would associate yourself with the Founders. Kindly notify me of your decision at the earliest possible date.

Yours sincerely,

P. H. T. Thorlakson, M.D.

Rakti dr. sögu málsins og tilgreindi ýmsar mótbárur og gaf svar við þeim.

Lagði ritari til að skýrsla dr. Thorlákssonar, sem er formaður milliþinganefndarinnar í málinu, sé viðtekin, stutt af mörgum og samþykt.

Bar þá dr. Beck í fráföllum próf Tryggva Olesons, formanns nefndarinnar í háskólamálinu fram skýrslu þingnefndarinnar í því máli.

**Skýrsla þingnefndar í háskólamálinu**

Í samræmi við grundvallar atriði stefnuskrár sinnar um varðveislu íslenskra menningarerfða og útbreiðslu þekkingar á þeim, hefir Þjóðræknisfélagið frá því snemma á starfstíð sinni litið svo á, að stofnun kennaraembættis í íslenskum fræðum við Manitoba-háskóla væri eitt hið mesta framtak, sem Íslendingar gætu innt af hendi í þessari álfu; og hefir sú stefna haldist óbreytt. Stofnun slíks kennaraembættis yrði einstætt afrek meðal Íslendinga erlendis.

